# TÍMARIT

## Þjóðrœknisfélags Íslendinga



**Níundi Árgangur, 1927.**

Ritstjóri: RÖGNVALDUR PÉTURSSON.




WINNIPEG, MANITOBA.

GEFIÐ ÙT AF ÞJÒÐRÆKNISFÈLAGI ÌSLENDINGA

1927.

# EFNISYFIRLIT.



PRENTVILLUR

Þessar eru meinlegar og menn beðnir að lesa í málið:—

Bls. 5: 22. l. í síðara dálki "þygg" fyrir *þigg*.
" 37: 10. l. í fyrra dálki "sýnirhorn" fyrir *sýnishorn*.
" 54: 30. l. í síðara dálki, "ýtrasta" fyrir *ítrasta*.
" 55: 21. l. í fyrra dálki, "viðskiftalönd" fyrir *viðskifta-bönd*.
" 57: 19. l. í fyrra dálki, "kröf-" fyrir *kröft-*.
" 59: 30. l. í fyrra dálki, "Ðaginn" fyrir *Daginn*.
" 68: 26. l. í fyrra dálki, "hagðsagði" fyrir *hugsaði*.
" 71: 11. l. í síðara dálki, "stofnað" fyrir *sofnað*.
" 72: 1. l. í síðara dálki, "han" fyrir *hann*.
" 72: 23. l. í síðara dálki, "rumksað-" fyrir *rumskað-*.
" 75: 27. l. í síðara dálki, "síku" fyrir *slíku*.
" 79: 34. l. í síðara dálki, "hafa vak-" fyrir *hafa haft vak-*
" 97: 2. l. í síðara dálki, "Þurðíðar" fyrir *Þuríðar*.



*)Höfundar nafnið misprentaðist við ritgerðina.

# Hugsað til St. G. St.

Eftir *Jakobínu Johnson.*

Næðir norðan gjóstur
Nýja-skóg þinn gegnum.
Tein-rétt trén á hólnum
Titra' af hrolli megnum.
Drif-hvít dular-blæja
Dáin laufblöð vefur.
— Reitinn út við ána
Annast — því þú sefur.

Eigi þú, — en aðeins
Andans reiki hjúpur.
Þú munt til vor tala
Tiginn jafnt og djúpur
Meðan íslenzk óð-snild
Unað sálu vekur,
— Meðan orka' og eldur
Efasemdir hrekur.

Þú munt til vor tala
Táp-mikill og vitur,
Þegar önn og angur
Um vorn huga situr.
Þín var reynsla þrungin
Þessum sömu tárum
— Samt var kvæða-knör þinn.
Konungs-fley á bárum!

Hvar sem önd þín unir
Útsýn mun til fjalla.
Heið mun sýn til sólar,
Sí-græn blöð um hjalla.
Andi alls hins fagra
Er þú gafst í ljóðum,
Hyllir dvalar-heim þinn
Hugarfylgjum góðum.

Hvar sem önd þín unir,
Andrúms loft mun fyllast
Sannleiks-ástar eldi,—
Ekkert skrum mun gyllast
Aumu yfirskini
Andleysis og hroka.
— Aldnar vanans verjur
Verða' um set að þoka.

Hvar sem önd þín unir,
Ei mun vetur þjaka.
— Vor og sí-blítt sumar
Sífelt hjá þér vaka.
— Ótal þúsund þakkir
Þygg — frá vina heimi!
— Andvakan er enduð. —
Ár-roðinn þig geymi!

31. des. 1927.



# Um orðtengðafræði íslenzka.

Eftir *Pál Bjarnarson.*

Íslenzk orðtengðafræði er harla sjaldgæft efni í alþýðublöðum og tímaritum íslenzkum. Að undanteknum hinum fróðlegu og skemtilegu samanburðarmálfræðigreinum Benedikts Gröndals í tímariti hans, Gefn, man eg ekki til, að eg hafi nokkru sinni rekizt á nokkra grein um það efni í nokkru blaði eða tímariti íslenzku. Svo lítið sinna Íslendingar orðtengðafræði sinni og er það hlálegt, annað eins fróðleiks ógrynni og fólgið er í henni, svo sem nærri má geta, jafn hundgömul og tungan er og jafn vandlega og hennar hefir geymt verið, síðan er hún nam land á Íslandi. Og svo líka af því að orðtengðafræði er sú grein, sem geðþekkust er alþýðu, af öllum málfræðifróðleik. Það er varla nokkur maður svo frábitinn málfræði, að honum þyki ekki gaman að fræðast um eiginlegu merkingu orða þeirra, er hann fer með, og hversu þau séu komin að þeirri merkingu, sem hann hefir þau til. Það er ekki sakir þurrleiks, að orðtengðafræðin er svo lítið á orði og borði með Íslendingum, heldur af því, að sérfræðingarnir leggja litla rækt við hana. Að minsta kosti liggur manni næst að halda það, er maður sér í ritum þeirra "uppruni óviss," "óskýrandi" um það, sem nær því hver alþýðumaður kann deili á, eða alveg rangar orðtengðarakningar; til dæmis að taka orðakver Fornfræðafélagsins eftir jafnveglegan sérfræðing og Finn Jónsson.

Síðan er leið frá Grimm og R a s k og samburðarmálfræðin komst á legg, hafa kvíar málfræðináms færzt mjög út. Nú þykir enginn mega heita sérfræðingur í hverri tungu, sem er, að undantekinni Íslenzku, nema hann þekki uppruna orða hennar, eiginlega merkingu og sögu þeirra út í hörgul eins langt og vísindalegar rannsóknir taka og álíkur. Þannig er nú t. a. m. enginn haldinn sérfræðingur, fullnuma, eða hafa sjálfstæða þekkingu á enskri tungu, nema hann sé handgenginn bæði germönskum tungum, þar með talin Íslenzka, og rómönskum. Því Enska er talin runnin um 70% af norrænum tungum og hinn hlutinn kominn aðallega af Keltnesku, Latínu og Frönsku.

Að því er snertir Íslenzku, þá er hún að mestu óblandin tunga og hefir haldizt á Íslandi alveg eins og hún var í fornöld, þá er hún gekk á Norðurlöndum, miklum hluta Bretlands og víðar, ómenguð að öðru en breytingum þeim, sem lifandi tunga er háð á tímanna rás og rækar eru öld af

öld af íslenzkum ritum. Orðtengðafræði Íslenzku hlýtur því að vera hin allra merkilegasta tungum þeim, sem eru runnar af henni, svo sem eru Norðurlanda mál og Enska, og raunar germanska tungnaflokknum öllum saman sakir geymslu tungunnar ómengaðrar fram á vora daga. Íslenzkur maður þarf þó ekki náin kynni af orðtengðafræðilegum ritum þessara mála til þess að verða þess var, að Íslenzku er þar ekki gefinn jafn mikill gaumur og hún verðskuldar og æskilegt væri fyrir þekkingu. Það kemur vitaskuld ekki til nema af því, að Íslendingar sjálfir leggja litla eða enga stund á orðtengðafræði tungunnar, og svo með fram af því að fræðimönnum, sem ekki eru af íslenzku bergi brotnir, er ofvaxið að taka fræðina saman eða botna í henni, því til þess þarf íslenzkt málfræðisinnræti í bezta lagi og svo nána þekkingu bæði á bókmáli og mæltu máli íslenzku, sem þeir ekki hafa. Þetta er ekkert sérkennilegt Íslenzku, því svo mun vera um orðtengðafræði hverrar tungu, sem er, að hún sé um megn öðrum en þeim, sem borinn er tungunni. Íslendingar verða sjálfir að taka orðtengðafræði sína upp á arma sér. Hún er líka, auðvitað, bráðnauðsynleg til fullnaðarþekkingar á tungunni sjálfri. Það eru til staðir í fornritum enn óskildir, af því að orðtengðafræðinni er ekki beitt við þá, og eiginlegar merkingar margra orða bæði í Íslenzku og öðrum tungum missagðar eða óskildar fyrir fákunnandi í íslenzkri orðtengðafræði.

Það er áform þessa erindis að vekja dálitla eftirtekt með alþýðu á hinum stórvægilega merkileik, sem íslenzk orðtengðafræði á til brunns að bera bæði fyrir tunguna sjálfa og erlendar tungur, og skýra fyrir henni með fáeinum sýniskornum, hvers kyns sé fróðleikur sá, sem orðtengðafræðin hefir upp á að bjóða. Það sýnist tímabært að hreifa við þessu á þessum tímum, er Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi eða leiðtogar þess eru að stríða við að fá menntagildi íslenzkrar tungu viðurkennt og tunguna tekna á kennsluskrá æðri skóla í fylkjum Canada, eins og þegar hefir fengist í Manitoba fylki. Íslenzkri alþýðu hlýðir að vita nokkur deili á því, hversu mentagildi því sé farið, sem félagið styður kröfu sína við.

Orðtengðafræði íslenzka greinir í tvo hluti; annar þeirra tekur yfir orðtengðir við erlendar tungur svo sem t. d. dyr, á Ensku door, Dönsku dör, Þýsku thür, Latínu fores, Grísku þyra o. s. frv.; hinn yfir orðtengdir innan tungunnar sjálfrar. Hér verður ekki fengist við hinn fyrnefnda hluta að neinu verulegu ráði, nema til þess að ná þeim tilgangi, er að framan getur. Eg held mér við orðtengðir innan tungunnar og styðst að mestu við leiðsögn þeirra Guðbrandar Vigfússonar og Konráðs Gíslasonar, er heita mega höfundar

þessa hluta orðtengðafræðinnar; því þeir hafa leift drögin drjúgust til hennar, þótt þeim hafi lítill gaumur verið gefinn af lærðum sem leikum. Í Frumpörtum íslenzkrar tungu Konráðs Gíslasonar er margra atriða getið, sem lúta að orðtengðafræði, og hið sama í hinni ágætu orðabók, Cleasby, Guðbrandar Vigfússonar. Undir hverjum staf er þar getið um stafaskifti innan tungunnar og eins um staffærslu milli tungna og þar að auki eru orðtengðir erlendar raktar aftan við helztu orð eða fjölda af þeim á þessa leið, t. d.: Kálfr, m. (Gotn. Kalbo, Engilsaxn. cealf, Fornþýzka chalba, Þýzka Kalbe, Sænska Kalf), eða kýr, f. (sameiginlegt öllum þýðverskum tungum og eins Latín. bos, Grísku Bous). Er þetta allt saman hinn mikilvægasti fróðleikur og hin bezta hjálp hverjum, sem vill fást við orðtengðafræði íslenzka, þótt merkileik hennar fyrir aðrar tungur gæti þar ekki, vitaskuld, því tilgangur orðabókarinnar er að skýra orð, en ekki sá að rekast í upphaflegri eða eiginlegri merkingu þeirra. Hljóðskiftið er aðal orðmyndunarlind tungunnar, komið eingöngu eða að mestu leyti af sterkri sagnbeyging, og er áríðandi að hafa hljóðskiftið hugstætt, er til orðtengðafræði kemur eða orðtengðarakninga. Orðmyndanin fer eftir sagnbeygingum, eins og kunnugt er og fyrir bragðið er hægt að ráða til sagnbeygingar af orðmyndaninni. Allir kannast vel við tengð milli orðanna: bindari, band, benda, bast, bátr, byndi, buna, því öll eru þau á beygingarslóð sagnarinnar binda og fara með merkingar áþekkar hennar. Buna merkir strengur og svo það, sem eins og bindst saman af aflshraða, Bjarni buna; sbr. Sigurðr ullstrengr, bunustokkr, blóðbuna. Væri sögnin binda nú höfð veik eða væri hún ekki til í málinu, þá væri heimilt að álykta af orðunum að framan að hún væri að réttu lagi sterkbeyg eða að hún hefði verið til. Allir finna það, enda færir orðtengðafræðin manni heim sanninn um það, að margar sagnir séu sterkar að réttu lagi, sem nú eru hafðar veikar, og að tungunni hafa týnst sterkar sagnir. Sumar sagnir hafa tvær beygingar; eru bæði sterkar og -ra-beygar og renna þá orð af hvorritveggja beygingunni eða geta runnið. Um síðari beyginguna er þá að gæta þess, að fortíðar-stofnhljóðið getur verið e, ö eða æ eða ey, því stafir þessir skiftast á í stofnum sagnanna, og að r-ið í beygingarviðskeytinu skiftir við ð. Til að mynda sögnin slá, sló, sleginn beygist líka slá, slöra, slörinn. Af sterku beygingunni renna tengdirnar: slag, slá, sleggja, slátta, sló(g) (í horni kvk.; úr fiski hvk.), slý, slægr o. fl., en af hinni sleði, slen, slör (andlitsblæja), slys, slóði, slæða, slöðra o. fl. Orðtengðafræðin hermir frá því, að fleiri sagnir séu -rabeygar en málmyndalýsingar telja.

Næst hljóðskifti er samdráttur í orðum eftirtektaverður og tíður í Íslenzku bæði í stofnum og viðskeytum, og tillíkingar; þá hversu stafir skiftast á í stofnum, sem þeir Konráð Gíslason og Guðbrandur Vigfússon hafa gert nána grein fyrir; enn fremur úrfall stafa og innskot og þar með hljóðlengingar og hljóðgrenningar; loks stafavíxl, staffærsla og hljóðvarp. Orðin geta verið harla ólík að stöfum eða hljóði og þó verið tengð. Leiðarsteinninn til að rekja tengðir þeirra í breytingabendunni er merkingin. Þótt orð séu lík, eru þau vart skyld, ef merkingar eru fjarstæðar, nema gerandi sé þá grein fyrir því, hví merkingar hafi færzt sundur. Þessar stuttu athugasemdir verða að nægja til að átta menn á því, sem fer hér á eftir. Eg vík svo að efninu sjálfu og byrja sýnishornin með orðinu ambátt.

Ambátt er talið í erlendum orðtengðabókum komið af keltnesku orði ambiact=þjónn og svo rakið í orðakveri Fornfræðafélagsins. Orðið er alíslenzkt. Eg hefi rakið það af am og sögninni baga sterkbeygri, en eðlilegra er að rekja það af hljóðskiftis forsetningunni amb=umb=um og sögnunni aga, samdr. á, að sjá um, hirða.[1] Orðtengdir sagnarinnar sanna sterka beyging hennar: agi, umsjá umvöndun; á, umsjá, hirða, í samskeytingum á-fangi, afbagað áifangr fyrir árfangr það að fá e-u hirðu, viðstöðustaður til að á hrossum eða skepnum á ferð; áifóðr=árfóður, fóður til að gefa á áföngum; ármaðr, umsjámaður, árr hið sama, ánn (ónn) áhyggja, erfiði; umb-ógr umhyggja, átt (ótt) sú, *sem hirðir*. Amb-átt merkir þá eig. umsjákona, vinnukona, þý; því vinnufólk var ófrjálst í fyrndinni. Páfarnir titluðu sig snemma og titla sig enn servus servorum, þ. e. árr áranna, af því að þeir þóttust vera ármenn Krists og skyldir til að hafa án um sáluhjálp manna, og sýslu sína nefndu þeir embætti. Þá gerðist uppgangur merkingar orðsins og seildust bæði konungar og ármenn þeirra til orðsins; gerði þá grein embættanna andleg og versleg, en lengi eimdi eftir af hinni auðvirðilegu merkingu með alþýðu, og þótti göfugra að vera frjáls maður en konungs þræll, svo sem sjá má af sögu Ólafs helga. Af Íslenzku fá erlendar orðtengdir skýring sinnar eiginlegu merkingar svo sem hin enska embassy, sendiherra, f r a n s k a ambassadeur hið sama, þýzka Ambt, embættisstarf, danska amt, er svo flytst til Íslands og eykur tunguna orðinu amtmaður og skensyrðinu ampi. — Ánn (ónn) er tvennur í tungunni, ánn, áhyggja, erfiði, í forskeytum ann- (viðbótar hljóðgrenning fyrir án) í t. d. annkanni eig. það, sem fyrirhöfn tekur eða erfiði að kanna,

---

[1]) Þetta breytir þó engu um það, að baga sé sterk að réttu lagi. Tengðir hennar sýna það, baga, bagi, bágr, baggi, bann (viðbótarhljóðgrenning fyrir bán) bógr, bjórr, býsn, o. s. frv.

átta sig á; annes (n-úrfall til framburðarléttis), nes bágt hjá að komast. Forskeytið hefir verið ranglega skýrt sama og and. Hinn, ánn, er sjálfstæður og forskeyttur í ána-dauði, ána-sótt, ána-maðkur og getur ekki verið tengður sögninni að á. Þeir Sigfús Blöndal, hinir ágætu orðabókar höfundar, geta þess í bók sinni að ánamaðkur muni upphaflega vera agnamaðkur; sbr. norska agnmakk; en það er hæpið, því öll eru forskeytin líklega sömu merkingar; enda mun oftast reynast svo, að það sé að fara í geitarhús að leita sér ullar, að hverfa frá Íslenzku til Norsku eftir eiginlegum merkingum. Nær er að gæta þess að van og ónn kunna að vera og eru sjálfsagt hljóðskiftis orð sagnarinnar að vana sterkrar, þótt nú sé veik, er merkir að gera vant e-s. Ónn, (því ó og á skiftast á) merkir þá líkt og van, vöntun eða þrot. Ánadauði ánasótt eig. dauði, sótt, sem kemur af þrotum, þrotnum lífskrafti,- og ánamaðkur sama eins og vanmaðkur; sbr. vanmenni, vesall maðkur, þrotmaðkur. Sjálfstætt er orðið haft í þolfalli forsetning með eignarfalli eða þolfalli og segir til eiginlegrar merkingar þýzku orðtengdarinnar ohne og ensku out í without. Einnig merkir það sjálfstætt þann hluta blaðs, er þrýtur eggina; sbr. sverðskenninguna ónn hjalta. Fr. Läffler getur þess til, að ánasótt sé= áasótt, gamalla manna sótt—nið þá líklega skýrt upp á nýtízkulega troðkenningar vísu—og S. Bugge þess, að ána sé eignarfall fleirtölu orðs, er svari til gotn. aþn, ár, og ánasótt merki eig. árasótt þ. e. elli sótt. Þessum getgátum má réttast vísa undir síðasta lið hinnar tíðu tilvitnunar: sumt var gaman, sumt var þarft, sumt vér ekki um tölum.

"Annboð (frb. amboð f. andboð)" segir í málfræði ísl. tungu eftir Finn Jónsson. Það er víst ranghermi, að annboð sé framborið amboð, engin dæmi til að nn sé frb. m. Sannleikurinn er sá, að annboð og andboð eru ambögur búnar til til að gera sér amboð skiljanlegt, þótt þær geri það ekki frekar, en ambögur eru vanar að gera. Aftur er amboð vel skiljanlegt, þegar orðtengða er gætt. Amboð er samsett amboð, af amb=um og oð (ð fyrir nn) =[2]*onn, upphaflega *onnr, kk. þótt þeirrar getgátu þurfi ekki endilega við, af sögninni að inna, veita, láta í té, gera skil; og amboð = amb-oðr = amb-onnr merkir eig. það, sem innir skil á e-u, vinnutól eða verkfæri. Orðtengðirnar sýna sögnina inna tvímælalaust sterka að réttu lagi. Þær eru: *innr, lýsingarorð, eig. sem innir, sbr. langvinnr af að vinna; af því kemur *innð, fyrir úrfall nn og hljóðlengingu íð, eig. verk í té látið, list; án hljóðlengingar ið, kvik, og svo af því iða, iðja,

---

[2]*merkir að orðmyndin komi ekki fyrir í málinu, þótt rétt sé að lögum málsins.

iðn; *innr=iðr, eig. það, sem innir eða iðar, innyfli; þá er önn, það að inna; áss eig. veitandi, dugandisgoð, flt. æsir; uppruni talinn óþekktur af sérfræðingum; ást eig. hið innta, elska, unna, að elska og svo amboð. Nú er sterk beyging sagnarinnar, inna, ann *onninn horfin úr málinu svo að ekki er örmul eftir af henni nema þátíð framsöguháttar. Hún er höfð fyrir nútíð framsöguh. i beygingu sagnarinnar unna. Hvað kemur til? Það afbrigði íslenzkrar tungu, sem ekki er enn þá í vitum íslenzkrar málfræði höfunda, að sumar afrunasagnir hafa útrýmt sterkum upprunasögnum sínum og náð til sín fortíðar beygingu þeirra með þeim leikslokum, að upprunasagnirnar hafa orðið veikar eða farið undir lok. Í öllum málfræði bókum er kennt að hefja, sverja, deyja o. fl. séu sterkar sagnir; en þær eru það ekki. Þær eru afrunasagnir sagnanna hafa, svara og *dá og veikar, en fortíðarbeyging upprunasagnanna er höfð með þeir auk veiku beygingarinnar, t. d. nútíð hefja, fortíðar myndir hafða hafiðr og líka hóf, hafinn, sverja, fortíð svarða, svariðr og líka sór, svarinn, deyja fortíð deyða (afbrigði fyrir dauða) dauðr og líka dó, dáinn. Nútíðar beyging sagnanna er æfinlega veik, fortíðar beygingin ýmist veik eða sterk. Veiku beyginguna eiga sagnirnar, en sterk beyging er ekki þeirra, þótt hún sé höfð með þeim, heldur upprunasagnanna hafa, svara og dá, er sumpart hafa orðið veikar eða liðið undir lok. Það gerir skilsmun. Hið sama á sér stað um fortíðar-núlegar sagnir svo sem ann, kann, man, þarf o. s. frv. þekkjanlegar þátíðir sterkra sagna inna, kenna, minna, *þirfa. Veikar afrunasagnir þeirra, unna, kunna, muna, þurfa hafa ruglað og brotið niður beygingu þeirra hina sterku, og í þeim ruglingi fengið hina fögru og lífseigu þátíð þeirra fyrir nútíð, en sterku sagnirnar horfið til veikrar beygingar eða til loka. Samt verður nú kennt eins og kennt hefir verið og glundrað saman veikum myndum og sterkum, meðan sú aldan er uppi "að líta síður einstrengingslega á ýmsar orðmyndir," eða menn nenna ekki að gæta þess, að engin von var til, að hinir miklu og ágætu brautryðendur ísl. málfræðiþekkingar ryddi þekkingunni braut út í allar æsar um öll afbrigði tungunnar stór og smá.

Brandr er umþráttaðrar merkingar í erindi Hávamála: bráð er þörf þeim er á bröndum skal síns of freista frama. Alþýðumenn skilja flestir orðið víst skíði. Þeim er svo afarljóst, að brátt ber að og mikið liggur á að gegna því, sem þarf á skíðum til þess að fara ekki á hausinn af þeim. Orðtengdafræðin styður og þann skilning. Orðið er komið af hljóðskiftistofninum bran, brun, sem fer með merkingu hraða. Brandr eig. það sem fer fljótt, og eldibrands, sverðs og skíða merkingin greinist eðlilega úr upphafs-

merkingunni; heitir branda og fiskur, því skjótt bregður honum fyrir; sbr. og kaldr og kalda. Orðið brandr er líka að skoða lýsingarorð sama, fyrir úrfalls hljóðlengingu, og bráðr. Margar sterkar sagnir 1. flokks eru tengðar lýsingarorðum, er hafa þátíðar hljóð þeirra í stofni og lýsa verknaði eða ástandi, sem sagnirnar fara með, svo sem sprakr, springa, slapr sleppa, svalr svella, valtr velta o. fl., o. fl., þá eins brandr brenna. Brenna áhrifsl. merkir þá eig. að vera fljótur eða fara fljótt. Merkingin hermir skilning feðra vorra í örófi alda, er tungur g r e i n d i, á elds-fyrirbrigðinu. Hvarfið hefir mest fangað eftirtekt þeirra. Brenna og bræða merkja eig. að gera e-ð eða e-u brátt eða svo að fari fljótt. Íslenzkan lýsir yfir eiginlega merkingu enskra orðtengða svo sem brand, burn o. s. frv. jafnt sem yfir þýzkar og Norðurlandamála. Stafaskifti verða í hljóðskiftis stofnunum bran, brun t. a. m. að braga, samdr. brá, eig. bera snöggt fyrir, tindra, blika, sterk sögn og -ra-beyg að vitni orðtengða: brá, ís köllum brá breiða; Dana-bróg eða brógr, brý, flt. brýr (augabrýr), breði, jökull; líklega afruna sögn *brýja gera orðin brúðr, brún; sbr. lýja; brum eig. það, sem brunar eða þýtur út, knappar trjáa, brumr, eig. útþotstími, í fremsta brumi sinna daga; b r u ð r=brunnr, eig. það, sem brunar fram, uppspretta, lind, allir eiga sama til brunns að bera =allir erum vér dauðlegir, orðtak runnið frá sögu Óðins við Mímisbrunn. Samstofna er og bregða, eig. fara brátt eða snöggt með e-ð. Orðtengðafræðilega er eftirtektavert, að lokastafir fortíðarstofnanna geta fallið úr báðir eða hinn fyrri með uppbótarlengingu, og að ð getur skift við g t. d. brá (fyrir bragð); sögnin brá af (fyrir bragða af); brú (fyrir brugð); bryggja; brugga, eig. að bregða e-u í annað; afbrýði (fyrir afbrygði) hjúskaparsvika kvíði eða kvíði um minni þokka en á vill kjósa. Orðtengðin er missögð í danska Lexicon poeticum Sveinbjarnar Egilssonar, aukna og umturnaða af Finni Jónssyni. Þar er orðið sagt komið af: af merkingu aukandi og brúðr!!

"Bryðja, bruddi," segir Guðbrandur Vigfússon í Cleasby, "vafalaust eins og væri brytja eig. mylja með tönnum,, haft um að tyggja harðar kökur eða annað sprakt harðmeti; sbr. byggðamál ítalskt rottá mjög sömu merkingar, af lat. rumpere, eins kemur bryðja af brjóta, brytja," og kveður þó ekki niður allan efa, eins og hann á vanda til. Fyrst má geta þess, sem ekki getur í Cleasby, að bryðja er helzt haft um át varga; leó bryðja fæðu sína og kettir o. s. frv. Svo er bráð, broð, brauð ekki ólíkleg hljóðskiftisorð, því öll merkja þau mat nokkurn, og bryðja kynni vera tengð þeim og ekki komið af brjóta. Skyld þeim eru líklega

enska bread (brauð), broth (súputegund, brood (afsprengur) og to breed (klekja út) og sammerkt orð í Þýzku brod (brauð), brut (afsprengur) brüten (klekja út), og liggur þá við að halda að bryðja kunni vera eins og merkja, ef til vill, eig. ala, fæða, tímga, og í þrengri merkingu éta um rándýr. Það hald styrkja orðin bryðja, fönguleg kona og bredda, óprúttin kona. Jón Þorkelsson, eldri, sem allra íslenzkufræðinga var óljúgfróðastur, sagði Eiríki Magnússyni, að ekki gæti hann sagt, að bredda væri af broddur; og það er það líklega ekki. Það kynni að vera af brandur eða kannské tengt bryðja. Margt er því að athuga, áður en hægt er að komast að vafalausri niðurstöðu um að bryðja sé af brjóta alveg að slepptum stórstampinum norska, sem Finnur Jónsson fer með.

Dá, dauðalegt ástand, dvali, yfirlið; dán í dánarfé t. a. m.: dáð eig. gert verk, afrek; dagr eig. gerðartími, starfstíð; dóttir (tillíking fyrir *dógtir) eig. vinnustúlka; dómr eig. gerð; dýr eig. það, sem gerir, starfar, skepna; *dagill, fyrir hljóðvarp *dægill, fyrir samdrátt *dægll, fyrir úrfall dæll, eig. tíðgerður, hægur, auðveldur; deigja, bústýra; deigr eig. geranlegur, myndanlegur, af því rakur, því flest myndanlegt er svo, og svo deig, deigla, dígull, deyja standa öll á beygingarslóð sagnarinnar daga, samdr. dá, og herma merking hennar og beygingu sterka, líklega samstofna lat. facere að gera. Deyja hefir náð til sín fortíðar beygingunni dó, dáinn og sögnin svo horfið til veikrar beygingar, hin samdregna mynd dá, dáði, og hin ósamdregna daga, dagaði. Af sagnbúningnum mig dagar uppi virðist mega ráða, að merkinguna að deyja, muni sögnin hafa fengið fyrir frumlagslausan búning. Sögnin skýrir eig. merkingu enskra orðtengða svo sem deed, day, daughter, dough, lady o. s. frv., þótt ekki séu sumar þeirra svo skýrðar í orðtengðabókum erlendum.

Heimdali, segir danska Lexicon poet. Svb. Egilss., á vart neitt skylt við Heimdallr og má af því ráða, að orðtengðafræðilega skilji Finnur Jónsson prófessor hvorugt orðið, því dali og dallr eru eins skyld hvort öðru og oddi er skylt oddr. Dallr í Heimdallr er sem sé ritað ekki síður einu l en tveimur. Orðin eru tengð sögninni að derra, er merkir eig. að rétta eða senda frá sér dörr, stafa, geisla; darr er stafur, geisli af því spjót; darr líka dár er eig. ljómandi, kær, ynnilegur; dart var með þeim=dátt var með þeim; með safnorðs-viðskeyti -all verður *darr-alr, fyrir samdrátt *darrlr, og tillíking dallr eig. sá, sem er stöfum búinn eða settur. Dallr, kvenkynsorðið döll í Mardöll og konuheitið Dalla merkja eig. stafandi sól, sólkringla og Heimdallr, heims sól; en heimdali státar í heima fé, þótt færri dörrum eigi að hrósa í kolli sér en Heimdallur. Þegar gáð er að því

að höfuð Heimdallar eru dörr ein eða brandar, eru ekki torskildar kenningarnar Heimdallar höfuð= sverð og Heimdallar hjörr=höf uð. Af stofninum dall er Dellingr faðir Dags og hið óveglega (kúa) della, einnig með -agr merkingarauka viðskeyti *dallagr, fyrir samdrátt *dallgr=dalkr eða dálkr ritað einu l, hryggur fisks svo nefndur af dörrum eða teinum hans. Með j-innskoti verða orðin djarfa, glóra, stíra og djarfr. Orðtengðir sagnarinnar eru enn fremur dorr-a, eig. það, sem langt derrist um veg eða tíma; dorg, hvk., líklega í fyrstu kk, *dor-ugr, fyrir samdrátt *dorgr, veiðarfæri, langur stafur með færi á öðrum enda til að derra frá sér; dordígull, eig. sá, sem gerir tíðum dorg eða dorru, köngulóartegund; af stofninum dorr og dá=gera; dýrr, eig. sem ljómi, dýrðin, stafar af, ágætur, verðhár; dyrr eða dyr, eig. op, er geislum stafar inn um, gátt; durgr, eig. búinn dörrum, broddum, ónotamaður, durtur og kvennkynið dyrgja, víst alveg óskyld dvergur, þótt Fritzner telji að svo sé.. Lítt mundu Bretar botna í sínum darling, dear, daring, dart og door o. s. frv., væri ekki Íslenzkan til að herma frá eiginlegum merkingum orðtengðanna. Bretar segja door opening eig. dyra dyr; álíka bregður fyrir með Íslendingum í vegferðarreisa.

Elivágar er haft í danska Lex. poet. Svb. Egilss. Það er rangur lesmáti og sprottinn af misskilningi á orðinu, "eig. stormeða él-lamdar öldur," segir lexikonið, "haf, ár miklar, að sögn Snorra, er féllu úr norðri, en réttara er að skoða orðið heiti á hinu mikla norður(ís)hafi (fyrsti liðurinn er él)." Það er ekkert vit í því, að halda, að orðið eigi við Norðuríshafið og veður beint ofan í Eddu. Þar segir: or elivágum stukku eitrdropar. Hvað eru eitrdropar? Lexikonið leggur það út ískaldur dropi. Í þeirri útleggingu er dropi eitt rétt. Hitt er tómur skáldskapur. Eitrdropar merkir magnaðir dropar, gerningadropar. Hvaða vágar eða vötn voru það, sem feður vorir sæmdu þeim átrúnaði, að þau væri mögnuð? Norðuríshafið? Enganveginn. Það eru, vitaskuld, vötnin, sem töld hafa verið ekki einleikin allt fram á síðasta mannsaldur, vötnin, sem eru eiturköld á sumrin og eiturhlý um vetur, svo að jafnvel aftökur fá þau ekki í læðing lögð. Það eru keldur, og fyrst eiturdropar stukku úr elivogum, þá hljóta elivogar að vera keldur, enda merkir orðið það líka. Því forskeytið eli- er sama og ali-; sbr. eli-legr og ali-lamb; og elivogar=vogar, sem alast, spretta upp, kelda, lind, uppspretta. Él forskeytist og él- en ekki éli- í þeim 30—40 orðum, sem það kemur fyrir í, svo að það er vorkunnarlaust að glundra því ekki saman við forskeytin ali-, eli- og lesa rétt úr þeim. Elivágar eru ár miklar, er falla úr norðri, samkvæmt Snorra og réttast er að trúa því og réttara en leggja trún-

að á hugarburð nútíðargutlara, sem gerast svo djarfir að rengja hina einu heimild og hana ríka, sem til er fyrir því, er menn vita um elivága.

Erfiði er orðtengðafræðilega umþráttað orð. Það er sama orðið og þýzka Arbeit og danska arbeide, en hver sé eiginleg merking þess er óráðið. Grimm hélt það tengt lat. labor, þraut, Max Müller vísaði því til rótarinnar AR, sem fer með plægingar merkingu, og Björn Halldórsson taldi það eins tengt erja, arði og merkti eig. plæging. Erfiðr er sama orð og örðugr, fyrir stafaskifti bæði í stofni og viðskeyti, f fyrir ð í stofni og ð fyrir g í endingu, svo erfiði merkir þá örðugleikar, og að erfiða, eig. að eiga örðugt; sbr. enska to rough it. Örðugur er eig. sem er með risum eða rís, af því stríður, viðeignarillur, ómildur, komið eins og erði[3], eig. það, sem er illt viðfangs, af arða, ójafna, sem rís upp úr e-u; og veltur þá á því, hvort arða sé komið af erja eða það sé af öðrum stofni. T. a. m. að arða sé=varta, því v^ið er hverfult og breytilegast allra stafa, segir Guðbrandur Vigfússon, og örðugr sé orðtengðafræðilega sama og ensk. warty, þýzk. warzig og lat. verrucosus, eig. fullur örðum, hrjónum.

Falma eða fálma þykir Fritzner líklegt að sé komið af nafnorði, sem merki hönd. Ekki nær það neinni átt. Sögnin er komin af stofninum fal í fölr; fal-ma eig. sama og fölna, en haft um viðbrögð, er manni verða í sviplegum atvikum, ofboðsótta eða óvissu, þ. e. *að grípa* fram fyrir sig, þukla eða þreifa. Orðtengðir sagnarinnar eru: felmt, felmtr, felmtra, en af stofninum sjálfum er fæla eig. gera fölvan, hræða burtu, og fælinn. Danska orðtengð sagnarinnar er falme, fölna, en ekki famle eins og Fritzner vill halda. Danska famle, að fálma er samstofna dansk. flab og íslenzku tengðunum flapra og fleipra, eig. að láta flipann ganga óðann eins og skepnur gera um fóður í leit eftir því, sem ætilegast sé; af því rennur þukl merkingin í hið danska orð. Hinar íslenzku tengðir sýna bæði færzlu l^sins aftur eftir stofni og úrfall þess og stafaskifti: fleipr, fífl, flip, flim, fimbul-fambi o. s. frv.; í Dönsku flabre, fable famle.

—gól af hánum í gaglviði fagrrauðr hani, er í Völuspá, óskilið gaglviðr. Útlendingar hafa skýrt það fuglaskógur. Það er, vitaskuld, tóm markleysa. Manni dettur óðara í hug, að orðið merki skógarrjóður, af því að rjóðrið er viðburðasvið skóganna í æfintýrum og munnmælasögum, og orðtengðafræðin staðfestir það undir eins. Orðið er samsett af gagl og viður=skógur. Gagl er komið af sögninni að gaga, samdr. gá, gó, gáinn, er merkir að gapa, flá eða reigjast frá, gelta, og gagl

———

3) Getgáta Fritzners, erði=elri, er alveg haldlaus hugarburður.

merkir op mikið, svo sem skýr er frekar hér á eftir. Gaglviður merkir þá, eins og væri op skógar, skógarrjóður. Orðtengðir sagnarinnar fá margar j-innskot; helzt er að geta: hundgá; hundgjá; gjamm (mm fyrir gg), gjá (í jörðu); gagr, eig. það, sem geltir eða reigist frá því, sem við er búist í tali eða athöfn, önugleikur; gagall, eig. sem temur sér gap eða gelt; gagl, 1. mikið gap eða op; sbr. bagl af að baga, sagl af að saga, 2. gæsarungi, því gæsum er títt að gaga, ef mæta styggð. Gagall er líka nafnorð, samdr. gáll, eig. það gap og gelt, sem hundum er eiginlegt, þá er lagt er upp eða á stað, af því ofsakæti. Af gáll kemur sögnin *gjálfa, sterkbeyg eins og skjálfa, af henni gólf, eig. það, sem geltir frá grunni eða gap er undir, öllu heldur en það, sem glymur eða tekur undir í; í fyrstu líklega lagt undir legurúmin eða fletin eingöngu, af því merkingin gólf=rúm eða sæng, sbr. liggja á gólfi; síðar gert meira að lagningu þess og hinn gólflagði hluti stofunnar eða skálans nefnt gólf, af því merkingin gólf=herbergi. Þegar liggja á gólfi ber á góma, hlýðir að láta sér stökkva bros að burðarlegu hugarburði norrænufræðinganna, þeim, að konur hafi í fyrndinni alið börn sín liggjandi á knjám og olnbogum á gólfinu, er helzt styðst við orðatiltækin að sitja fyrir knjám konu, samkvæmt Fritzner, eins og því sé við komandi, ef konan liggur á þeim, og enska to be in the straw, eins og menn hafi ekki í fyrndinni legið við hálm og brekán, heldur við krullhársdýnur, sápuþvegin lök og stungnar æðardúns ábreiður og ekki haft hálm nema á gólfinu! Af sögninni að gjálfa er gjálfr og gjálfra; frekari tengðir eru gjalgra, gjögr, að geggja o. s. frv.

Ginna er eitt af þeim orðum, sem lotið hefir í lægra haldið fyrir kirkjulegan andróður hins nýja siðs. Sögnin fór með hina dýrðlegustu merkingu í heiðni. Ættbálkur hennar segir frá því, því hann státar allur með það, sem æðst og dýrðlegast var í heiðnum sið. Þá var sögnin líka sterk eins og makar hennar í Ensku, begin, began, begun, og Þýzku beginnen, begann, begonnen. Eins og flagg í fararbroddi ættbálksins fer forskeytið ginn-. Ginnregin eig. skapregin, frumguðir; "stærke magter" leggur danska Lex. poet. Svb. Egilss það út og víst eru þau numina magna. Þá eru ginnungar, vitaskuld, hið sama, ginnheilög goð, guðir þeir, er gunnu heim í árdaga. Í lexikoninu er orðið haft ginnungi og sagt merkja afar víðáttu. Sterkleikurinn er nú allur kominn í víddina! E. Mogk er ginnungur þessarar fírinvillu, hann hefir búið til ginnungi "sem persónu "hins mikla auða rúms," segir lexikonið, "og því tengt ginn—við rótina í gína, sem er hæpið; en orðið gæti líka blátt áfram merkt hinn afarvíði," svo að Ginnunga gap merkti gap "hins

afar víða" (=víðáttu), "hin víða auðn." Þetta eru vegir ofvitanna. Gap var Ginnunga áður en þeir gunnu heim; ekkert til þá nema þeir og auðnin eða gapið því kennt við þá alveg eins og brækur þeirra prófessora Mogks og Finns eru kendar við þá, af því að þeir einir eru í þeim. Eg vík aftur að ættbálkinum: gandr, stafur mikilvægur við heiðnar helgiathafnir; göndull, er tíðum var af Gunni spunninn; gás, ginnhelgur fugl sakir átrúnaðar frá ómunatíð; sbr. gans á Þýzku er vant að bæta við í íslenzkum málfræðibókum; betur að færi að tíðkast; sbr. báss af að binda, áss af að inna til að firta þetta lærða þýzku fip frá íslenzkri orðmyndan. Enn fremur Gunnr eða Guðr, valkyrju heiti, goð (líklega upphaflega karlkyns *gonnr *goðr) eig. höfundur alls, skapari; goði, prestur í heiðnum sið. Vitni ættbálksins er órækt um upphaflega merkingu sagnarinnar. Hún hefir fyrrum merkt að framleiða af guðlegum mætti, hefja, byrja, en við siðaskiftin, þá er

Allt var bannað blót og jól
Baldur, Þór og Óðinn;
skift um guði, sál og sól,
sektuð hjarta ljóðin.

eins og hið ódauðlega skáld vort lýsir í Grettisljóðum sínum, þá hnignaði merkingu og hún snerist svo, að nú fer hún helzt með tál og tóma pretti.

Hjaðningar, Héðins liðar (sbr. Snorra Eddu I 423, 434), segir danska Lex. poet. Svb. Egilss. Skýringin er hæpin, þótt hún gangi staflaust meðal hálærðra norrænufræðinga, því orðið á jafnt við þá, sem börðust móti Héðni og hina, sem börðust með honum, og svo af því að Héðins menn ættu að heita Héðningar samkvæmt venjulegri orðmyndan en ekki Hjaðningar. Tilvitnanin til Eddu er marklaus, því hún segir hvergi, að Hjaðningar séu Héðins menn einir saman. Hvað merkir þá orðið? Á því getur enginn vafi leikið, að ð er fyrir r komið í orðstofninn Hjaðningar er=hjarningar. Að hjarna við er daglegt mál um þá, sem liggja í öngviti eða eru aðkomnir dauða, þá er þeir fara að rakna við eða skríða saman. Hjaðningar merkir þá þeir, sem lifna við aftur og það á líka við hvorntveggja flokkinn. Hjarna er komið af þátíðarstofni hvarf, eig. *hvarfna, er skiftir v fyrir j og fellir f niður til framburðarléttis og er þá hjarna, skiftir r fyrir ð og verður hjaðna. Myndin hjaðna hefir fest við merkinguna hverfa, þverra, en hin merkingin að hverfa við, rakna við, hefir snúið aftur til frumlegri myndarinnar og merkingarnar deilzt á tvær sagnir, sem eru þó ein og sama sögnin í raun réttri. Það stendur, vitaskuld, fyrir málvitund alþýðu, að ja sé klofningur i[s] og því myndast sagnir af byrjunarsögnunum hjarna og hjaðna með því að draga klofninginn saman; eru þær sagnir því að mynd og merkingu eins og frumsagnir, og ekki

kyn, þó menn hafi haldið byrjunarsagnirnar komnar af þeim alveg öfugt við það, sem er. Af hjarna kemur híra að lifa í ró og makindum, líka hjara, að tóra, lifa, en af hjaðna kemur híðast, eig. hverfa, fara í dvala, og af því híð, eig. hvarf, dvalalega bjarnar. Framan greindar breytingar á stofninum hvarf eru ekkert ótíðar t. a. m. *hvarf-n=hjarn, eig. samanhorfinn, saman hvirflaður snjór. gaddur; *hvarf-ni=hjarni, eig. það, sem hverfur, snýst, haus, heili; *hvarf-si = hjarsi = hjassi. 1. hvirfill, höfuð, 2. hvarflandi maður óráðinn, seinlátur slóði; *hvarf-ri=hjarri, gaddur, sem er snúizt eða horfið um (í hjörum). Og er ekki laust við að manni hnykkji við, að heyra Fritzner klöngrast um karre, skarre, kerran, garrire, kirren, knarren til að skýra orðið af hljóðinu!

Hilmir, konungur, "eig. búinn hjálmi, af hjalmr," segir danska Lex. poet. Svb. Egilss. Það er langt frá því, að hilmir merki eig. þetta. Merkingin er hrapallega missögð. Hilmir á ekki skilt við hjálm og er líka auðsjáanlega gjörmerkingar en ekki þolmerkingar. Guðbrandur Vigfússon sagði eiginlega merkingu orðsins stýrimaður og af því stjórnari, konungur, og er það nær lagi. Hjálm (m fyrir p) og hjálmun eru komin af sögninni að hjálpa og merkja eig. hjálp, hjálpartré,, stýri; hilmir (m fyrir p) eins, eig. hjálpari, sá, sem menn eiga traust og hald til að sækja, af því konungur. Hjálmr er aftur kominn af hválfa fyrir áskifti v við j og f við m og merkir eig. það, sem hvolfir yfir e-u eða geymir e-s; sbr. heyhjálmr, k o r n h j a l m r, kertahjálmr o. s. frv. Árheitið Hjálmunlá er látið vera í vafa í lexikoninu með þeirri staðlausu getgátu, að heitið merki "eig. á bein eins og hjálmunvölur; sbr. hjalm- í n o r s k u m árheitum (Rygh bls. 102)." Lá merkir sjávarjaðarinn, sem skolar strendur og svo grunnsævið með fram þeim. Hjálmunlá merkir þá orðrétt stýris grunnsævi, þ. e. a. s. áin tekur nafn af svo grunnri innsiglingu, að menn hafa orðið að leggja stýrið úr lagi til að komast inn. Rétt virðist vera að skjóta því hér að norrænufræðingunum, er fást við orðtengðafræðilegar skýringar norskra árheita, að oftar muni það koma sér betur, að hugsa til heyhjálma eða kornhjálma heldur en til stýris, þegar hjalmkemur fyrir í árheitum.

Hvalur er á Ensku whale og á Þýzku Wallfisch. Ekki leyfist manni að glóra í eiginlega merkingu orðsins af þeim tungum; en heldur er hægt að botna í henni af Íslenzku. Hvalur er nafnorð og sjálfsagt lýsingarorð líka samstætt sögninni að hvella álíka og svalur svella, samstofna hvel og merkir þá eig. kúptur. Sögnin hvella er sterk sögn að réttu lagi, hvall, *hollinn, að gjalla, svo sem eiginlegt er hveli eða því, sem holt er, af beygingarstofnum hennar kemur holkn eða hólkn,

jarðlög, sem glymur í; holt, skógur, því í honum bylur oft. Heitir og uxi hjölluðr (j fyrir v) af því, að hann hvellur hátt og hallr (v horfið) steinn.

Íugtanni er bjarnarheiti "(stundum afbagað í igul- í handritum) ...... (af lýsingarorðinu íugr, gráðugr?)" segir danska Lex. poet. Svb. Egilss.; og rétt er það nema getgátan um merkingu lýsingarorðsins. Hún er röng. Íugr er samdregin mynd fyrir *innugr eða iðugr (hljóðlenging fyrir úrfall nn eða ðsins(; sjaldgæft orð en atviksorðið iðuglega algengt, af sögninni að inna, og íugtanni merkir því sá, sem temur sér, á vanda til að inna skil með tönnunum.

Íþrótt er talið samsett af ið og þróttr, ðið úrfallið með hljóðlengingu, en hér skjátlast manni um samskeytin á orðinu líkt og mig henti um ambátt. Orðið er samsett íþ-rótt eða íð-rótt, af íð, list og rœkt=rókt, því œ og ó skiftast á, fyrir tillíking=rótt af sögninni að rœkja. Íþrótt er rœking listar. Þegar orðið íð gerðist sjaldgæft í málinu og manni fyrndist eiginleg merking íðrótt. þá hjó framburðurinn skil á orðið fyrir framan ðið og breytti því vitaskuld í þ, fyrst það byrjaði atkvæði.

Jötunn er sagt komið af eta í danska Lex. poet. Svb. Egilss. og merki eig. etandi. Það er alveg óaðgengileg getgáta og ólík Svb. Egilssyni. Jarmr merkir vein, kvein af kvöl eða illri líðan, komið af stofninum jar, sem er klofningur meðalorpningar irr, er táknar ósk ills og brottrekstrar. Líka er æpt irda! og ird! ann! sömu merkingar eig. eins og sett á hann jarm. Forskeyti af meðal orpningunni eða klofning hennar fara inn í merkingu hins forskeytta orðs ósköp og ofboð voða og ógnar. Þau eru íra- í írafár eig. ofboðs ógnarreiði, ofboðsæsing og fumið sprottið af henni, og jörmun-, sem stendur af sér við jarm eins og hjálmun við hjálm, er að framan getur, og merkir hið sama. Jörmungandr merkir ægilegur gandur og jörmungrund er ekki "hin volduga víðáttu mikla jörð," svo sem lexikonið leggur það út, heldur ægileg grund og kenningin, Vandils jörmungrund þá hið ægilega haf. Enn fremur er jar-; af því er jar-a eig. hið ægilega, hryllilega vein, orrusta, jör-undr, orrustu goð, Óðins heiti líka jörm-unr=jörmunn. Af þessum stofni er jötunn sennilegar runninn heldur en af eta. *Jarunn,[4] fyrir hljóðvarp *jörunn, fyrir skifti r við ð *jöðunn og skifti ð við t jötunn; sbr. af ker *ker-ill=*keðill = ketill. Jötunn merkir þá sá, er býður ofboðs hroll og ógn. Það kemur heim við hugmyndir feðra vorra um jötna; enginn fótur fyrir hinu, að þeir hafi verið haldnir átvögl. Jötunn og jaðarr eru vitaskuld

[4] Viðskeytin -ann, -inn, -unn merkja geranda, hafa stundum myndina -aðr, -iðr, -uðr, (ð fyrir n) mjötuðr=mjötunn.

samstofna, því jötnar bygg'ðu útgarða. Jafnvel ekki norskum norrænufræðingi kemur til hugar að jaðarr geti verið tengt sögninni eta. Jaðarr er eins og jötunn kominn af jar og merkir eig. ægileg brún Jarðar er umlykt var Orminum og öllum hugsanlegum gný og gauragangi samkvæmt átrúnaði fornþjóða. Hið danska jammer og þýzka jammer eru samstofna jarmr og sýna tillíkingu r við eftirfarandi m; eins er algengt að mm í stofnum verði mb eða mp og stafirnir tillíkist í bb eða pp, líka að j falli úr stofni. Þessum breytingum á sögnin abbast upp á eða við e-n eða e-ð tilveru sína að þakka, merkir eig. setja jarm á e-n eða e-ð, amast við, og því er irr og abbast skyld orð, þótt þau beri það ekki utan á sér.

Hangir vát á vegg
veit hattkilan bragð

kvað hekla hangandi á búðarvegg Þorgils Höllusonar, segir í Laxdælu og er hattkilan óskilin, því ekki er það heklan sjálf, svo sem Lex. poet, danska getur til. Þess er getið í stafaskiftum, að h komi fyrir k í stofnum, svo sem hné fyrir kné, hnefi fyrir knefi o. s. frv. og fyrir g hnegg fyrir gnegg o. s. frv.; en þess er hvergi getið, það eg veit til, að k komi fyrir h eða kv og kj fyrir hv; og þó á það sér stað t. a. m. kvis fyrir hvis, kjaptr, kjöptr fyrir hváptr, kvef fyrir hvef; sbr enska whoop; hválpr kemur af hválf, því hann hvelfir, gerir bungu tíkinni, kálfr (k fyrir hv) er sama orðið og sömu merkingar. Kjöl-r kjalta, kil-ting, kel-ta, kil-pr, kjal-ki kíl-l (vik út úr á eða sjó) og hattkil-a hafa öll kj fyrir hv eða k fyrir hv þar, sem ja er dregið saman í i og öll fara þau með merkingu hvels, bungu eða þjófs af því, að þau eru komin af stofni hvels, hval. Hattkilan er hattkollurinn. Í lexikoninu er kellir lagt út hjálmur og orðið sagt "myndað af kall, sem sé í hljóðskifti við kull (kollr, höfuð) því eig. höfuðfat." Orðtengðafræðin stappar móti þessari skýringu. Kellir er samstofna kjölr en ekki kollr. Sagnirnar kjala, kila og kela merkja allar að gera kjöl á e-ð, af hinni síðastnefndu með gjörandviðskeytinu -ir kemur kelir eða kellir ritað tveimur ll í stað eins, því ritan ll er óregluleg í fornritum, og fjarðar kellir merkir sá, sem gerir firði, kjöl eða hvel, þ. e. ís. Stofnarnir kall, kull (koll) eru ekki hljóðskiftis stofnar, þeir eru jafn skyldir og alr er ull.

Aldri gengr hin unga
eik, þótt við mik leiki,
(fljóð hygg ek kvell kunni)
kona þín úr hug mínum

er síðari helmingur vísu í Víglundar sögu og allur auðskilinn nema "orðið kvell," segir danska Lex. poet. Svb. Egilss., "sjálft er óþekkt, en mætti setja í samband við rótina í orðinu næsta (þ. e. kvelling) "ástarkvíði? eða er það blátt áfram ambaga úr kvöl?" Orðið merkir ekki ástarkvíði og á heldur ekkert skylt við kvöl. Orð-

tengðafræðin leysir úr gátunni. Til þess er að víkja að lýsingarorðinu kvirr, kyrr, kjurr eða öllu heldur að sögninni, sem þeim er samstæð og því sterk að réttu lagi, sem sé kyrra = *kvirra, *kvarr, *kurrum *korrinn. Samkvæmt lögum tungunnar verða af beygingarstofnum nútíðar og þátíðar lýsingarorð og nafnorð með viðskeytunum -ill og-ull þessi: *kvirrill, *kverrill, *kvörrull, er dragast saman og fyrir áhrinur hinna samdregnu falla með tillíking, eins og vant er, verða *kvill, *kvell og *kvöll og merkja öll hið sama kyrðsæll eða kyrðsæld. Vísuorðið er nú allt auðskilið. Víglundur hyggur að konan kunni kyrrsæld, að kyrra, að friða, spekja, vera blíð, þótt hún leiki hann illa. Nafnorðin kvell, sem er einn ritmátinn, kvöll, sem er annar og kel, sem er hinn þriðji, sjálfsagt fyrir *kjell (j fyrir v) og kell ( joðið tekið upp í k) eru líklega öll kvenkynsorð, nema kel, karlkyns nefnifalls ending horfin; sbr. mjöll, fremur en hvorug kyns, þó lexikonið telji þau það. Af lýsingarorðunum *kvill, *kvell, *kvöll koma nafnorðin *kvíl-d, kvel-d, kvöl-d eig. kyrsældar-tími, aftann. Af fleirt. stofni þátíðar kurr með nafnorðs- og lýsingarorðs viðskeytinu -igr hljóðverpandi er *kyrrigr, fyrir samdrátt *kyrrgr, fyrir úrfall rr með uppbótarhljóðlenging *kýgr, sem mun jafnaðarlega ritað ví fyrir ý kvígr, eig. kyrðar skepna, eða kyrrlátur; eru þá auðskilin orðin kvíga, kvígendi, Kygri Björn; með hljóðverpandi kvennkyns viðskeyti -r kemur af stofninum *kyrr-r og eins og áður var sýnt, fyrir úrfall erra og hljóðlenging kýr, eig. kyrðargripur. Mörg áhaldanöfn þeirra, er lúta að haldi eða geymslu, renna af stofnum sagnarinnar svo sem kví, kjarald, ker, ketill, kýll, koðri (stafavíxl), kjaggi, kuggr (stafaskifti) o. s. frv. Í þessum stofnum á sér og stað skifti á k við h, t. a. m. af lýsingarorðinu *kvill, sem áður var getið, verður sögnin *kvilla, fyrir úrfall og hljóðlenging *kvíla, fyrir stafaskiftin hvíla, eig. gera kyrran; einnig kvíld, sem að fram. an var getið, skiftir k við h og verður hvíld=kvöld; sbr. át ek í hvíld, áðr heiman fórk. Benedikt Gröndal skýrði fyrstur manna þenna stað rétt, að í hvíld væri=í kvöld. Þó er staðurinn enn þá lagður vitlaust út í danska Lex. poet. Svb. Egilss. og Gröndals ekki getið; er það raunar ekki nema það, sem við má búast af öðrum eins ritum. Eiginlega merkingu fjölda erlendra orðtengða skýra hin íslenzku orð, er hér hefir verið drepið á, þótt eg nefni ekki nema tvær enskar cow og kill.

Landar(eign), bragðar (lax-, vāð), svo sem orðið væri kvennkyns," segir í Málfræði ísl. tungu eftir Finn Jónson. Það er ekki hægt að ráða kynferði forskeytisorðanna af mynd þeirra í samskeytingnum, en orðtengðir sterkra sagna 1. flokks kenna manni það, að orðin hafi upphafl.

verið karlkyns, og eins hönd "að upphafi kvennkyns orð," segir málfræðin. Orðmyndunar reglan er þátíðar eintölustofn +r viðskeyti karlkendu með u-hljóðvarpi eða án þess, t. a. m. gandr, landr nú land, bragðr nú bragð, vöndr, höndr nú hönd, rönnr=röðr nú röð, *hrönnr nú hrönn o. s. frv., þ. e. a. s. hljóðvarpslausu orðin hverfa til hvorug kyns með missu nefnifalls r^sins land, bragð, hin hljóðverptu til kvennkyns með missu þess, hönd, röð, hrönn. Ekkert er til að rengja þetta nema hlaupa í það, að sagnirnar henda og lenda séu veikar, en slík viðbára fýkur fljótt fyrir orðtengðafræðinni. Hönd, eig. sú, sem tekr, hundr, frá ómuna tíð hafðar til að taka, háss, eig. tekinn, hás-ki, hætta, eig. það, sem kann að taka eða þrífa e-ð sviplega, hattr og hetta renna öll af hljóðskiftis beygingu sagnarinnar henda og vitna beygingu hennar og eig. merkingu. Sögnin er líklega samstofna lat. capere. Hið sama er um lenda. Lindi, land, láss, lend, lund, lundr, lundir kvk flt. merkja öll eig. eitthvað, sem heldur saman eða þá helzt saman í heild sér og kenna að lenda sé sterk að réttu lagi og merki eig. að festa saman, t. a. m. land er mjög hið sama og lat. continens. Eg leiði hjá mér enskar orðtengðir og erlendar, því hinar helztu þekkja allir svo sem hand, land. Bragðarváð segir Málfræðin sé laxanet. Eitt sinn leysti eg úr spurningu Finns Jónssonar: Hvað er hængur? Nú segir hann mér, að bragðr sé lax og veit eg ekki, hvað það er að marka. Er ekki bragðarváð, þ. e. brugðin voð, gagnstæð lérefti, þ. e. slegin voð, rekin saman með slögum, frá þeim ómunatímum er kljávefstóllinn umturnaði vefnaðariðnaði Norðurlanda og gerði bragðarvoðum jafnvel í afskekktustu bygðum loks sömu skil og nýi vefstóllinn gerði honum síðar?

Heitir lær á lœru, um það hefir Björn M. Olsen ritað rækilega frá stafsetningar sjónarmiði og merkingar í hinu fróðlega, danska riti sínu um 3. og 4. málfræðisritgerð Snorra Eddu. Hann getur skýringar Svb. Egilss.: heitir lær (þ. e. lóur) á leiru, er tekur lœru fyrir leiru; og þykir hún ekki alveg fullnæg einkanlega vegna eintölu sagnar, heitir, þótt svo komi stundum fyrir, því hvorki rím né málsbúningsrök virðist gefa ástæðu til þess, og svo sé meiningin auk þess afaróskýr, því fuglarnir heita lær jafnt á leiru og annarstaðar. Betur getst honum að skýringu Jóns Ólafssonar: heitir lær á lævirkja; meiningin sé þá læri er líka á fuglum; en skýringing sé ekki nema laus getgáta, því að lœra sé óþekkt í merkingunni lævirki. Loks víkur hann spyrjandi að því, að lœru kunni að vera þáguf. af orði, sem talið sé meðal niðrandi mannheita í Snorra Eddu og ritað í handritum leyra, lóra, löra, er geti allt saman verið sama og ritsmátinn lœra, og orðin merktu þá heitir lær (þ. e. læri) á slóða, sem sé

raunar óneitanlega satt, þótt ekki sé mikið í það spunnið; og lýkur máli sínu með því að vísa til þess, að von sé óeðlilegra málsgreina og seilast verði til skýringar, af því að skáldið geri sér sjáanlega far um að finna dæmi til orða, sem séu mismunandi að merkingu og að því, að annað hafi æ en hitt œ, og séu þó nærri hvort öðru að öðru leyti. Það er hörmulegt að jafn óviðjafnanlegur snillingur og Björn M. Olson var, sem heita mátti að tungan lægi fyrir eins og opin bók, skuli láta staðar numið með þessu og órannsakað, hvað orðtengðafræðin gæti lagt til úrlausnar. Danska Lex. poet. Svb. Egilss. vænir að lær merki læri og að lœra sé nafn á einhverju verkfæri. Það er óaðgengilegt hald, því enginn hlutur heitir læri á verkfærum þeim, sem menn þekkja, og þá er það ekki sennilegt að svo heiti hlutur á óþekktu verkfæri. Skýring Björns M. Olsens er, vitaskuld, rétt. Orðin merkja eða geta merkt það, sem hann segir, því þau eru þekkt í þeim merkingum; samt langar mann í aðra skýringu, af því meiningin er mjög tilkomulítil, eins og Björn M. Olsen tekur sjálfur fram. Bæði orðin eru komin af sögninni laga, samdr, lá, er merkir að slá, lýja, lemja, að réttu lagi sterk, lá, *ló, láinn og -ra-beyg, lá, *lera, *lerinn, e[ið] skiftilegt við ö, ey, æ og jafnvel ó. Lær getur tæplega verið flt. af ló, þ. e. a. s. merkt lóur. B. M. O. gerir fulla grein fyrir því. Aftur kemur þeim Svb. Egilss. og honum saman um að lœra megi taka fyrir leira. Þeim ber ekki annað á milli en merkingin. Svb. Egilss. tekur orðið í sinni algengu merkingu leir, sem næst er eiginl. merkingu, en B. M. O. hina óeiginlegu merkinga slóði. Því lœra líka ritað leyra, lera og lóra, er komið af -rabeygingu sagnarinnar lá, álíka og slæða (ð fyrir r) sleði og slóði af sögninni að slá og merkir eig. hið slegna, lúða, 1. leira leirjörð, orðin rituð nær uppruna en leira, 2. óeiginlega lúður, lerkaður maður, slóði og í viðskeytum mann-læra eða mannlera, mannræfill, slóði— kisu-lóra, blauður köttur, bleyða. Merkingarnar sannast enn frekar af tilsvarandi karlkyns viðskeytum -lóði, -leði, -leri, sem eru alveg sama tóbakið svo sem Am-lóði, nafn konungssonarins danska Hamlet hjá Shakespeare, eig. oflúði, afarmæddi; uppruninn raunar talinn óþektur af sérfræðingum; af Saxo er hann nefndur Amlethus á Latínu, er sýnir að hann hefir líka verið nefndur Amleði af Íslendingum; Gangleri, eig. lúður af gangi, ættleri, eig. sleginn ættinni, sá sem áttinni láist o. fl. Aftur er lær hvorugkyns, karlkyns í viðskeytum -lér, -lór, gjörmerkingar, eig. sá, sem slær; lær, eig. slagfótur, afturfótur grips, sbr. lámr, gripfótur, hrammur, og ló, framhluti handar, vetlings og lumma, eig. sú, sem tekur (við); sbr. og lár (korn lár, ullar lár), láfi og láfa; Vindlér, eig. sá,sem lýr vindu, bragðal,

Heimdallur; danska Lex. poet. Svb. Egilss. hefir Vindhlér, smíðar í gömlu orðskýringuna: sá sem hlerar vind; kisulór, hvatur köttur, högni. Sé lœra tekið í merkingunni leira, eins og Svb. Egilsson gerir, þá getur lær ekki merkt lóur og heldur ekki læri, sem B. M. O. lætur það merkja, því að sú merking gerði markleysu úr málsgreininni. En fleiri lær eru til en þau tvö, er reynd hafa verið. Orðtengðafræðilega má greina orðin ló í tvo flokka sem sé gjörmerkingar og þolmerkingar orð, eins og hin síðari voru komin af hluttaksorðs stofninum. Í fyrra flokkinn koma: lá eða ló, flt. lár, eig. sú, sem slær, aldan með ströndum fram, sjávarjaðarinn; ló, flt. lær eig. sú, sem slær lag, sýngur, lóa; ló flt. laust, sú, sem hremsar eða tekur (við), framhluti handar; sbr. á ló eða laski. Hin, eig. hið slegna, lúða, eru ló, flt. lær, 1. hnoðri lúður af vefnaði eða fati; 2. ullarlagður urinn af fé einkum á garða; sbr. garð ló; 3. dula slitin eða urin af fötum; sbr. rifinn í lær og laka, rifinn í dulur afslitnar og lakar flíkur 4. er sennilegt að það merki lúður sandur eða leir botnlaus af vatnsaga, leirpyttur, sandbleyta, og hin umræddu orð merki þá heitir leirpyttar á leiru. Það gefur góða og skýra meiningu, og þótt það sé getgáta, því ekki hefi eg heyrt ló eða lær haft um sandbleytur, þá er ekki hægt að segja að hún sé laus eða út í bláinn, því að orðtengðafræðileg rök styðja hana. Gjörmerkingarorðin lær, -lór, -lér og ló virðast eftir merkingum sínum mega merkja hvað eina, sem fremur verknaðinn að lá, og þolmerkingarorðin læra, -lóra, -leri, -léði, -lóði og ló eins hvað eina, sem fyrir verknaðinum verður, og ló, lœr þá hvað, sem lúð er eða urið sundur; leirpyttur. Frumlagslaus sagnbúningur er alltíður í Íslenzku, hafður í stað eða til skiftis við afturbeygilega mynd; heita er ein af þeim sögnum, eins og Björn M. Olson tekur fram, og þarf þá hvorki rím né önnur rök til að réttlæta eintöluna heitir. — Sögnin lá hefir farið að forgörðum fyrir afrunasögn sinni, lýja, og er nú ekki til nema í veikbeygum molum. Þeir eru: 1. laga, fara með slögum; sbr. blóðið lagar, 2. lá; sbr. láir ekki á steini eða við stein, slær ekki, kvikar ekki; lá e-m e-ð, eig. slá e-m e-ð, eigna (í vondri merkingu) álasa, 3. ljá, léði, léður, j-innskot, eig. afhenda með slagi; fornt afhendingar snið. Þessi síðasta sögn er í rauninni ekki nema -ra-beyging hinnar fornu sagnar að j-innskoti frátöldu, ð fyrir r; sbr. sleðast, slóðast eig. afturbeygileg -ra-beyging fyrir slerast af sögninni slá, slera, slerinn; sbr. og myndirnar dræði, hlæði, runnar af -ra-beyging sagnanna draga og *hlaga samdr. *hlá=hlæja, ð komið í stað r, því e- ö, æ, ey skiftast á í fortíðarstofnunum eins og áður er ávikið. Það er skökk skoðun í Málfr. ísl. tungu eftir Finn Jónsson, að ð sé fyrir g í sagnmyndum þessum,

sprottin af vitundarleysi um það, að -ra-beygingu hafa haft miklu fleiri sagnir, en talið er í málfræðilegum bókum hinum eldri, og eins þá í hinum nýrri, því þær eru ekki nema uppsuða hinna eldri með meir eða minna ísáldri af latmælum og ambögum daglegrar ræðu svo sem: "beist," "silgdur," "bass," "hrint," "ettir,' "kvítt," "hneixlustum," "elskuðustum," o. s. frv. til þess að venja æskulýðinn á að líta "síður einstrengingslega' á orðmyndirnar."

Mjöllnir, Þórs hamar, "eig. sá, sem mylur," segir danska Lex. poet. Svb. Egilss. Það er gamla orðskýringin. Lexikoninu hefir ekkert farið fram. Þegar gáð er náttúrufyrirbrigðis þess, er Mjöllnir jartegnar, þá er það furða, að slík skýring skuli haldast og ná endurprentan. Ekki berja menn helzt augum í mölun eða mölvan, þegar sér reið. Leiptrið vísar manni til að leita orðinu tengða við orð, er fara með merkingu bliks eða bjartleiks, og þá er réttur uppruni þess skjótt fundinn. Mjöllnir kemur af sögninni að mara, sterk sögn að réttu lagi og sumar tengðir hennar hafa j-innskot. Með karlkyns safnorðs viðskeyti -ull eða ul-r við sagnstofninn verður *mar-ul-r, fyrir hljóðvarp *mörulr, fyrir samdrátt *mörlr, fyrir tillíking *möllr, fyrir j-innskot *mjöllr; missir nefnif. ending og gerist kvennkyns mjöll, eig. hvítglói, drifhvítur snjór; af því kemur sögnin mjöll-na, að fari að gerast mjöll eða dríf hvítt og af því Mjölln-ir eig. sá, sem gerir hvíta blossa. Af stofninum mjall kemur lýsingarorðið *mjall-agr, samdregið *mjalkr ,eig. sem mjög er mjallar, ljós, samstætt sögninni milkja, sem haft hefir tvær beygingar, sterka fyrir áhrifslausa merkingu, sem sé að vera með mjólk og veika fyrir áhrifsmerking þá, sem hún enn hefir. Af týndu beygingunni eru orðin mjólk, og mjölt (fyrir *mjölkt) eig. ljós lögur, mjalta, mjólka, mylkr. Svo er og mjöl sama og mjöll, orðið hvorugkyns fyrir ritháttinn, eig. drifhvíta, af lit hins malaða korns; en möl er tengð sagnarinnar mala. Af mara er líka sennilega mjöðr (ð fyrir r) eig. glitrandi veigar. Sögnin á sér fjölda tengða svo sem mar (í lofti); marlaki; að merla; milla (á bol); mörr (í sauðum); marr, sjór; marr, hestur, og merr "fyrir eldra marhio," nema niðurlagið sé veðramörk á norsku grjóti; enn fremur *marni, fyrir úrfall og hljóðlenging máni,, eig. sá, sem tindrar, silfrar, tungl; *marl eins=mál, eig. glitrandi skraut, útflúr líklega steypt eða dregið í útskurð á sverðablöðum eða vopna; sbr. krókaspjót í hendi og allgóð mál í; *marla, fyrir tillíking malla, líklega eig. steypa, haft nú einkanlega um börn, að búa e-ð til úr e-u, (t. a. m. for eða leðju), áhrifsl. að sjóða; svipaðrar, eiginlegrar merkingar er og tengðin malda, sbr. malda í mó-

inn. Af fortíðastofnum kemur mór (líkl. mót, formur, 2. geðslag); mor; mistur, og þverr bjartleiksmerkingin að því skapi, sem stofnhljóðið lokast; molla, tillíking fyrir *morla, eig. mjallar drífa; morugr, mjög blendinn mari eða mori, af því *morug-inn, samdr. morginn, því þá tekur að mara í lopti, eða öllu heldur af týndri, sterkri sögn *myrgja, samstæð við lýsingarorðið morugr, samdr. *morgr og orðin morn, morð, morkna, murka, myrkr og mörk (skógur) eru komin af, en mörk (silfurs) er af hljóðskiftisstofninum mar. Enskar orðtengðir milk, moon, morning, o. s. frv. fá skýring eig. merkingar af Íslenzkunni.

"Nál fyrir naðl; nadel á þýzku, mál fyrir maðl; gotn. maþl= tunga," er ritað fyrir "þá, sem hafa það starf að kenna í skólum, hvort heldur eru menn eða konur." Fróðlegra virðist vera og réttara að halda sér við íslenzku stofnana einkum þar, sem úrfallni stafurinn kann vera annar en í tilvitnaðri tungu, t. a. m. mál fyrir *magl (stofninn í mögla), fyrir *mann-l, eig. mannshljóð, raddhljóð; nál fyrir nagl; en nagl á sér lengri og flóknari sögu. Það hefir áður steypt k framan af sér og misst nefnifalls r^ið aftan af sér og dregist saman; ósamdregið er orðið *knag-al-r=nagl, eig. sá, sem knýr, nístir saman af sögninni *knaga, samdr. kná, er farið hefir að forgörðum fyrir afrunasögn sinni knýja; sbr. tengðir hennar nagli, knár, knörr, knöttr, kné o. s. frv.

Ofn kemur af sögninni að verma sterkri eig. *ormin-r, samdregið *ormnr, er missir nefnif. r^ið og stofn-r^ið til framburðarléttis og verður omn, sem ritað er ofn. Í sögninni að orna, eig. *ormna, léttir framburðinn úrfallið m. Ormr er ekki tengt sögninni verma, þótt mynd hafi til þess.

Refilstigr leggur Fritzner út stigur, sem farinn er svo ekki ber á eins og á bak við veggjatjöld. Það er skýring þeirra R. Keysers og C. R. Ungers, og hefði Fritzner átt að setja spurningarmerki við skýringu landa sinna, því hún kemur ekki heim við texta Eddu og er líka röng. Sama er líka að segja um skýring danska Lex. poet. þráttnefnda: villifær stigur, sem ekki er heldur vafa mörkuð. Það er hægt að ráða rétt til merkingar refilstiga af texta Eddu alveg eins og til merkingar elivága, ef textinn er lesinn með eftirtekt, hleypidóma og sjálfsþótta laust. Gylfi sá mann í hallardyrunum, segir Edda, sá spurði hann fyrr að heiti. Gylfi nefndist Gangleri og kominn af refilstigum og beiddist náttstaðar. Auðvitað er ekkert hægt að ráða til merkingar refilstiga af þessu, því að gistingar getur maður vitaskuld beðið, af hvaða stigum sem komið er. Enn inn kominn í höllina er hann inntur að erindum sínum, og þá er líklegt, að manni megi heldur fénast um það, hvað hann sagt

hafi manninum í hallardyrunum. Af spurningu Gylfa þá og því, sem gerist af henni, þarf ekki að fara í neinar grafgötur um það, að refilstigar eru grafgötur, rannsóknarvegur; enda er Gylfa nú ekki boðið til sætis, eins og vant er í sögum á þessu stigi þeirra, heldur er honum sagt að standa frammi og fregna eða refla. Því œsir láta rannsakið óðar uppi, eins og eiginlegt er saklausum eða þeim, sem ekki eiga sér neina ills von af því; en af því að öllu rannsaki fylgir meiðing nokkur og vansi, þá er Gylfi látinn vita að hann komist ekki heill út þaðan, nema hann reynist fróðari. Refilstigar eru rannsaksvegur og fara refilstiga er sama og nú er sagt, að "ganga vísindaveginn," veginn, sem norrænufræðingarnir eru á meiri hluta æfi sinnar, þótt þeir viti ekki hvað vegurinn heitir á Norrænu, enda eru sumir þeirra villumenn refilstiga, að eg við hafi orð Þorleifs jarlaskálds óskilin af fyrnefndu Lex. poet. Orðtengðafræðin geldur já-kvæði þessari merkingu refilstiga. Því bregður fyrir í Íslenzku, eins og Guðbrandur Vigfússon hefir tekið fram fyrir löngu, að stafavíxl verða innan sömu þrídeilu dumbra stafa í upphafi orðstofna eða stafurinn fallið niður t. d. rjúfa, krjúfa; rífa hrífa o. s. frv. eins refill, grefill. Vestmanneyingar kannast við grefilinn. Það er áhald til að kanna bjargholur, þreifa eftir fuglinum og krækja hann, stafur búinn stálkrók á öðrum endanum; grefill er líka grafból til að skera út kopar. Refill er hið sama, það er kanni og líka útskurðartól og eggin, sem sker; sbr. blóðrefill, tannrefill. Af refill kemur sögnin að refla, að skera út, grafast eftir, kanna eða rannsaka. Refði er broddstafur til að kanna fyrir sér eða búinn snaghyrndri öxi til þess og þá vopn jafnframt; refjur heita ónáðir þær og vansi, er þeir verða fyrir, sem eru reflaðir; eg vil hafa mat minn og engar refjur sagði Glámur; refjóttr og refjusamr eig. sem temur sér að gera slíkar ónáðir; refr eig. sá, sem grefur, kannar, tóa; undirhyggjumaður. Öll þessi orð hafa í rauninni misst g fram an af sér og svo refsa, er merkir eig. sama og refla, þótt nú lúti meir að niðurstöðu reflanar, sem sé hegna, og svarar til grefsi sama og grefill. Það fer þá svo að refilstigar er skylt blóðrefill, og á ekkert skylt við refill veggtjald, alveg öfugt við Fritzners hald. Refill, veggtjald, er safn- eða minnkanarorð af refr, sem er allt annað orð en refr, er að framan getur. Þessi refur merkir voð þar með líka net; er haft í daglegri ræðu í orðatiltækjunum: skjóta e-m ref fyrir rass, skotska e-n, af ádráttar veiði komið, og til þess voru refarnir skornir, til þess var viðhöfnin höfð, komið af fornum viðhafnarsið þeim, að skera ref til refla til að tjalda stofur. Í hinni ágætu orðabók þeirra Sigfúsar Blöndals er ekki gerður munur hinna tveggja refa

og síðara orðatiltækið lagt út undir samnefni 'beinlaus biti.'' Refur kemst það næst því, að vera beinlaus biti, að það merkir líka hátíðamatur; sbr. jólarefur. Orðtengðir þessa refs eru: raf 1. electrum af því að refinn sér í því, 2. rafabelti; raftr; ráf, rjáfr =ræfr er vitna beyging sterkrar sagnar, er sennilega hefir runnið af eldri sögn *vrefa, er klofnað hefir (líkt og *vríta í ríta og veita) í tvær sagnir og ekki nema önnur þeirra nú geng í málinu.

''Skjalgr, m., nafn á tunglinu (eig. hornauga gjótandi, skakkur?)....Sem heiti (eiginl. viðurnefni rangeygi) faðir Erlings,'' segir í danska Lex. poet. Svb. Egilss. Sú var tíðin, að menn tóku Sveinbjörn Egilsson sér í hönd með álíkri lotningu og biblíuna sjálfa sakir hins óskeikula afburðarfróðleiks hans, en menn geta varla varist að bregða grönum, er menn lesa annað eins og þetta í honum. Sveinbjörn græðir ekki á félagsbúi því, sem Fornfræðafélagið hefir leyft að gera við hann heimildarlaust og með svo mikilli ósvinnu, að ekki má sjá hver sé hans hluti í því búi og hver annarra. Úr hvaða Mímisbrunni eru líka sopnar aðrar eins orðtengðarakningar og hvernig geta íslenzk augu verið svo haldin, að þau fá ekki séð, að þær eig. merkingar nái ekki neinni átt? Skjálgr er orðtengð sagnarinnar skirra, að hlífa, geyma, vernda, og kemur ekki til neinna mála, að orðið geti merkt skakk- eða rangeygð. Sögnin skirra er samstæð lýsingarorðinu skjarr, eig. sem geymir sín, og sterkbeyg að réttu lagi. Af stofninum skjarr kemur *skjarr-l, fyrir tillíking skjall eig. hlífhimna eggs, það köllum vér skjall, er næst er skurni; af því kemur með merkingaraukandi viðskeyti -agr, *skjallagr, fyrir samdrátt skjalgr eig. skjallhvíta; því mánaheiti og, ef til vill, viðurnefni Þorálfs skjálgs, föður Erlings, hafi hann haft skalla, og þó líklegra að hann hefði þá verið kallaður skalli, sbr. Áslakr skalli, Skallagrímr. Skjalgdalsheiðr er samnefni Hvítadals eða Fannadals-heiði. Af stofninum skjall kemur einnig *skjall-agr fyrir samdrátt skalkr eig. sá, sem geymir e-s fyrir e-n, ekki þjónn. Svo var Friðgeir Agli Skallagrímssyni skálkur, er hann hélt skildi fyrir hann á hólmi við Ljót bleika og geymist nafnið enn í erlendum tignarnöfnum, marskálkr, eig. hrossgeymslumaður konungs, á Ensku marshal, Frönsku maréchal og sénéchal= dómgæzlumaður konungs; merkir líka hjálmur. Tvennur er skálkr, þótt lexikonið grauti þeim saman. Hinn er kominn af þátíðarstofni sagnarinnar skjalla, skall, skollinn, *skallagr samdr. skalkr og merkir eig. hávaðamaður, þorpari, líka er það sverðsheiti eðlilega. Af þeim stofni er og *skallaðr, fyrir samdrátt *skaldr, fyrir missu nefnifalls endingar orðið skald. hvorugkyns, öllu heldur en það hafi í upphafi myndast með hvor-

ug kyns viðskeyti. Skáld er eig. illrar merkingar, sama og skálkur,, flimtari, sá, sem fer með flim; en listin hefir hafið orðið upp í æðri merkingu. Af stofninum skjall sagnarinnar skirra kemur með sama viðskeyti *skjall-uðr, fyrir hljóðvarp *skjölluðr, fyrir samdrátt skjöldur eig. sömu merkingar og skálkur hinn fyrst umgetni, sá, sem geymir hlífir; með viðskeytinu -ali verður skjallali, fyrir samdrátt og úrfall skáli, eig. skýli, stofa. Fyrir samdrátt jaklofnings í stofninum skjall verður skel (e fyrir i) eig. hlíf-himna kræklinga og kuðunga og af úrfalli l og hljóðlenging, myndast skál eig. sú, sem geymir e-s; sbr. hjarnskál. Fortíðarstofnar sagnarinnar eru oft forskeyttir: skorsteinn eig. steinn til að hlífa við reyk, reykháfur; skorkvikindi þ. e. kvikindi með skori eða skurmi, þ. e. hlíf; skorbíldr, engin þverhagga merking er í orðinu, þótt þeim bregði fyrir hjá Fritzner, eig. bíldur, er lestir skor, skýlið; en bíldr er af *berla, fyrir tillíking *billa (i fyrir e), að gera bert, og viðskeytinu -aðr, *billaðr fyrir samdrátt og úrfall bíldr, hafður til að marka tré til fellingar eða fé til lógunar. Það var mál manna, að margir mundu skorbíldar ganga í fé Höskulds Dalakollssonar, ef hann ætti að reiða af hendi fé Hrúts, þ. e. að margt fé yrði honum afmarkað, áður lykist því fé. Þá er enn fremur skurgoð=skurðgoð eig. verndargoð. Margir halda að orðið merki útskorin goð eða líkneskjugoð. Sjálfstæð orð er skorð, skorða, skurð, skúr, skurra, er öll merkja eig. vernd hlífð; sbr. engar skurrur skulu þeir gjöra út í megin fossinn frá veiði—svá at fiskrinn megi eigi ganga fyrir þann mun; ef þeir synja þér manntals og jafnaðar, þá mátt þú telja skorð á hendur þeim með særum; *skorr-l, fyrir úrfall erra og hljóðlengingu *skól, fyrir j-innskot skjól, af því skýli, skýla; skyr eig. sömu merkingar og preserve í erlendum tungum, mætti vel forskeyta orðið við alla matvöru svo geymda, að hún skemmist ekki.—En svo er annar skjalgr, tengð sagnarinnar skaga, samdr. ská. Það merkir samt hvorki skakki eða rangeygur. Áður en til þess kemur er að telja tengðirnar skögull; sbr. skögultönn; eða skagall, samdr. *skagll fyrir úrfall og hljóðlenging, *skall, fyrir j-innskot *skjall; af skjall kemur, eins og vant er, skjal-fa eig. fara úr skakk í annan, titra, riða, eins og því er títt, sem hátt skagar. Af skjálfa koma *skjálf-agr og skelf-igr, fyrir samdrátt *skjalfgr og *skelfkr, fyrir úrfall f til framburðar léttis skjalgr og skelkr og merkja bæði orðin hið sama titringur, riða; skelkur óeig. af því ótti. Þessi skjalgr er sennilega viðurnefni Þórólfs, föður Erlings, að hann hafi verið nefndur Þoralfr skjalgr sama og Þórólfur riða; sbr. samnefnið Þorsteinn skelkr. Því riða eða riðusótt er ekki ótíð mönnum, þá er þeir eld-

ast, einkanlega stórvöxnum körlum, þótt þeir séu ernir að öðru leiti. Af nafnorðum þessum koma sagnirnar skelgja, að skjóta augum í skjálg, í riðu; rulle med Öjnene, segir Danskurinn, og skelkja, að skjóta skelk í bringu, hræða; en skelgja að hæða er komið af skálkur, flimtari. Sögnin ská er sterk að réttu lagi og líka -ra-beyg. Orðtengðir hennar sýna það, ská, skán eig. sama og skagi, sbr. Skáney, líka skagar skegg eig. úr grön, skógr úr sverði, sker úr sjó og skör úr kolli (hár); af skör eig. það, sem skagar, tekur yfir, sbr. eldskör, ísskör, gangskör, kemur sögnin skara og af henni skar (í ljósi), skari á snjó, en skára sker ljárinn. Útlendir fræðimenn þekkja ekki nema skára. Enn fremur er lýsingarorðið skár, eig. sem skagar; því bilgjarn, góður, af því sögnin skána, batna; í viðskeytum uppskár,, opinskár o. s. frv. Skæll er í fé samdr. fyrir *skær-ill *skærll, fyrir tillíking skæll af -ra-beygingu öllu heldur en *skáill, fyrir hljóðvarp og samdrátt skæll. Skæll heitir og hátt fjall á Austfjörðum. Í orðabók þeirri Sigfúsar Blöndals er gangskör lagt út á Dönsku gangbræt, sem merkir skutbryggja, sjálfsagt eftir skýring Finns Jónssonar í grein hans í Skírni 1917 um talshætti á Íslenzku, að gangskör merki eig. fjöl til að ganga á yfir læk, í stað þess að orðið merkir yfirtaksgangur og gera gangskör að e-u merkir í eiginlegri en ekki óeiginlegri merkingu að gera gang að e-u svo yfir taki, gera endilegan gang að e-u. Sýnir það hversu bráðfara missögn lærðs manns geti orðið til málspjalla.

Trunt! Trutt! merkir eig. upp! eða fram! því hljóðskiftisorðin trana, trantr, trunta fara eig, með merkingu þess, sem berst upp eða stendur fram. Að truntast er að fara tindilfetum ótt eða nettlega, tifa, hið sama tríta, trýta og trýtla; en trýta merkir líka hljóðið, sem trýtlinu er oft samfara, sama og trutta. Ekki nema allra veglegustu Íslenzkufræðingar, sem aldrei hafa á æfi sinni séð eða heyrt t r ö n u, trýtil eða snælduhala trýta, eiga bágt með að skilja: trýtti æ trönu hvöt, í Hamiðs málum. Öll þessi orð hafa misst s framan af stofni (bæjar) trunt, (bæjar) struns; trunsa við e-u, strunsa hjá e-m; trjóna, strjóna; trýta, strýta; trilla, strilla; trantr, strendr, af hljóðskiftinu strind, strand, strund strond týndrar sagnar er farið hefir með merkingu að standa fram eða gnæfa og strönd er komin af o. fl. Í sumum orðunum verður stafavíxl stertr fyrir *stretr; stirtla fyrir *stritla, torta fyrir trota. Trami, óvættur á samstæðuna strammr og tröll, eig. sá sem mjög gnæfir, risi, er samstætt strjáll eig. *strand-all fyrir samdrátt og tillíking og úrfall n-s, strall, fyrir j-innskot strjall. — Guðbrandur Vigfússon getur þess, að óráðið sé, hvort upprunalegt sé t eða þ í orðunum

tyrma, þyrma; tolla, þola; tremill, þremill; teisti, þeista. Það á sér víst engan stað að t og þ skiftist á í stofnum. Þeista eða þeisti er íslenzkt orð; fuglinn nefndur svo af þjösninni, sem á honum er; en teisti er innflutt frá tunguspillandi Noregi. Tremill er komið af trami, óvættur, en af tyrma er s dottið framan af, tyrmir yfir e-u =styrmir yfir e-n, af stormur, sama sem bylur yfir, skellur yfir e-n, e-m verður snögglega ilt, orðatiltækið tekið af ofviðris áfalli. Aftur á móti á þyrma að ritast með i að réttu lagi, því að það er sama og þjarma, ja-ið dregið saman í i. Þjarma er komið af þátíðarstofni sagnarinnar þverra, *þvarr-ma, fyrir skifti á v við j þjarma e-m eig. rýra, minnka, fara illa með e-n; þirmir yfir e-n, e-m verður minna máttar, illt. Sögninni er sakir framburðar líkingar, ruglað saman við sögnina þyrma, sem komin er af *þirfa, þarf, *þorfinn og merkir eig. gá þarfa við e-n, eða þyrmsla þ. e. fjarsifja svo sem milli húsbónda og hjúa, vægja, hlífa. Loks er tolla komið af hljóðskiftinu tar, tor, sem fer með merking viðloðunar eða seigju; *tor-la, fyrir tillíking tolla, loða við; sbr. tjara; tyri, kvoðuríkur viður; tjóður; tjasna; tjasl.

Usli er lagt út glæður (sbr. Mið-há-þýzku usele) af Fritzner, eldur, bál af danska Lex. poet. Svb. Egilss., en hin tilfærðu dæmi sanna ekki þá merkingu, t. a. m. eldr og usli getur sennilega ekki merkt eldur og eldur. Skýringarnar eru runnar af orðtengðafræðilegu athugaleysi.

Ass! iss! uss! huss! hviss! eru meðalorpningar áhöstunar eða viðvörunar stældar eftir hljóði því, sem kemur af hraða eða því, sem fer hratt, eins og eldi í viðum, ljá í grasi o. s. frv. Af meðalorpningunum renna orð til að tákna þytinn, hvininn eða dyninn og önnur orð skyldrar merkingar. Af hinni fyrstu er ös eig. hljóðið af því, sem ysjar saman, mannþröng, einnig ös-kra, ös-la, asi. Af iss er eisa eig. hvinur; sbr. þeir auka nú eldana, og var eisa mikil og vátareykr ómáttulegr, þ. e. eldhvinur mikill og svæla ómáttleg, einnig að eisa, fara með hraða og hvin; eis-kra, ís-kra eig. svipað og öskra; eisk-ald hjarta. Af uss kemur yss og us-li hið síðara eig. hvinur sérstaklega elds; sbr. eldur og usli; og hvers eina, sem fer að með voða dyn, svo sem yfirgangs ófriðar og hrygðjuverka; merkir líka verknaðinn sjálfan og skemmdir hans. Af hviss er kvis (k fyrir h), hvís-kra, hvís-la og *af-hvis-li=auvisli=ausli sama sem usli. Mið-háþýzka usele og engil-saxn. ysla eru tengðir usla og mega vel merkja eld, bruna, en sé usli tengt latn. urere (brenna), eins og rakið er, þá skýrir Íslenzkan eig. merkingu hinnar latn. sagnar.

Með þeirri skygni inn í náttúruhætti, sem gefin er skáldum einum, listamönnum og þekkingarfrömuðum, kastar Guðbrandur

Vigfússon fram þeirri spurningu í Cleasby í hinni aðdáanlegu skýringu sinni um "orð:" "kann ekki vera orðtengðafræðilegt samband milli word og weird, Ísl. orð og urðr eins og word, wurdr?" Spurningu hans er enn ósvarað. Íslenzkan er líklegri til að geta frætt Breta um eig. merkingu "word" heldur en Enskan Íslendinga. Séu orðin tengð, þá getur það ekki verið nema fyrir hljóðskiftissögn, sem til er eða verið hefir í málinu; og er leitinni þá mjög vísað til sterkra sagna 1. flokks. Með því að verða, varð, urðum orðinn verður að vísa frá sakir merkingar, er að derra leitina til sagna, er í stofni hafa niðurlagsstaf skiftilegan við ð t. a. m. g, því að g skiftist á við ð. Bezt er að bera fyrst niður á sögninni bjarga eftir álíkum. Orðtengðir hennar eru birgr; björg, hjálp, hlíf, vistir, borg og að sjálfsögðu borð, því að það merkir hlíf og vistir alveg eins og björg. Skjaldar kenningar fara með hlífar merkinguna og vitna hana tvímælalaust, t. d. borð hjörs eða hjarar þ. e. hlíf fyrir sverði, borðs mörk þ. e. hlífar viður o. s. frv. Enn fremur er borði t. a. m. hann var mikill borði, eig. sá, sem bjargar, sama sem hilmir höfðingi; hefir verið tekið sem þáguf. af borð, mikill borði, eig. borðhár og af því óeig. skapstór um menn, eingöngu fyrir ábótavanan skilning á eig. merking orðsins, borð. Enginn efi getur leikið á því, að g er skift við ð í þessum sagnstofni. Í Íslenzku er engin sterk 1. flokks sögn með sömu niðurlagsstöfum og bjarga, en veik sögn er til, verga, er orðtengðir votta sterka, vargr, urga, því þær fara með líkar merkingar. Verga merkir eig. að slíta, tæta sundur, drepa eða meiða með átökum, og svo af því að ata, óhreinka, því það felst í hinu og fylgir því. Vargar heita vargar, af því að þeir verga skepnur með átökum sínum, þ. e. slíta þær sundur og drepa, og urga, flt. urgur heita festar skipa, báta, hvala, skauta mannbrodda og öll bönd, sem höfð eru til halds því þær verga, þ. e. slíta og yrja það, sem þær halda. G skiftir við ð í sagnstofninum álíka og þegar var sýnt um bjarga. Verða þá orðtengðir sagnarinnar vargr; urga; urð, eig. skaðvænn staður, vargaból, því vargar eru urðardýr; urðr, bani, dauði; Urðr og orð, eig. mál, sem festir eða heldur og kann því, eins og urgan, að vera til þrautar og ásteytingar þeim, sem bundinn er við það; sbr. hann skyldi hafa þau þrjú orð í framburði sínum, þat it fyrsta orð, at allir menn skyldu kristnir vera, þat annat, at úheilög skyldi vera hof öll ok skurðgoð, þat var it þriðja orð, at fjörbaugs garð skyldi varða blót öll, ef váttnæm yrði. Og er þá færður til sanns grunur Guðbrandar Vigfússonar að orðin urðr og orð væri tengð. — Í danska Lex. poet. Svb. Egilss. er þess getið, að Konráð Gíslason telji urðr, dauði sama orð og Urðr. Það er vafalaust

rétt. Urðr er komið af þátíðarstofni varg með hljóðverpandi kvennkyns viðskeyti -r, *Vergr, fyrir stafaskifti *Verðr, fyrir samdrátt ve í u Urðr, og hefir samdrátturinn orðið til að koma á gang karlkyns orði urðr, dauði; lítur út fyrir að Urðr hafi og hneigzt líkt og öx, axar. Því vísurnar, er til seiðsins þurfti, eru nefndar bæði Urðarlokkur og Varðlokkur þ. e. Varðar lokkur. Urðr, eig. sú, sem ræður bana, lífi og dauða, er örlagadísin; Urðarorð, orð hennar. Urðarorði kveðr engi maðr er heiðið spakmæli, sama og þegar að kallið kemur, kaupir sig enginn frí. Runnin af verga eru ormr, orri, orrusta, er skýrir eig. merkingu enska earnest og þýzka ernst. Upphaflegt g hefir í þessu orði skift við r í íslenzku en við n í hinum.

Ýrr er á orði í hinni fróðlegu ritgerð Margeirs Jónssonar, Torskilin bæjanöfn í Skagafjarðarsýslu, er hann rekur Írafell til réttnefnis Ýrarfell. Hann víkur að því, að kvennheitið Ýrr kunni vera skylt ýring, úrkomu, og er það rétt. Orðið er tengt úr, smádropótt regn; neisti, úr er af eldu jarni; ýra, að skvetta smádropum. Ýrr merkir frekna og ýróttr freknóttur; konuheitið sennilega freknótt, rauðhærð kona; sbr. Yrsa. En frekna er tengð fránn eig. fríður, ljómandi, samdr. mynd úr *fragann, *fragnn, fyrir úrfall og hljóðlengingu fránn, af stofninum frag sagnarinnar fraga, samdr. *frá, með j-innskoti frjá, að unna. Frekna merkir þá ynnilegur smáblettur, ljóma blettur líkt og ýrr.

"Þjalfi m. eitthvað, sem lykur um og heldur saman," segir í danska Lex. poet. Svb. Egilss. Skýringin sýnist bera með sér, að próf. Dr. Finnur Jónsson kunni ekki deili á því, sem hin jartegnilega goðsögu Snorra Eddu felur í sér um það, hversu Þór eignaðist þjónustumenn s í n a, þ a u Þjálfa og Rösku. Sagan segir, að Þór gisti bónda nokkurn og lét slátra höfrum sínum að vanda til matar sér og þeim; en þá er hann bjóst til ferðar næsta morgun og brá upp Mjölni og vígði hafurstökurnar, er bein hafranna voru á borin, þá stóð annar hafurinn upp haltur á fæti, því Þjálfi, bóndasonur, hafði sprett knífi sínum á lærlegginn og brotið til mergjar. Við það lét Þór brýrnar síga, en bóndi gerðist hræddur og varð það sátt þeirra, að þau systkyn, Þjálfi og Röskva skyldu ganga í þjónustu Þórs. Það er gamla sagan, sem einlægt er ný. Þegar Þór dunar, þá sprettir Þjálfi á ský til mergjar og skolar niður vötnum þeirra, og Röskva, systir hans, tekur til starfa, að röskva gróður jarðar. Þjálfi merkir ekki það, sem lykur um og heldur saman, heldur sá, sem þvær rækilega. Kenningarnar eyja þjálfi, þangs þjálfi er sær, af því að sær þvær, skolar eyjar og þang. Þjálfi er tengð sagnarinnar *þvaga, samdr. þvá, þó, þveg-

inn. Sögnin á sér tvær myndir fyrir skifti v við j, sem sé þvá og þjá, er greinst hafa í tvær sjálfstæðar sagnir, önnur þjá með víðtækri merkingu, að hrjá, hrekja, hin, þvá, með takmarkaðri merkingu, að hrjá eða hrekja e-ð því til hreinsunar. Margar orðtengðir sagnanna eru eins að myndinni til, merkingin ein verður að skera úr til hvorrar skuli rakið. Til þvá er að rekja t. a. m. þvag, heitir svo líklega af gamalli reynslu að gott sé það til þvotta; þvætti; *þvagall, fyrir samdrátt og úrfall þváll, sápa samkvæmt Fritzner, en líklegar þvættislögur einhver eða keyta, því hvorki voru ilmsápur né felt naphtha stangir hafðar á Norðurlöndum í þann tíð, er íslenzka gekk þar; þvall er og lýsingarorð sama og þvalur og þjáll; af því er sögnin *þjál-fa, beyg. eins og skjálfa að þvo rækilega; og af sögninni þjálfi. En þjálfi og þjal-mi, gildra, er að rekja til sagnarinnar þjá. Sögnin þvá er og -ra-beyg að vitni tengða hennar þvara, þvari, þyrill og þari (v horfið), eig. það, sem skolast; en þang eig. þungi, erði, er tengt sögninni þyngja, samstæð þungr og að réttu lagi sterkbeyg í áhrifslausri merkingu, að vera þungur, en veik áhrifssögn alveg eins og á sér stað um þryngja. röskva og sökkva o. fl.

Hér lýkur sýniskornunum eðlilega. Þau eru næg til að gefa lesendum dálitla hugmynd um fróðleik þann, sem fólginn er í íslenzkri orðtengðafræði og merkileik hennar bæði fyrir tunguna sjálfa og erlendar tungur. Eg hefði, vitaskuld, getað tekið önnur sýnishorn en eg tekið hefi, því nóg er orðtengða í tungunni. Eg hefi helzt valið mér til sýnis orð, sem komið hafa að einhverju leiti misskilin eða óskilin undan prófgeislum norrænufræðinganna sökum ónógs orðtengðafræðilegs ljóss innan tungunnar sjálfrar, ein mitt til þess að lesendur mættu eins og leggja hönd sína á merkileik og nauðsyn íslenzkrar orðtengðafræði, og sett mig út yfir aðfinnsluna, sem fylgir eðlilega slíku vali, neque enim disputari sine reprehensione potest,[5] eins og Cicero segir í De finibus bon et mal.

Það er menningar þarflegt fyrirtæki, að koma á kennslu í íslenzku við æðri skóla í fylkjum Canada á þann hátt, sem fengist hefir þegar í Manitobafylki, og hið þjóðræktarlegasta af hálfu Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi og leiðtoga þess, og verður þeim til aukinna vinsælda, eins og maklegt er, bæði hjá íslenzkri alþýðu í þessari álfu og eins heima á Íslandi . Því þar er nú vaknaður áhugi á tungunni, áhugi á að verja bókmálið fyrir kviki daglegrar ræðu, sem er sjálfsagt að þakka Háskóla Íslands.

Sú óöld íslenzku og íslenzkum fræðum, er keyrði hina ágætu íslenzkufrömuði Jón Þorkelsson og Halldór Kr. Friðriksson svo ó-

[5] Því ekki getur menn greint á nema með aðfinnslu.

maklega af kennarastólum þeirra, er að ganga til viðar. Mönnum var loks nóg boðið, er stafsetningarbrjál hennar orkaði æskulýðnum óbeitar á lestri fornrita. Hinir beztu rithöfundar, sem Ísland hefir á að skipa, hafa tekið sig til að verka af tungunni lyrfurefana, sem ambögusótt óaldarinnar, latmælahler og troðkenningar hégiljur hafa spunnið um ýmsar greinir hennar. Þeir hafa sameinað sig um útgáfu tímarits og tekið þar upp stafsetning samkvæma uppruna, áþekka þeirri, er kennd er við Halldór Kr. Friðriksson og algeng var meðan hans naut við. Þeir hafa horfið aftur á refilstíga hinna góðu gömlu íslenzkufræðinga; það eru fyrstu merki upprofsins. Slíkir menn eru mikilla vona fyrir Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi. Því þeir eru líklegir til að láta skríða til framfara og framsóknar í íslenzkum fræðum og búa félaginu gögn í hendur til að sannfæra hérlenda enskumælandi menn um nauðsyn íslenzku kenslu, að þeir geti ekki öðlazt skilning til fullnustu á tungu sinni og þjóðfélagsskipun, nema að kynnast tungu og sögu Íslands.



## Ljóðabréf til Páls Ólafssonar

*Frostaveturinn* 1880-81.

Nú er komin ísöld,
Yfir oss þanin snætjöld,
Úti kelur hvern höld,
Hjörtun innra stálköld.
Héraðsstjórnin glóp-göld
Með glappaskotin margföld,
Siða ríkja vönd völd
Með vélabrögðin ótöld.

Upp eru gengin ór hey,
Allir segja þvert nei,
Björg úr fjósi berst ei,
Ber í krókum hver mey.
Þagnaði spakra spá gey,
þeir spjalla nú í kyrþey.
Hrópa snauðir hátt, vei,
En höfðingjarnir: svei, svei.

Heims er andinn bölbrjáll
Blaðagrautur óþjáll;
Arnljótur er orðháll
Og auðsafninn vilmáll,
Á fjandanum er nú góðgáll,
Hann glennir sig sem hrökkáll.
Þagna fýsist forsjáll,
Forláttu nú, minn Páll.

*Séra Bjarni Sveinsson* í Stafafelli.

# Skyldleiki.

Eftir *Jakobínu Johnson.*

Þau ganga sömu götu' og eg,—
En greiðist margt á annan veg.
Þau fylgja oftar eigin vild.
— Eg efast um eg sé þeim skyld.
En er eg lít þau ein um kveld,
Með andlit bleik og sveitt, —
Mín breytist andúð brátt — og dvín, —
Þú bróðir minn — og systir mín,
Sjá — eg er einnig þreytt!

Hún man að berast mikið á, —
En man ei jafn-opt börnin smá.
Mér virðist hún sé vandfýsin,
— Og varnað þó á ýmsu skyn.
En er hún stendur ein við gröf
Sem eik af stormi hrist,—
Mín andúð hverfur óðar sýn, —
Þú angri mædda systir mín,
Sjá — eg hef einnig mist!

Hann virðist bera höfuð hátt,—
Með hreysti-svör — og viðmót kátt.
Eg væni hann um valda-fýkn —
Og vil hann sýni þjáðum líkn.
En er eg lít hann einan sér,
Með örvænting í svip, —
Þá brýst út hróp frá brjósti mér:
Þú bróðir kær — eg líð með þér.
Sjá — eg á sokkið skip!

Þau ganga sömu götu og eg, —
En gleðjast þó á annan veg.
Mér finst það glit og fánýtt prjál,
Sem fögnuð vekur þeim í sál.
En er eg lít þau arni hjá
Með yndis-fríðan son,—
Þá ann eg þeim af instu rót,
Né efast þá um skyldleik hót.
— Eg á mér einnig von.

1927.

# Stephan G. Stephansson.

*(Nokkur orð um skáldið og manninn).*

Eftir *Dr. J. P. Pálsson.*

Að eg hefi færst í fang að rita nokkur orð um Stephan G. Stephansson, kemur ekki til af því, að eg þykist verkinu vaxinn eða búist við að komast þangað með tærnar, sem ý m s i r íslenzkir mentamenn ná með hælana. Auk þess trúi eg því fastlega sem Voltaire segir: "Eg held að tvær blaðsíður, sem sýnirhorn af andans fegurð stórskáldanna, séu miklu meira virði en alt lofið, sem eftir þá er skrifað." Ástæðan fyrir línum þessum er öllu fremur sú, að mér er ljúft að minnast mannsins ekki síður en skáldsins; því mér finst eg eiga báðum mikið upp að inna. Ekki er heldur óhugsandi að þeir, sem skygnast vilja inn í skapgerð Stephans, þegar árin líða, verði þakklátir þeim, sem voru honum sammála og samferða og sem að einhverju leyti létu í ljós skilning sinn á honum. Svo má varla minna vera en við, sem skiljum hann að einhverju leyti og njótum verka hans, gerum okkar ýtrasta til þess að vekja athygli hinna, og auka skilning þeirra á ljóðum hans; því svo er um fjársjóð þann, er hann arfleiddi heiminn að, að hann ávaxtast því meir sem fleiri njóta hans. Og eg trúi því, að margir, sem áttuðu sig ekki á þessu andans trölli, meðan hann dvaldi meðal okkar, eigi eftir að sitja í auðmýkt við fótaskör hans og læra:

"Að tekjulaust er gullið vits og vona,
Að vita það, en leita og grafa þó,
Og þykjast aldrei nema af því nóg,
Oss finst það heimskt—en samt er það nú svona:
Þá eignin manna öll er reidd til þings,
Og erfða-minning skiftir sanngjarn dauðinn,
Við kysum sögu-sæti Þveræings
Oss sjálfum fyr en Möðruvalla-auðinn."

Eg var svo heppinn að kynnast Stephani persónulega, og eg dáðist ekkert minna að honum sjálfum, en ljóðunum hans, enda munu fá skáld hafa komið eins oft til dyranna, eins og þeir voru klæddir, sem hann. Það sem mér fanst mest áberandi, í viðkynning við hann, var skarpskygni hans, góðmenska, hreinskilni og víðtæk þekking á öllum sviðum bæði að fornu og nýju. Til dæmis komst eg að því, að hann hafði glöggva h u g m y n d um líkamsbygging mannsins og nefndi líffærin nöfnum, sem vísindamenn hafa gefið þeim. Og svo var hann harður, eins og Íslendingar kalla það, að hann henti stundum gaman að þeim kvillum sínum, sem drógu hann til bana. Og þessi sérkenni

hans koma ávalt og alstaðar fram í kvæðum hans; og er því ekki að furða, þó sumum finnist ljóð hans erfið aðgöngu, sér í lagi þeim, sem vanir eru við andlegt léttmeti. Þó held eg, að í framtíðinni verði það talinn sómi fyrir núlifandi Íslendinga, hversu *margir* þeirra skildu Stephan og unnu honum.

Við að athuga æfiferil Stephans G. Stephanssonar, styrkist sú trú manna, að ljóð hans eigi langa og fagra framtíð fyrir höndum. Þroski hans sem skálds, frá hagmælsku óbreytts unglings til andríkis og snildar stórskáldsins, var eins hægfara eins og hann var ákveðinn. Hér var móðir Náttúra að verki, eins og þegar hún vandar sig mest. List Stephans blossaði ekki upp á himni íslenzkra bókmenta alt í einu, eins og lofteldur. Miklu fremur líktist hún óþektri stjörnu í ljósaskiftunum, í fyrstu svo óglögg, að þeir einir eygðu hana, sem hvassa sjón áttu. En smátt og smátt skýrðist hún, og aldrei ljómaði hún skærar en þegar myrkur heimskunnar grúfði svartast yfir vestrænni menningu.

Mörgum þeim samtíðarmönnum Stephans, sem skaparinn hafði blásið í brjóst neista skáldgáfunnar, uxu fjaðrir í heimkynnum bókmenta og lista, en auður og aðall blésu þeim byr undir báða vængi. Má þó svo að orði kveða: að flug sumra þeirra nam ekki hærra en steinkastalar auðvaldsins, að þeir komust aldrei út úr rykmekki skrílsmenningarinnar. En Stephan lá við barm náttúrunnnar og safnaði kröftum "úti á víðavangi," unz hann náði taumhaldi á sjálfum Pegasus, og eins og Þorsteinn:

"Hann fór því hirðlofsins van,
Hristandi af vængjunum böndin."

Margvíslegar torfærur liggja á vegi listamannsins, en engar hatramlegri en þær, sem hann skapar sér sjálfur með því, að virða "hirðlofið" að vettugi. En svo fer jafnan fyrir þeim—í svip að minsta kosti — sem hrista af vængjunum böndin, og láta sannleikann gera sig frjálsan. Og frjáls var Stephan, að hann kvað upp úr, nær honum sýndist, hvort sem í hlut átti eitt ómenni, eða heilt stórveldi, hvort sem hann stóð einn uppi, eða hann átti heila sveit góðra manna að baki sér. Margir, sem dá þetta lundareinkenni eins og það lýsti sér hjá fornmönnum, lágu Stephani á hálsi fyrir að sverja sig í ætt við forfeðurna, og töldu einbeitni hans og djörfung vera einstrengingshátt og stórbokkaskap. Ekkert er fjær sanni en bregða Stephani um þessa bresti. — Þegar véfréttin gerði upp milli grískra gáfumanna, og kvað Sókrates vitrastan þeirra, segir sagan að hann hafi með engu móti skilið þetta fyr en hann komst á snoðir um að hann var sá maðurinn í Aþenuborg, er sárast fann til fákunnáttu sinnar. — Eg hygg, að hið þróttmikla, andvaka vit Stephans hafi átt að sumu leyti rót sína að rekja að sömu upptökum eins og vizka gríska spekingsins.

Þessi auðmýkt andans auðkennir alla þá, sem hrundið hafa mannkyninu upp úr myrkradjúpi fáfræði og hjátrúar í áttina til ljósari þekkingar á tilverunni. Og Stephan átti hana í ríkum mæli. „Þetta er það sannasta og réttasta, sem eg veit,“ sagði hann eitt sinn við mig, og bætti svo við brosandi: „en eg veit líka, að það er ekki alveg satt.“ Mér kom þetta á óvart. Það er óvanalegt, að maður, sem flytur mál sitt af þeim sannfæringar-krafti sem Stephan gerir, þykist viss um að hann fari í ýmsu villur vegar. En mér datt í hug kvæðið hans „Hvað er sannleikur?“—

„Því sannleikur, vor, óyggjandi og allur,
Er ástand vort—en ekki véfrétt nokkur.“

Og ástand okkar breytist með hverju líðandi augnabliki. Eitthvað á þessa leið svaraði eg honum, og án þess að við ræddum þetta frekar, fanst mér eg skilja hann í það skiftið. Eg bað hann að fara með alt kvæðið fyrir mig, en hann breytti umtalsefninu. Og aldrei fékk eg hann til að fara með vísu eftir sig. Honum virtist heldur ekki kært, að talað væri við hann um ljóð hans, nema ef hann varð þess var, að þau juku skilning manns á skoðunum hans og áhugamálum. Enda mun hann hafa kunnað lítið utanbókar eftir sjálfan sig. — „Þetta rugl mitt,“ var hann vanur að kalla kvæðin sín. Það voru ekki ljóðabækur hans né skáldfrægð, sem hann bar fyrir brjósti, heldur stefnur þær og straumar, sem hann helgaði vit sitt, snild og manndóm. Hann leit ekki stærra á sig en svo, að hann kveið því, að ljóð sín, sem listaverk, yrðu einhverntíma léttvæg fundin, og reyndust þeim fótakefli, sem höfðu nefnt þau meistaraverk. Ef einhver gaf honum í skyn að hann stæði of hátt, til þess að svara sumum þeim, sem af flónsku sinni eða fordómum atyrtu hann, tók hann því úrstint. „Það er góðra gjalda vert, að þeir lesa þetta vísna-rugl mitt,“ sagði hann einu sinni. „Þeir hafa þá ástæðu til að úthúða mér fyrir það, sem þeim finst vera meinlokur mínar; og þó ekki væri nema kurteisi vegna, verð eg að kannast við þá. Annars hefi eg gaman af körlunum; og mér er vel við þá.“ Honum var að þessu sinni bent á, að hann væri stundum ærið napur í garð þessara „karla.“ „Það er þá klaufaskap mínum að kenna,“ sagði Stephan. „Mér er vel til allra manna, en mér er meinilla við þá strauma, sem sumir láta berast með.“ — Þannig er þá maðurinn, sem borinn var út fyrir stórbokkaskap og þvergirðing! Annars var það með Stephan G. Stephansson eins og önnur andans mikilmenni: Eftir því, sem betur eru athugaðir þeir lestir, er samtíð hans laug á hann, því meir vex hann í augum óvilhallra manna, unz:

„Hann stendur sem hreystinnar heilaga mynd,
Og hreinskilnin meitluð í bergið.“

Þá var Stephani oft brugðið um bölsýni, hvað svo sem það orð

þýðir í hugum þeirra, sem nota það sem nýtt heiti á Grýlu. Sjálfur hefi eg aldrei kynst lífsglaðari manni en Stephani. Eg held líka, að lengi megi leita í ljóðasafni hans eftir einni einustu hending, sem ber vott um víl eða vonleysi. Satt er það, að hann dregur oft upp átakanlegar mannlífsmyndir, og beitir þar stundum göldrum og gerningum dramatískrar snildar, eins og t. d. í kvæðunum: "Aftaka óeirðarmannsins," "Transvaal" og "Vígslóða." En hvergi barmar hann sér yfir óförum lífsins. Alstaðar birtist trú hans á sigur þess í baráttunni—upp úr óskapnaðinum til eilífrar fullkomnunar. Hversu illa sem mennirnir eru leiknir í dag, sökum heimsku þeirra, vonar Stephan betri tíðar á morgun. Og trú hans — sem kallaður var trúleysingi — er tröllatrú. Þar, eins og í öðrum efnum, ber hann höfuð og herðar yfir samtíð sína. Við þetta kannast allir lærisveinar Stephans, og nægir hér að gefa lítið dæmi. Þegar Bolshevikar brutust til valda á Rússlandi, stóð allur hinn svokallaði mentaði heimur á öndinni, og fór ekki í neina launkofa með óbeit þá og vantraust, sem *orthodox* hagfræði, trú og stjórnkænska báru til þeirra Bolshevika. Þjóðhöfðingjar á Vesturlöndum skulfu á beinunum af ótta, lítilsigldur almúginn sá ekki annað fyrir höndum, en úti væri um alt gott og heilagt í heimi hér. Viðurstygð eyðileggingarinnar b l a s t i við. Bolsheviki var vöndur í höndum djöfulsins, og með honum mundi sá gamli sópa burt af jörðunni heimilinu, kirkjunni, stjórnmenskunni, réttarfarinu—allri siðmenningunni eins og hún lagði sig. Stephan horfir á leikinn og lætur ekki g l e p j a s t, hvorki fyrir hræðsluóp né bölbænir. En hann spyr stillilega:

"Er til ríkis kominn kannske
Karlssonur úr Garðshorninu?

— — — —

Er hann heims úr böli boginn,
Blóðugur að rísa og hækka,
Múginn vorn að máttkva, stækka?
Sannleiksvottur, lýtum loginn!
Ljós, sem fyrir hundrað árum
Frakkar slöktu í sínum sárum?
Lítil-magnans morgunroði?
Fót-troðinna friðarboði?"

Og enn spyr andi Stephans vonglaður, trúaður. Spurningunum svarar framtíðin. Þó er nú þegar viðurkent af sumum gáfuðustu mönnum, sem nú eru uppi, að þetta uppátæki hinna svokölluðu Bolshevika sé sú tilraun, er hljóti að verða mannkyninu til ómetanlegrar blessunar. Og þegar eg nú skrifa þessar línur, liggur dagblað á borðinu hjá mér, með þessum ummælum helzta stjórnmálaskörungs Breta: "Og þegar rússneska stjórnin er búin að koma á skipulagi heima fyrir, verður þjóðin nær því, að vera ósigrandi, en nokkur önnur þjóð í heimi."

Trúmennirnir segja, að trúin eigi að bjarga okkur í mótlætinu og lýsa mönnunum í gegnum þennan dauðans skuggadal. Trú Stephans var ljós á leið hans. Stund-

um hefir "rétttrúnaðinum" sjálfsagt fundist afskifti Stephans af þeim gamla fremur gaman en alvara. Satt er það, að Stephan var stundum fremur léttúðugur í garð kölska, þegar hann kom fram í skrípa-gerfi því, sem miðaldakirkjan skrýddi hann. Stephani hefir víst fundist karlinn þá vera í fríi, og gerðist glettinn:

"Fyrir öllu eldra sér
Skal ungur lotning bera —
Lastaðu ekki Lúcifer,
Láttu karlinn vera."

Vitaskuld má draga fleira út úr vísunni, en glettur til þess gamla! Og eins er með kvæði hans, "Kölski í skáninni."

En þegar djöfullinn kemur í hversdags-fötunum—gerfi heimskunnar—kveður við annan tón hjá Stephani. Þá legst hann á bæn til mannlegra vitsmuna, steypir ljósi skáldgáfu sinnar og skilnings yfir mannlífið, hlífir engum, hvorki mönnum né málefnum. Hann rífur þá úr rekkju, sem sofa andlegum svefni, og lemur á þeim, sem liggja fyrir í skálkaskjóli nýtízku og gamalvana, kallar leysing og bylting í lið með sér, gefur andskota mannkynsins — heimskunni—engan grið, verður Jón Vídalín okkar tíma:

"Upp mót kúgun, eymd og spilling,
Öld þá byltist líkt og haf.
Látum alla lyga gylling
Leirnum mannlífs skolast af.
Hræðumst ei þó hrynji og falli
Heimsku guð af vanans stalli.
Fyrst vor trú á þau er þrotin,
Þau mega gjarnan liggja brotin!
Trú, sem barst, er brást í nauð
Björg, sem væntum hjálparsnauð."

Jafnan hafa gröf og dauði ástvinanna verið álitin eldraun trúarinnar. Athugum nú, hvernig Stephan mætir sorginni. Sjáum til, hvort trú hans, sem kölluð hefir verið trúleysi, bjargar honum. Við líkbörur sonar síns, sem sleginn var af eldingu, kveður hann:

"Já, nú er vægð að vita á því grein,
Að var ei það er laust þig svona, kæri,
Neitt skynbært vald, er vilji neinu mein,
Né venji á gott, með slys sem tækifæri!
Því grimdarverkin—hvað helzt sem þeir kenna—
Í hverju hjarta sviðaheitast brenna.

— — — —

Og hægra er við sked að sætta sig
Ef sitja ei hræðsla og refsing öllum megin.

— — — —

Eg kveð þig ugglaus. En eg til þess finn
Um alla þá, sem harm um lát þitt bera,
Að geta ei borið meira en hlutann minn
Af mæðu þeirra: án þín nú að vera —
Til æfiloka á eg til þess merki
Þú ert hjá mér, í ljóði mínu og verki."

Einnig langar mig til að vísa til hinna mörgu kvæða, sem Stephan orti eftir látna vini. Þau bera með sér að hann var tryggur og tilfinningaríkur langt fram yfir það, sem alment gerist; og varð því sársaukinn við fráfall vinanna þeim mun átakanlegri. En trú hans á heilbrigt mannvit og tilgang lífsins styrkti hann í sorginni. Og í stað þess, að sjá einhvern refsiguð yfir moldum

liðinna ástvina, blasti lífið við honum, heilt og óskift, gott og blessað í sigurför sinni út úr ó-skapnaðinum. Fyrir ljósi skynseminnar hvarf grafarmyrkrið, því í sjálfum dauðanum er lífið enn að verki. Og frá gröfinni gekk hann í hátign norræns manndóms, sem ekkert hræðist og biður sér aldrei griðar.

"Og ekki var hugsjón hans hegning né
laun,
Nei, hún var alls manngöfgis sjálfskyldu-
raun."

Ekki var langt frá því, að Stephan væri, um eitt skeið álitinn landráðamaður. Þó þekki eg engin ættjarðarljóð hugljúfari, þróttmeiri og fegurri en sum kvæði Stephans. Aðferð hans var, hér sem víðar, önnur en sú, er maður á að venjast. Ást hans á landi og þjóð var ást hans á jörðunni, gjörvöllu mannkyni. Og sú ást var svo rík og rót-tæk, að hún læðist út í hendingum hans, þegar minst varir. Aldrei verður hann svo hrifinn af tign og fegurð náttúrunnar, að mennirnir gleymist honum. Hér, eins og æ-tíð, er hann í fullu samræmi við lífsskoðun sína: að lífið og náttúran sé ein óslitin heild. Fegurstu náttúru-lýsingar Stephans hlaupa upp í fangið á manni, sem dæmisögur goðborins spámanns, t. d.:

"Öll fjöll voru gaddhvít, og grimmlegust
þau
sem gnæfðu yfir bygðinni hæst.
—Á jökla þá leggur ið harðasta hjarn,
sem himninum teygja sig næst."

—Eða smákvæðið "Sóllaukur." Margt skáld hefði gert sig ánægt með þá nákvæmni í lýsing og snild í máli, sem kemur fram í ljóðinu um litla "angurgapann," og látið þar við sitja; en hjá Stephani verður það að eftirmæli eftir ó-þekta hermanninn," sem vakað hefir, strítt og fallið í liði þeirra vormanna, sem geta tekið undir með skáldinu:

"Um stund skal við andviðrin una
Með áhuga þorsins,
Til dýrðlegu daganna muna
Og dreyma til vorsins."

Og þó er ást Stephans á landinu, móður jörð, svo hjartfólgin, að hann getur ekki hugsað sér að nokkur maður vonist eftir því himnaríki, sem ekki ber svip fósturjarðarinnar:

"Fjarst í eilífðar útsæ
Vakir eylendan þín:
Nóttlaus vor-aldar veröld
Þar sem víðsýnið skín."

Hér gefst ekki rúm til að fara mörgum orðum um þau kvæði, sem Stephan orti fyrir minnum landa og þjóða. Enda nægir eitt þeirra til að gera grein fyrir "föðurlandsást" hans. Og eg ætla í því sambandi að benda á kvæðið hans "Undir íslenzkum fána." Út úr hverri línu þessa fegursta ættjarðar-óðs, sem eg hefi lesið, skín djúp og heit ást til heimilis, vandamanna og heimalands, en um fram alt gætir mannúðarinnar og góðviljans í garð *allra* manna:

"Ypstu á ólgandi sænum
Sem orðsending hvatleg frá bróður til
bróður."

Hver biður þjóð sinni meiri blessunar en að fáninn hennar tákni bróðurkveðju til hvers farmanns á fjörðum inni eða í útsænum? Ætlan mín er sú, að þetta sé hinn eini þjóðsöngur, sem enn hefir kveðinn verið, svo úr garði gerður, að hver þjóð, sem er gæti sungið hann sér og öllum heiminum til blessunar, án þess að breyta hugtaki eins einasta orðs. Svona mikill föðurlandsvinur var Stephan, að öll jörðin var hans föðurland, og hann gat aldrei markað sér bás með þeim, sem ekki sjá út fyrir landsteinana.

Þó Stephan ætti vald á öllum blæbrigðum íslenzkrar tungu, lét hann aldrei blekkjast af hljómfegurð hennar, né sló hann landi og lýð gullhamra í eintómri hrynjandi glamuryrða. Manna bezt kunni hann að meta manngildi forfeðranna, en misti þó aldrei sjónar á stórmennum samtíðar sinnar. Vafurlogar fornaldarinnar urðu honum aldrei að villiljósum, en hann leitaðist ávalt við, að lýsa með þeim samtíð sinni. Á þjóðhátíðum slepti hann sér aldrei út í algleymi ímyndaðrar dýrðar og fullkomnunar lands og lýðs. Jafnan lagði hann á met skynseminnar hvert málefni lands og þjóðar, og leitaðist við að sýna, hversu mikla blessun eða bölvun það hafði í för með sér fyrir sveitina hans—alla jörðina, fyrir þjóðina hans, mannkynið. Og í þessu sýndi hann jafnan þá hugprýði þess manns, sem er ætíð reiðubúinn að leggja lífið í sölurnar fyrir föðurlandið, því sú var tíðin jafnvel að:

"Stærsta huga þurfti þá,
Að þora að sitja hjá."

Væru Englendingar yfirleitt þeir menn að lesa og skilja norræna tungu, hefðu þeir efalaust hnept Stephan í fangelsi fyrir að kveða "Vígslóða." Þá vann hann sér fjandskap sumra vina sinna, en um leið þann orðstír, sem vex með degi hverjum, eftir því sem heræðið sljákkar og mennirnir leyfa óbrjálaðri skynsemi að skera úr um þá rangsleitni, sem lá til grundvallar fyrir upptökum styrjaldarinnar miklu. "Give till it hurts," sögðu þeir á stríðsárunum. Stephan gaf heiminum "Vígslóða," og að líkindum ekki alveg sársaukalaust. Og um það dæmir framtíðin, hve stór gjöfin er og höfðingleg. — Þetta er þá *landráðamaðurinn* eða *föðurlandsvinurinn,* alt eftir útsýni og innræti þess, sem orðin notar.

Kaldlyndi Stephans hefir oft verið við brugðið, og jafnan hefir sú athugun fylgt með, að hann gæti verið mikill vitmaður, án þess að vera skáld. "Enginn varnar honum vitsins," hafa þessir sjálfkjörnu dómarar sagt, og fundist talsvert um sína eigin speki. En skáld — nú, það var annað mál. Annaðhvort hafa þeir ekki lesið "Andvökur," eða þeir mæla gáfu skáldsins eftir grátgusum og ástarblossum, sem þeir finna ekki í ljóðum hans,

verða svo ekki á annan hátt varir viðkvæmni hans og blíðu.

Tilfinningar Stephans blossa aldrei upp, né kólna út, á einu augnabliki. Þær koma fram í kvæðum hans og lífi eins og vermandi bjarmi, ljós, sem aldrei blaktir á skari, ylur, sem aldrei kulnar. Eftir þessu tók eg fyrst, þegar eg las kvæðið "Kurlý":

"Við sáumst ei tíðar. — Er lækkar á leið
In lágfleyga desembersól,
Þú árlega heimsækir huga minn þó
Og heimtar 'ann til þín um jól.
Eg spyr ei til leiðar— neinn vísar mér veg
Né velur þar betur en eg.
Þitt hérað er draumland mitt, hús þitt mín spá,
Og hugurinn ratar þann veg.

— — — —

Í gröf þína, Kurlý mín! kveð eg um jól,
Í kot þitt, í höll þína inn.
Í fásinni áranna ekki er þér gleymt,
Því enn er eg riddarinn þinn."

Um tildrög kvæðisins sagði höfundurinn mér þetta: Stuttu eftir að hann kom að heiman var hann vinnumaður hjá bóndahjónum í Wisconsin-ríki. Þau áttu sex ára dóttur fallega og hrokkinhærða, sem hændist svo að útlendingnum, að hún kaus oft heldur að vera hjá honum en foreldrum sínum. Í vistarlok kvaddi hann húsbændur sína árla morguns, löngu fyrir vanalegan fótaferðartíma "Kurlý"; en þegar Stephan var að ganga úr hlaði, snaraðist "Kurlý" út úr bæjardyrunum, stökk upp í fang hans og þrýsti höfði hans að barmi sínum: "So you were going away, Steve, without saying good-bye to Curly?"

Eftir það sá Stephan hana aldrei. En tuttugu til þrjátíu árum síðar orti hann snildarkvæðið um litlu kærustuna sína; og tuttugu og þremur árum eftir það, fann eg að enn lagði ylinn frá eldinum, sem litli enski óvitinn hafði tendrað í hjarta útlendingsins.

Þá hefi eg heyrt menn segja, að kaldlyndi Stephans sýndi sig í því, að ekki liggi nein ástarljóð eftir hann. Að líkindum hafa þeir hinir sömu ekki komið auga á kvæðið hans "Mansöngur." Það mun óþarft, að leita í ljóðum Stephans eftir ópum æstrar kynhvatar. Tilfinningalíf hans var svo margþætt, og samræmi þess svo fullkomið, að þar fékk engin ein tilhneiging að sitja að völdum. Fyrir ríki hjarta hans réði einvaldsdrottning—mannvizkan. Og undir stjórn hennar urðu tilfinningar og hvatir siðaðar án þess að sofna, hraustar án hamstola æðis. Ekkert af kvæðum Stephans bera ljósari vott þess, hversu mikla rækt hann lagði við tilfinningar hins breyska mannshjarta en "Mansöngur." Og þegar tímar líða fram og meiri festa og jafnvægi kemst á skapgerð mannanna, finst mér ekki ótrúlegt að fleiri ástarkvæði verði ort í líkum anda og "Mansöngur." Enda trúði Stephan mér fyrir því, að stúlkan, sem hann orti kvæðið til, var *hans eigin hugsjón.*

Af því eg hefi enn ekki séð neitt ritað um þennan þátt í sálarlífi

Stephans, né skoðanir hans á kynmálum, sem nú er mest fjallað um, langar mig til að orðlengja hér ofurlítið. Í ritgerð sinni "Jökul göngur," segir hann frá því, að hann hafi eitt sinn verið "staddur við sveitasýning, hérna vestan hafs. Þangað kom múgur og margmenni af vænu og velbúnu fólki. Það ætlaði að skemta sér við eintóm búpeningsþing — furðulega feit svín, og uxa af aðalsnautaættum. — — Mér varð það minnistætt, sökum orðanna, sem einhver svaraði mér þarna. Eg hafði sagt eitthvert hrósyrði um manninn, sem mesta virðinguna hlaut, tók við flestum verðlaunum, og varð einskonar kounngur dýranna í kvíunum. 'Ojæja' laumaði einhver náungi að mér, sem nálægt stóð, 'en eg veit varla hvað segja skal, þegar sjálfur fósturfaðirinn er verst ræktaða skepnan í hjörðinni.' Þessu hefi eg aldrei getað gleymt. — — Hér var saman komin öll sveitaráhyggjan."

Það fer varla hjá því, að Stephan hafi órað fyrir því, að kynval sé nauðsynlegt mönnum eigi síður en skepnum. En "Mansöng" lét hann eftir sig, svo ekki yrði um vilst, að höfuð og hjarta ættu að starfa saman í þeim mannbótum, sem nú þegar hefir sumstaðar lagst til nokkur köld lagaákvæði. Aftur á móti var hann fráhverfur hinni svokölluðu Freud-stefnu—að kynhvötin ráði beinlínis eða óbeinlínis öllum hugsunum, orðum og gerðum mannanna; og honum féll miður, að mörg af yngri og efnilegri skáldum Íslands virtust leggja allmikið upp úr þessari kenningu.

Sökum frumleika Stephans er erfitt að bera hann saman við önnur skáld. En við hverja tilraun í þá átt, vex hann í vitund manns. T. d. er allmargt skylt með honum og Robert Burns. Báðir voru fátækir bóndamenn, báðir sjálfmentaðir, báðir einarðir talsmenn lítilmagnans; báðir alfrjálsir í skoðunum. Tungan hlýddi báðum eins og gott barn. En hér stóð Stephan betur að vígi; því það mál, sem Burns orti á, hversu lífs-lifandi sem það varð í ljóðum hans, má teljast hrognamál í samanburði við íslenzkuna. Enda er það eitt af afreksverkum Stephans, hversu íslenzk tunga hefir auðgast fyrir andagift hans og orðlægni. En þá skilur alveg með þeim Burns og Stephani, þegar tekið er til greina líf þeirra og lífsstarf. Eldurinn hjá Burns blossar upp og brennir hann á unga aldri upp til ösku; en hjá Stephani varir hann sem vermandi blessun langrar og farsællar æfi.

Margir virðast í nokkrum efa um, hvort ljóð Stephans verði nokkurn tíma víðlesin. Sá efi finst mér sprottinn af vantrausti til snildar hans, hyggjuvits og framsýni. Fyrir mitt leyti er eg sannfærður um, að sá mannheimur, sem Stephan G. Stephansson vinnur fyrir og vonast eftir, á sér stund og stað á komandi öldum; og þá verður hann lárviðarskáld þjóðar sinnar—gjörvalls mannkyns.

# Endurminning um Stephan G. Stephansson.

Eftir *J. Magnús Bjarnason.*

Eg man það glögt, rétt eins og það hefði skeð í gær, er eg sá skáldið Stephan G. Stephansson í fyrsta sinn. Það var að kvöldi hins 6. nóvembermánaðar 1908. Eg átti þá heima í íslenzku nýlendunni, sem á þeim árum var kölluð Marshland-bygð (eða Big Grass). Það haust var Stephan að ferðast um ýmsar bygðir Íslendinga, bæði hér í Canada og í Bandaríkjunum, og las upp kvæðaflokka eftir sig. Og þetta áminsta kvöld (þann 6. nóv.) las hann upp þessi kvæði sín í samkomuhúsinu á Big Point. Eggert Jóhannsson, vinur hans, var með honum í þetta skiftið, og ætluðu þeir að ná til Marshland-bygðar þá um nóttina og gista hjá mér. Eg hlakkaði mikið til komu þeirra og ætlaði endilega að vaka um kvöldið, þangað til að þeir kæmu.

Þegar á kvöldið leið, bjó eg um mig á legubekk, en einsetti mér þó að sofna ekki. Eg fór að rifja upp í huganum ýmislegt, sem eg hafði lesið eftir Stephan; og eins fór eg að gjöra mér í hugarlund, hvernig hann væri útlits, eftir mynd þeirri að dæma, sem eg hafði séð af honum. Eg mundi það, að eg hafði séð mynd af honum í "Öldinni" (sem kom út með "Heimskringlu" hér fyr á árum), og hafði mér jafnan virzt sú mynd benda á það, að Stephan væri mjög fornmannlegur ásýndum og sérlega norrænn í skapi.— Fyrst, þegar eg hafði heyrt hans getið, var hann nefndur Stefán Guðmundsson, og var sagður að vera mikill gáfumaður og efni í gott skáld. En kvæði hans höfðu þó ekki vakið verulega eftirtekt mína, fyr en þau fóru að birtast í "Öldinni".— Haustið 1897 fékk eg fyrsta bréfið frá honum, og hefi eg geymt það (og öll önnur bréf, sem hann skrifaði mér) eins og helgan dóm. Mér höfðu æfinlega þótt bréf hans vinsamleg, skemtileg og stórmerkileg. Og þó mér þætti kvæðin hans frumleg, kraftmikil og skáldleg, þá fanst mér samt bréfin hans og annað, sem hann hafði ritað í óbundnu máli, vera enn þá hugðnæmara og ljúfara fyrir skilning minn. Eg man, hvað eg var hrifinn af köflum þeim, sem hann skrifaði í "Heimskringlu," hér á árunum, og nefndi "Ar." Yfir þeim köflum er sérkennilegur snildarblær, sem bendir á það, að hefði Stephan ritað eingöngu í óbundnu máli, þá hefði honum verið vísað til sætis á hinum æðsta bekk í musteri heimsbókmentanna, og jafnvel þeir Thackeray og Hugo hefðu setið þar skör lægra; og þar að auki hefði allur hinn mentaði heimur getað lesið ritverk Stephans, af því að hægara hefði

verið að þýða það, sem hann hefði ritað í óbundnu en bundnu máli.

Annað var það, sem eg var að hugsa um, á meðan eg beið eftir Stephani, að kvöldi hins 6. nóv. 1908, og það var þetta: Hefði hann orðið annað eins stórskáld — ort eins mikið af tilþrifamiklum ljóðum—ef hann hefði ekki verið bóndi og barist við þá örðugleika, sem frumbýlingslífið hefir í för með sér? Hefði hann ort önnur eins ljóð og "Við verkalok," "Saskat-sjúan" og önnur snildarkvæði í "Út á víða-vangi," ef hann hefði verið háskólagenginn embættismaður í stórborg? Og hefði hann ort öll þessi kvæði, ef hann hefði ekki verið bóndi í *Alberta?*

Og þegar eg var að velta þessu fyrir mér, og renna huganum yfir þau af kvæðum þessum, sem eg hafði lesið, þá fanst mér að Stephan hafa lýst landslaginu í Alberta svo meistaralega, að ekkert gæti komist í samjöfnuð við það. Eg sá fjöll og dali, vötn og ár og skóga, þar vestur frá, mjög ljóslega—ekki einungis sem landslags-myndir, heldur miklu fremur sem lifandi verur. Það var alveg eins og hólar og lautir, lækir og vötn og skógarrunnar, vestur þar, fengi mál og skilning og hreyfiafl, þegar hann snerti hörpu sína. Hann segir, til dæmis, við vatnið:

"Svo máðum á sandbotni hvílist þú létt,
Og hælunum spyrnir við höfðana djúpt,
Og höndunum strýkur við fjöruborð gljúpt."

Og við grenisköginn þetta:

"Þér hefir víst á vetrum þrátt
Verið kalt á fótum."

Um lækinn segir hann:

"Mig klæði sem fljótast, mig fýsir að sjá 'ann,
Minn forn-vinur gamall og nágranni er 'ann.
Hann læddist svo feiminn um farveg sinn lágan."

Og þá er þessi mynd glögg:

"Hjallinn hár
Hnakka-fattur, brattur,
Bograr blár."

Eða í kvæðinu "Sumarkvöld í Alberta":

"Og þarna standa hólar
þétt í flokkum frammi.
Með fagurtypta kolla
yfir grænum hvammi."

Og þá verður Saskatchewan-fljótið lifandi:

"Með ættarsvipinn þíns heima-ranns,
Ert vala er segir upp sögu af þjóð,
Sem svarlaus þegir og kann þinn óð."

— — — —

"Og kletta hjó hún og sló af slóð,
Og sléttu gróf hún sem fyrirstóð."

Eins er kvæðið "Í bátnum" mér minnistætt:

"Eg vinina fáa en viðfeldna á,
Þau vötnin bláu hér norður frá."

Þar er líka skógurinn:

"Á höfðunum lágu hann tyllist á tá
Og tifandi smáöldu starir á,
Og ljóðar við lá:
"Mér finst það svo girnilegt, góða mín!
Að gægjast í bláu augun þín.' "

Og svo þetta í sama kvæði:

"Strönd og löndin leggja höndur ljúft í

skaut þitt, sjór,
Fjöll á knébeð krjúpa,
Klæði bláu hjúpa
Djúpra dala kór."

Vissulega fanst mér að eg sjá alt þetta mjög glögt. Mér fanst eg sjá alla þessa góðu vini Stephans G. Stephanssonar, allar þessar fögru verur og hollvætti, sem höfðu aukið hljóði í strengi hörpunnar hans og örfað hann til að kveða hin mörgu, þróttmiklu kvæði um náttúrufegurðina í Alberta-fylkinu, sem hann unni hugástum, næstum eins heitt og hann unni Íslandi.

Og þegar eg rendi huganum yfir alt þetta, þá fann eg, að mig varðaði ekkert um það, hvort Stephan væri stór maður vexti eða ekki; eða hvort hann væri fríður sýnum eða hið gagnstæða; eða hvort hann væri þýður og skemtilegur í viðmóti eða þögull og þunglyndur. Hvað varðaði mig um það? Því hitt vissi eg (og mér var nóg að vita það), að hinn innri maður hans var tígulegur og göfugur höfðingi — að hann var eitt hið langmesta og einkennilegasta skáld þjóðar sinnar, að fornu og nýju. Það gladdi mig innilega. Og í hjarta mínu var eg skáldinu þakklátur fyrir ljóðin, og bóndanum fyrir skáldið.

Út frá þessum hugleiðingum sofnaði eg, fyr en mig varði, að kvöldi hins 6. nóv. 1908. En að líkindum hefi eg ekki lengi sofið, þegar eg varð þess var—en hálf óglögt þó—að ekið var heim að húsinu, og þóttist eg vita, að Guðbrandur Ólafsson Johnson væri kominn með þá Eggert og Stephan, á hinum eldfjörugu hestum sínum, því að eg hafði beðið Guðbrand að sækja þá til Big Point. Eg heyrði að talað var lágt fyrir utan gluggann, og um leið var ekið af stað frá húsinu. Í sömu svipan var klappað á rúðuna í glugganum á herberginu, sem eg var í, því að eg hafði lagt svo fyrir, að það yrði gjört, ef þeir Eggert og Stephan kæmu heim til mín um nóttina. Eg spratt á fætur og gekk að glugganum; og þó eg vissi, hverjir komnir væru, þá kallaði eg út og spurði: "Hverjir eru þar?" "Drengir!" var svarað í þýðum og glaðlegum rómi. — Fáum augnablikum síðar, var eg búinn að ljúka upp dyrum og bjóða hinum góðu, kærkomnu gestum inn. — Og enn man eg vel eftir því, hvað veðrið var blítt og yndislegt, þetta kvöld, þó svona langt væri liðið á haustið; það hefði mátt kalla það sanna vorblíðu.

Og nú var eg búinn að sjá Stephan G. Stephansson. Og ekki varð eg fyrir neinum vonbrigðum, hvað útlit hans og viðmót áhrærði. Það var langt frá því, að hann væri forneskjulegur og óþýður—heldur einmitt hið gagnstæða. Hann var eins og glaðlyndur æskumaður og lék á als oddi, ef svo mætti að orði kveða. Hann var fremur lítill vexti. Og þó hann væri enginn fríðleiksmaður (í venjulegri merkingu), þá

bauð hann af sér svo góðan þokka, og var svo alúðlegur og aðlaðandi, að mér varð undir eins verulega hlýtt til hans. Og að hlýða á tal hans var mér sönn unun (enda var það í sjálfu sér æðri mentun, að kynnast honum og hlýða á tal hans), og þó mintist hann aldrei, svo eg heyrði, á sinn eigin skáldskap — hafði ekki yfir eitt einasta vísuorð úr kvæðum sínum, nema þegar hann las þau upp á samkomum. Rödd hans þótti mér viðkunnanleg, og hann talað skýrt og hagaði vel orðum sínum. Og augun hans ljómuðu af eldlegu fjöri, þegar hann talaði um það, sem honum var verulega hugleikið. Og mætti segja um Stephan, það sem dr. Björn M. Ólsen sagði um Jón Sigurðsson, að í augum hans hefði mátt lesa alt hið einkenilegasta í fari hans: "ljúfmenskuna, glaðlyndið, fjörið, viljaþrekið, og karlmannslundina, skarpskygni og dómgreind, hyggindi og viturleik." — Þannig kom Stephan mér fyrir sjónir strax í fyrsta sinn, er eg sá hann, og ávalt í hvert sinn, er eg sá hann, eftir það.

Að kvöldi hins 7. nóvembermánaðar, 1908, las Stephan upp kvæðaflokk eftir sig í samkomuhúsi í Marshlands-bygð, og kallaði hann kvæði þau: "Flutningurinn í nýja húsið," og eru þau prentuð í "Andvökum" (þriðja bindi). Aldrei gleymi eg því kvöldi. Eg man það, að Stephan flutti kvæðin svo vel og skýrt og blátt áfram, að eg heyrði hvert einasta orð, og mér fanst eg skilja kvæði þessi mikið betur en ella, vegna þess að hann las þau upp sjálfur. Allir, sem þarna voru staddir það kvöld, virtust hlýða á upplesturinn með mestu eftirtekt; og eg er viss um, að allir hafa farið heim til sín glaðir og ánægðir um nóttina. Og oft hefi eg hugsað um það síðan, hvort það sé annars nokkrum unt — þrátt fyrir allar listarinnar reglur — að flytja svo kvæði, að aðrir geti skilið það til hlítar, nema sjálfu skáldinu, sem orti það. Að minsta kosti efa eg það, að eg hefði skilið þessi kvæði Stephans eins vel, ef einhver annar hefði lesið þau þarna upp.

Þann 9. nóv. lögðu þeir Eggert og Stephan á stað áleiðis til Winnipeg, og fór eg með þeim til næstu járnbrautar-stöðva (Woodside); en þangað ók Jón Austmann með okkur alla í góðum létti-vagni, sem tveir gæðingar gengu fyrir. Og á meðan við vorum á leiðinni suður renni-sléttar grundirnar til Woodside, var Stephan að segja okkur ýmsar íslenzkar þjóðsagnir; og sagði hann svo vel frá, að unun var á að hlýða.

Næst sá eg Stephan G. Stephansson vestur í Vancouver-borg í British Columbia. Það var í febrúarmánuði 1913. Íslendingar í Vancouver höfðu boðið honum þangað vestur, til þess að vera í miðsvetrar-samsæti því, er íslenzka félagið "Kveldúlfur" (í Vancouver) stofnaði til, þann vet-

ur. Flutti Stephan þar (í samsætinu) kvæðið sitt "Kveldúlfsminni," sem prentað er í "Andvökum" (fjórða bindi), og var kvæðið ágætlega vel flutt. Samkoman var fjölmenn, og var það eitthvert hið rausnarlegasta miðsvetrar-samsæti, sem Íslendingar vestan hafs hafa haldið.—Stephan dvaldi um nokkurn tíma í Vancouver, og ferðaðist svo um Flestar íslenzkar bygðir á Kyrrahafsströndinni, og var honum alstaðar vel fagnað. — Eg heyrði hann flytja kvæðið "Kveldúlfsminni." Eg heyrði hann líka flytja kvæðið, sem hann orti til vinar síns Eggerts Jóhannssonar. Það kvæði flutti hann í samsæti, sem var haldið í húsi Þorsteins S. Borgfjörðs. Og alt af bar Stephan kvæðin fram skýrt og blátt áfram. Enn var hann kátur og ljúfmannlegur og lék á als oddi, eins og glaðvær æskumaður. — Sérstaklega man eg eftir því, að hann dáðist að ströndinni. Hún minti hann á Ísland, að líkindum. Hann segir í kvæðinu "Með fjörum fram":

"Það var æsku-unin mín að sjá
Út á víði, sveitar-bænum frá—
Ægir, eg varð fundi þínum feginn!
Hún er ættgeng þörfin mín á þér.
Það er líka eins og hugsun hver
Stígi upp úr hafi hrein og þvegin.'

Og svo er líka þetta:

"— Hér er altaf einhverstaðar nær
Íslendingur, því er mörk og sær,
Borg og sveitir, kostulegri og kærri."

Þar næst sá eg Stephan vorið 1924. Eg fór í júnímánuði með þeim dr. J. P. Pálssyni og Jóni kaupmanni Hallgrímssyni Goodmundson (frænda mínum) vestur til Markerville í Alberta, til þess að heimsækja Stephan. Ókum við alla leið í bifreið læknisins. Var veður hið bezta og vegir góðir Við vorum þrjá daga hvora leið, og þrjá sólarhringa dvöldum við hjá Stephani. Mér þótti fagurt umhorfs í Alberta nýlendunni íslenzku. Og ánægjulegt var að heimsækja Stephan og fólkið hans — konuna hans og börnin — sem tók okkur með opnum örmum gestrisninnar. Við gengum stundum með Stephani út um engi og haga, yfir hóla og lautir. Og eg rendi oft augunum vestur til fjallanna, þó þau væru oft hulin þoku, þá daga, sem eg dvaldi þar. En áin Huld (Medicine River) rann í ótal bugðum gegnum nýlenduna og minti mig á kvæðið "Hirðinginn," og fleiri kvæði Stephans. Huld er eins og lækurinn í kvæðinu hans Tennysons: hún heldur ávalt áfram, þó mennirnir komi og fari. — Eitt kvöldið sýndi Stephan okkur grafreit fólksins síns, og benti hann mér á þann reit, er hann ætlaði sér — í norðaustur-horni garðsins. Eg spurði hann, af hverju að hann hefði valið þennan sérstaka blett handa sér. "Af því eg vil vera sem allra næst Íslandi," svaraði hann. — Þegar við (dr. Pálsson, Jón og eg) lögðum á stað heimleiðis, þá fylgdi hann okkur til Innisfail (um 16 mílur) og kvaddi

okkur þar. Þá fann eg betur en nokkru sinni áður, hversu norrænn hann var í anda. — Eg hefi heyrt marga tala um það, hversu sönn og á háu stigi að gestrisni hans hafi verið, og hvílíkur höfðingi hann hafi verið í lund.

Aftur sá eg Stephan sumarið 1926, bæði hér í Elfros og í Winnipeg. Það sumar dvaldi hann nokkra daga hér í Elfros og var þá gestur vinar síns dr. Jóhannesar P. Pálssonar. Og þó Stephan væri þá kominn á áttræðis-aldur og heilsan mjög biluð, þá var hann enn ungur og hress í anda, alveg eins og hann var haustið 1908, þegar eg sá hann fyrst. Enn var sönn unun að hlýða á tal hans, og enn var minnið hans svo gott og traust, að hann gat farið með dýrar og fornyrtar vísur utanbókar, án þess að honum fipaðist. — — Eg sá hann í síðasta sinn þann 11. ágústmánaðar 1926. Hann var þá í þann veginn að leggja af stað heimleiðis frá Elfros, og kom yfir í hús mitt, til þess að kveðja okkur (konuna mína og mig). Eg man, að hann var kátur og léttur í lund og lék við hvern sinn fingur eins og elskulegt ungmenni. — — Ári síðar (eða að kvöldi hins 10. ág. 1927) heyrði eg þá harmafregn, að hann væri dáinn. Síðan eru nú réttir fjórir mánuðir; og á þeim tíma hefir verið meira um hann talað, og meira um hann ritað, en um nokkurn annan Íslending í Vesturheimi. Og flestir (eða allir) eru á sama máli um það, að hann hafi verið vitmaður með afbrigðum og voldugt skáld. — En vinirnir hans góðu, sem kyntust honum lengst og þektu hann bezt og skildu hann rétt, vita það, að þó hann væri mikill vitmaður og eitt hið langmesta og stórvirkasta skáld þjóðar sinnar, þá var hann samt enn meiri sem mannkostamaður og mannvinur.

Elfros, Sask. 10. des. 1927.



## TIL HALLDÓRS Á SANDBREKKU.

Eftir *Pál Ólafsson.*

Láttu nú Bangsa borguð fá
Bolaxar höggin stinn,
Upp á hans sálar skitinn skjá
skjóztu með járnkarlinn.
Getir þú pjakkað gat hann á
svo Guð fái séð þar inn,
hvalbita skaltu fá mér hjá
ef hval rekur annað sinn.

# Í vöku og svefni.

Eftir *E. J. V.*

Það var liðið á daginn, glóbjartan og fagran að sjá en kaldan að reyna, þegar hár og þreklegur göngumaður nam staðar um augnablik þar sem þjóðvegurinn liggur yfir norðurbæjarlínuna á Gimli. Febrúarsólin var farin að síga niður á milli trjátoppanna í vestri og óð þar í skýjaslæðum, þunnum að vísu og hægfara í logninu, en nógu þéttum þó til þess að varpa af sér venjulegum grámyglulit og íklæðast eldlitum skikkjum með logagyltum jöðrum og kögri. Fram undan og til vinstri handar var víkin og vatnsbreiðan, ládauð og þögul undir fargi af ís og snjó. Björt var hún og tilkomumikil þessi mjallhvíta auðn, en kuldaleg var hún. En í þetta sinn var eins og þunn lýsigullsslykja legðist á snjóinn og gæfi honum hlýlegri blæ. Og í sömu svipan hjúpuðu sól og ský skógar-toppinn fremst á Víðirtanganum í dýrðarlit kvöldroðans. En varanleg var hún ekki, sú dýrðlega sýn. Hún ýmist hvarf eða breyttist áður en af yrði litið.

Göngumaðurinn athugaði myndina, á landi og í lofti með nákvæmri eftirtekt, alla drætti, allar litbreytingar, eins og vildi hann festa enda smæstu drættina í minni sér. Þrisvar sinnum leit hann á kvöldroðafegurðina í vestri, greip svo upp tösku sína og gekk hvatlega suður um bæinn og inn á gestgjafahúsið, og þar ritaði hann nafn sitt og heimili í gesta-bókina: "Jón Konráðsson frá Aspavöllum, Gimli, Manitoba."

Morguninn eftir fór hann með járnbrautarlestinni til Winnipeg, og litlu eftir hádegi var hann búinn að ráða sig til utanríkis-þjónustu í fótgönguliðs-deild Canadahersins.

Það var ekki fyr en eftir tveggja eða þriggja daga vist í herbúðum og eftir að hafa fengið ofurlitla hugmynd um hvað heræfingar þýða, að hann komst í þá ró að samstæð hugsun væri honum möguleg. Og það er ekki neitt undarlegt þó hann um stund væri undir áhrifum margvíslegra og tilfinnanlegra geðshræringa. Fyrir fjórum árum hefði enginn trúað því og hann sjálfur sízt, að jafn ægileg byrði yrði lögð á herðar hans, eins og reynd varð á, enginn trúað því, að hann ótilkvaddur og með augu og eyru opin hefði gengið út úr heimi frelsis og sjálfræðis og inn í frelsislausan hernaðarheim, þar sem fyrsta lærdómsgreinin, og helzt sú seinasta líka, var fólgin í því, að afsala sér öllum rétti til þess að hugsa, tala eða breyta öðruvísi en herreglur skipa og heræfingastjóri heimtar.

* * *

Jón var yngstur sjö barna foreldra sinna. Yngsta systirin var ógift heima, en hin voru gift og flutt í aðrar sveitir, nema elzti sonurinn, Davíð, sem bjó ofarlega í Sæludal. Konráð faðir Jóns var nafnkunnur sjósóknari og formaður, en bláfátækur var hann og hafði lengi hokrað á lélegum jarðarskekli neðst í Sæludalnum og örstuttan spöl frá sjó og öruggishöfn. Nær fjórum árum áður en þessi saga hófst hafði hann ráðist í að kaupa nýjan og vandaðan mótorbát, en það var í stórt ráðist fyrir svo efnalausan mann og hniginn að aldri. En sjórinn er akur, sem oftar en hitt gefur þeim ríkulega uppskeru, sem bezt kunna að plægja hann og undirbúa. Og það kunni Konráð. Tvær fyrstu ferðirnar á nýja skipinu, reyndust arðsamar eins og bezt mátti vænta. Í björtu veðri og blíðu lagði Konráð upp í þriðju ferðina á djúp-miðin. En upp úr hádegi brast á aftaka-veður, og slotaði ekki fyrr en eftir sólarhring. Nýja skipið, sem Konráð og skyldulið hans hafði bygt svo glæsilegar vonir á, kom hvergi fram og sást ekki síðan. Þar fórst Konráð og með honum þrír vaskir sjómenn.

Nú var ekki um nema einn veg að velja fyrir ekkjuna, um ekkert annað að gera en selja reiturnar og segja upp kotinu. Ofan á aðrar raunir bættist það, að nú mátti Ingibjörg, móðir Jóns, vera upp á annara náðir komin, og afréð hún að fara með Dóru dóttur sinni í húsmensku til Davíðs sonar síns á Þverá. En Jón, þá 18 ára, áleit þann kostinn vænstan að fara vestur um haf, til Winnipeg, og treysta á góð ráð sveitunga síns, sem þar átti heima og leið vel. Að skilnaði fullvissaði hann móður sína um það, að svo fljótt sem kostur væri á skyldi hún koma vestur og njóta hvíldar í kyrð og næði hjá sér.

Jóni gekk mörgum betur eftir að vestur kom. Í Winnipeg var þá nóg um atvinnu og gott kaup goldið og þar vann hann fram á haust. En ekki langaði hann til að ílengjast þar. Hann komst að því von bráðar, að útdráttarsamt var að búa í borginni, og honum kom það svo fyrir að léttúð og gleðskapur væru metin meira en alvörugefni og sparsemi. Ef til vill var það álit hans sprottið af því, að frá því hann fyrst fékk skilning á tilverunni, hafði skortur og sparneytni sýnt honum þörf á alvöru og varkárni. Ósjálfrátt hneigðist hugur hans að sjó og fiskiveiðum. Hann heyrði oft talað um gróða af fisktekju í Winnipeg-vatni, og laust áður en haustvertíð byrjaði brá hann sér norður að Gimli. Þar leizt honum vel á sig og fanst svipþýður "sjávarbakkinn." Á Gimli hitti Jón roskinn bónda, sem lengi hafði búið í Sæludals-sveit, en sem nú bjó góðu búi á landi sínu, er hann nefndi Grundarkot, eftir ábýlisjörð sinni síðustu, heima. Bauð Björn honum heim með sér til þess að segja fréttir úr Sæludal og næstu sveitum.

Þessi óvænti fundur hafði mikilvæg áhrif á framtíð Jóns, meiri og stærri en hann eða Björn hefðu getað ímyndað sér. Jón réðst til haust-vertíðar norður á Hverfisteinsnesi með Páli syni Björns, en áður en þeir færu borgaði Jón hundrað dollara í fjögur hundruð dollara landeign samhliða Grundarholts-landinu. Afganginn skyldi hann greiða á þremur árum, hundrað á ári, eða meir ef hann vildi. Hér hafði hann stigið fyrsta sporið í áttina að því markmiði, er hann hafði svo mikið hugsað um: framtíðarheimili fyrir móður sína og sig. Stefna að því takmarki var fundin og þar fylgdi sú festa í fyrirætlunum öllum, sem ekki er möguleg á meðan alt rekur á reiðanum.

* * *

Það voru nú liðin þrjú ár frá því Jón fyrst kom til Winnipeg, og þau höfðu reynst honum góð. Hann átti nú skuldlausa ábýlisjörð, er hann nefndi Aspavelli, og eftir að hafa borgað fyrir efnivið í íbúðarhús, sem nú var í smíðum, átti hann talsverðan sjóð í banka. Kæmu engin óvænt óhöpp fyrir átti hann nú víst að móðir sín yrði tekin við bústjórn á Aspavöllum áður en annar júní-mánuður gengi í garð. Það var gleðirík tilhugsun, að eiga vissa von á að sameinast móðurinni elskuríku innan fárra mánaða, eftir svo langan skilnað. Í augum hans var nú framtíðin unaðsrík og björt eins og sólríkur vormorgun.

Á einverustundum öllum og gengi honum illa að sofna að kvöldi dags, var hugur hans og hjarta ávalt heima á Þverá hjá móður sinni. Legði hann augun aftur sá hann andlitið hennar, blíða og gæðaríka, skýrt og glögt eins og stæði hún hjá honum. En nú var svo undarlega viðbrugðið, um misseristíma eða lengur, að samhliða henni kom æfinlega fram önnur mynd, og upp á síðkastið var það oftar en ekki að báðar myndirnar runnu saman í eina, eða öllu heldur, máské, að mynd móðurinnar hægt og hægt smá hverfðist í myndina af Rúnu dóttur hjónanna í Grundarkoti, þar sem Jón hafði aðsetur á frístundum sínum öllum frá því hann hafði komið þar fyrst.

Það var nú ekkert undarlegt þó Jón feldi ástarhug til Rúnu. Hún var þeim kostum búin, að hjá því gat ekki farið, fríð sýnum og fallega bygð, sí-glöð og kát, blíðlynd og greiðasöm. Áður en hann vissi af var einlæg ást til hennar kviknuð í brjósti hans. Í fyrstu hræddist hann þessa ókunnu tilfinningu og gerði sitt ýtrasta að bæla hana niður, en til einskis. Ástarhugurinn yfirbugaði viljann í hverri atrennu. En ekki hafði hann látið tilfinningar sínar í ljós með einu orði og kom ekki í hug að gera það fyr en eftir að móðir hans væri komin og hann hefði talað við hana um einkamál sín. Auðvitað hafði hann enga hugmynd um álit hennar á sér, en alvarlega vonaði hann, að hún reyndist sér ekki með öllu fráhverf, og af ýmsu dró

hann þá ályktun, að foreldrar hennar mundu ekki leggja tálmanir á veg sinn í þeim sökum.

Það er gagn að fáum er gefið að sjá hvað framtíðin hylur í skauti sínu. Ef allir sæju og vissu hvað bíður þeirra, yrði lífsvist fjöldans alveg óbærileg. Af því Jón var ekki skygnari en flest af fólki er, þá leið honum vel, betur og betur dag frá degi, því sú stund nálgaðist nú óðfluga, er hann gæti heilsað móður sinni elskulegri og þrýst henni,—og Rúnu,—að hjarta sínu og brjósti.

Alt í einu brast á stormviðrið hræðilega, sem síðar fékk nafnið: "Stríðið mikla." Nærri öll Norðurálfa umhverfðist á svipstundu í óstjórnlegt eldhaf. Samgöngu og viðskiftalönd öll voru færð úr lagi, ef ekki rofin fyrir fult og alt. Útríki Breta hlupu strax undir bagga með stofnþjóðinni og varð Canada með þeim fyrstu til að leggja út í styrjöldina, kalla eftir sjálfboðaliði og draga saman vistir og vopn. Af því leiddi, að sjálfsögðu, að strendur Canada urðu þá í margfalt meiri hættu en strendur hlutleysingjaríkjanna, og þeim num erfiðara þá að komast til eða frá Canada, um canadískar hafnir.

Þetta var ill frétt fyrir Jón. Honum skildist vel að rétt mundi tilgetið, að mjög mundi raskað skipaferðum milli Íslands og annara landa. Ef til vill færi nú svo, að móðir sín kæmist ekki vestur á meðan á ófriðnum stæði. Líklegasta vonin var fólgin í þeirri tilgátu, að Eimskipafélagið sendi skip beina leið til Boston eða New York og þannig verið fyrir utan venjuleg ferðasvið neðansjávarbátanna. En mundi félagið reyna þetta? Það gat enginn vitað.

Tilfinnanlegast var það, að skuldin var hans. Það var stærilæti hans einu að kenna að hún var ekki hingað komin fyrir mánuði síðan, eða meir. Þar var ekkert annað í vegi. Hann gat ekki vikið frá þeirri ákvörðun, að fá hús sitt fullgert áður en hún kæmi, og úr því hún þurfti að bíða, þá var henni betra að bíða hjá börnum sínum og vinum, heldur en hjá ókunnu fólki. Nei, viðstöðulaust skyldi hún fara frá Þverá vestur á Aspavelli í Nýja Íslandi. Þá gat hann í sannleika beðið hana velkomna á framtíðarheimili þeirra beggja, en fyrri ekki. Og nú var þessi ógna skriða búin að afmá veginn.

........ Það var komið fram í miðjan nóvember. Þeir félagar, Jón og Páll voru seztir að í kofa sínum á Hverfisteinsnesinu, sem venjulega var heimili þeirra fram í febrúar. Vetur var genginn í garð, og smá herti nú á tökum. Vatnið var lagt á víkum og voggum, en ógerlegt var enn að leggja net. En nóg var samt að gera, dytta að kofanum, safna brenni, búta það og hlaða því upp heim við hús, svo ekki þyrfti að eyða tíma til þess verks, eftir að veiði byrjaði fyrir alvöru. Unnu þeir að þessu af kappi og gengu þreyttir í rekkjur á kvöldin. Um nokkur kvöld hafði Jón átt bágt með að

sofna; gat einhvernveginn ekki slitið hugann frá móður sinni og ættfólki sínu heima. Að kvöldi hins 15. sofnaði hann samt undir eins og hann lagðist út af.

Hann var kominn heim í Sæludalskot, en brá undarlega við, er hann sá Grundarkots-húsið komið í stað gömlu bæjar-húsanna. Í því kom móðir hans til hans og ávarpaði hann blíðlega, en alvara fylgdi, það sá hann á svip hennar: "Í þessu húsi er falinn dýrmætur gimsteinn og verður eign þess, er finnur. Margar leiðir eru framundan. Það er þitt að velja réttu brautina. Leitaðu uppi gimsteininn, Nonni minn, og veldu svo veginn." Hún hvarf og þá kallaði hann til hennar, svo hátt að hann vaknaði við. Honum varð litið á klukkuna og sá að hún var laust eftir tíu, og mintist þess þá, að þá væri nú komið að dögun á Íslandi. Réði hann því draum sinn svo, að móðir sín mundi að venju vera að fara á fætur og að hún hefði verið að hugsa til sín þegar hún vaknaði. Hallaði hann sér svo út af aftur, sofnaði strax og svaf draumlaust til morguns.

........ Febrúar var genginn í garð og voru þeir félagar nú að binda enda á vertíð sína. Innan hálfs mánaðar þurfti Jón að senda af stað peninga fyrir farbréf og ferðakostnað móður sinnar. Voru þeir nú ferðbúnir að mestu, en biðu eftir fiskiflutningsmönnum, er væntanlegir voru eftir tvo eða þrjá daga. Hálfpartinn bjóst Jón líka við að flutningsmenn færðu sér sendibréf, og reyndist það rétt. Á meðal bréfanna var eitt, sem hann fagnaði yfir að sjá; frá Dóru systur sinni. Lagði hann það til síðu, leit yfir hin, er flest lutu að fiskiverzlun, og fékk Páli þau svo til þess að lesa og geyma. Fanginn af von og gleði opnaði hann bréfið frá Dóru, en á svipstundu hrundu vonir hans allar til grunna og gleðin umhverfðist í nístandi harm. Í fyrstu línunum sagði Dóra honum lát móður þeirra, er að hefði borið að morgni hins 16. nóvember. Að vísu las hann bréfið til enda, en tilveran öll var nú alt í einu hulin svo þéttri þoku, að hann sá naumast handaskil, og svo var hann annarshugar, að hann vissi varla hvað hann las. Þó tók hann eftir því, að Dóra bjóst við að gifta sig í næstkomandi maí-mánuði. Ekki var hún þá væntanleg vestur. Það fór bezt á því. Hann var þá einn sinna í sjálf-kjörinni útlegð — á eyðihjarni. Jæja, hann skyldi samt senda Dóru þúsund krónur. Það gæti komið henni vel, og hún átti það skilið.

Hann rétti Páli bréfið, og gekk svo út, og aftur og fram um slóðir allar í grend við kofa þeirra. Hann langaði til að gráta, en gat það hvorki né vildi. Víst verðskuldaði önnur eins móðir og hans móðir var, nokkur saknaðartár barna sinna. En það var ekki karlmannlegt að tárast, eða láta sjá á sér þó eldur brynni í hjarta. Það var auðvitað ekki nýtt, að menn mistu föður og móður, —

það var náttúrulögmál, sem ekki varð umflúið. En ástæður eru mismunandi. Andvaralaus unglingur var hann heima á bæ foreldra sinna þegar faðir hans sökk í djúp hafsins. Og andvaralaus var hann nú í fjarlægu landi þegar móðir hans stríddi við dauðann. Það hefði þó verið nokkur hugnun að vera þar við og getað kvatt hana í síðasta sinn. Sú litla svölun var honum bönnuð.

Í fjögur ár, eða því sem næst, hafði hann ekki hugsað um og ekki séð nema eitt einasta markmið framundan,—að eignast varanlegt heimili og koma móður sinni þangað, til þess að njóta þess með sér. Öllum sínum kröfum, andlegum og líkamlegum, hafði hann beitt til að ná því takmarki, og hann hafði sigrað. En mitt í sigurhrósinu kom þá dauðinn og varpaði honum í afgrunn örvæntinganna. Og hún svo ung, ekki sextug þegar kallið kom. Hvað hafði hann tilunnið, að þessu óbærilega oki skyldi varpað á herðar honum?

Hann fann að einhver breyting var nauðsynleg til þess að slíta hann frá eigin hugsunum og hugsýki. En í svipinn var hann of lamaður, of dofinn, til þess að hugsa samstætt. Heim gat hann farið, í gömlu sveitina. En myndi ekki alt, sem þar bæri fyrir augu, minna hann á missi sinn, og ýfa ógróin sár? Spursmálslaust. Nei, ekki heim. Líklega væri heppilegast að taka eitthvað það fyrir sem svo væri gagn ólíkt því, sem hann hefði áður reynt, að mesti sviðinn og sársaukinn gleymdist í daglegri baráttu við nýstárlegar gátur og þrautir.

...... Jón kom ekki í Grundarkot fyrr en gerðir höfðu verið upp allir fiskireikningar og peningum skift milli þeirra félaga. Seinustu skil voru gerð í Selkirk og þaðan fór Páll heim, en Jón brá sér til Winnipeg og tafði þar nokkra daga.

Það var farið að skyggja þegar Jón kom fyrir skógar-jaðarinn suðaustur frá Grundarkotshúsinu, er þá blasti við auga norðan megin brautarinnar á víðáttumiklum, sléttum velli, og tvö hundruð föðmum vestur þaðan sá hann þá líka hálf-smíðaða húsið sitt. Yfir því grúfði þögn og dimma, en líf og ljós glóði á hverjum glugga í hinu. Samtímis fann hann sárt til þess, að erfitt yrði að kveðja Rúnu. Hann hafði gert ítrekaðar og alvarlegar tilraunir að útrýma mynd hennar úr hjarta sínu, en það kom fyrir ekki. Myndin kom jafnharðan aftur. Það var hepni að hann kom ekki þangað á suðurleiðinni, með Páli. Hann hefði þá víst mist vald yfir tungu sinni og sagt meira við hana, en hann átti með að segja undir kringumstæðunum. Hann gat þá ekki ásakað sjálfan sig fyrir að hafa fært henni harmabrauð. Það var þakka vert.

Hann gekk heim að húsinu, barði að dyrum, og gekk svo inn, eins og venja hans var. Á næsta augnabliki var hann kominn inn í

skjaldborg af broshýrum vinum, sem báðu hann velkominn og fullvissuðu hann um innilega hluttekningu í sorg hans og þrengingum. Viðtökurnar gátu ekki verið betri þó í foreldrahúsum hefði verið, og þakkaði hann þeim fyrir þær og vinarorðin, sem þeim fylgdu.

"En hvað er nú bezt í fréttum úr borginni?" spurði Björn. "Og hvað segja síðustu fréttir frá vígvöllunum í Belgíu?"

"Ja, eg er nú ekki fréttafróður," svaraði Jón. "Eg heimsótti fáa Íslendinga og veit því lítið um hvað gerist á þeirra sérstaka starfssviði. En deyfð og drungi hvílir yfir borginni. Stríðið virðist hafa dregið allan kraft úr köglum borgarbúa. Alt situr fast. Hergagnasmíðar eru að aukast, en þær geta ekki nægt vinnuþörf fjöldans. Eg er hræddur um að borgin verði ekki eins og áður var, fyrri en eftir að stríðið er afstaðið."

"En álíta menn nú ekki að stríðið endi á hverri stund, sem maður segir? spurði Sigurbjörg húsfreyja.

"O-jú, margir hafa nú það álit," svaraði Jón, "en fleiri eru þeir nú, held eg, sem líta öðruvísi á það. Og víst brýnir hermálastjórnin ósleitilega fyrir mönnum þörfina á liðveizlu og framboði til herþjónustu."

"Skyldu margir bjóða sig fram?" spurði Páll.

"Það held eg," svaraði Jón. "Einhversstaðar sá eg það virkilega, að frá þrjátíu til fjörutíu menn byðust í Winnipeg-borg einni, á hverjum degi, en ekki veit eg hvort nokkuð er hæft í því."

"Skárri er það nú fjöldinn," sagði Sigurbjörg. "Skyldu margir Íslendingar hafa gefið sig fram?"

"Hvað margir veit eg ekki," svaraði Jón. "Eg veit ekki með vissu um nema einn, sem bauð sig fram í gær.

"Þekkir þú hann? Þekkjum við til hans? spurði Björn. "Jú, þið kannist við hann," sagði Jón og brosti. "Það var eg."

"Þú! Genginn í herinn!" sögðu allir í senn, "ekki formlega, sagði hann, "en það er fast-ákveðið. Eg samdi svo um í gær. Eg álít að mér sé ekkert hentara en herþjónusta til þess að hrista af mér rykið og drungann. Af öllu má eitthvað læra. Að minsta kosti ber þar svo margt nýstárlegt fyrir augu, að maður hlýtur að gleyma sjálfum sér. Og það er mér þarflegt."

Þessi óvænta frétt setti alla hljóða. Björn tók fyrstur til máls og svo hver af öðrum, nema Rúna. Hún sat náföl og hlustaði á masið um stund, en gekk svo inn í herbergi sitt án þess að mæla orð frá munni. Hjónin álitu varhugavert að vinda svo bráðan bug að þessu. Jón sagði sæmra að fara frjáls og ótilkvaddur en bíða eftir að herskyldu-bönd yrðu lögð á höndur og fætur, en til þess yrði gripið þegar tæki fyrir frjáls framboð. Sigurbjörg sagði ó-

skaplegt að stofna lífinu í háska að óþörfu. Jón sagði lífsháska vera allstaðar. Það væri hreinasti lífsháski stundum, að ganga yfir stræti í Winnipeg, lífsháski að fara hérna út á vatnið í litlum bát, eða ganga með hlaðna byssu til veiða. Björn sagði Jón vera útlending á meðan hann hefði ekki tekið út borgarabréf. Jón sagði að borgarabréf sitt yrði gefið út innan fárra daga. En svo gerði það engan mun. Það væri grúi af mönnum í hernum, sem ekki væru borgarar.

Páll dreifði umræðunum með því að láta í ljósi löngun til að fara líka, og sjá ögn af Norðurálfu.

"Nei, vinur, láttu þér ekki koma það í hug, fyrr eða síðar," sagði Jón og varð alvarlegur. "Hér er ekki um skemtiferð að ræða. Ástæður okkar eru gagn-ólíkar. Eg er einn míns liðs, svo engan mun gerir hvar eg skrölti. En þú ert fyrirvinna aldraðra foreldra. Þau dýrmætu skyldubönd má enginn rjúfa, og það gleður mig að vita að það gerir þú aldrei."

Daginn eftir bjóst Jón til farar og læsti niður í kistu sína bækur sínar, bréf og skjöl. Gamla og lamaða tösku tók hann og tróð í hana nærfatnaði og plöggum ýmsum, því annað ætlaði hann ekki að taka með sér.

Að miðdagsverði loknum tók Jón Björn tali. Sagðist hafa hugsað sér að fela honum umsjón á landeign sinni á meðan hann væri burtu. Sjálfsagt væri að fullgera húsið. Land sitt skyldu þeir feðgar nota að þörf og vild. Ennþá yrði hann að biðja þau hjón að geyma kistu sína og dót. Hann hefði í hyggju að leggja til síðu þrjátíu dollara á mánuði, af kaupi sínu og faldi hann Birni að leggja þá peninga í banka-reikning sinn. Rétti hann honum svo banka-bókina, og löglegt umboð til þess að draga út peninga, sem þyrfti, og bætti svo við, að þá væri nú erindi sínu lokið í þetta sinn. "En vænt þætti mér að mega koma hingað og heilsa ykkur öllum, heilum og hressum, þegar þjónustutíminn er úti."

Þeir feðgar vildu setja hesta fyrir sleða og flytja hann á vagnstöðina, en hann afþakkaði það, vildi heldur ganga í hægðum sínum niður að Gimli.

Þegar hann kvaddi hana, gat Sigurbjörg ekki bundist tára. Rúna hafði staðið afsíðis nálægt dyrum og hana kvaddi hann síðast. Hún sagði fátt, en bæði skildu ósköp vel, að þögn er stundum hljómmeiri en nokkur orð. Blíðu-bros lék um varir hennar, en tár stóðu í augunum, hversu fast sem hún togaðist á við þau.

## II.

Það var komið nær marz-mánaðarlokum og Jón búinn að vera meir en mánuð á skóla sínum. Hann var búinn að læra öll frumatriðin, að standa, ganga, bera byssuna og handleika hana samkvæmt "kúnstarinar reglum" og var fimur orðinn við að beita byssusting.

Já, hann hafði lært margt, og yfirleitt var það alt gagnlegt, ekki aðeins með tilliti til hernaðar, heldur engu síður með tilliti til hversdagsstarfa í hvaða stöðu sem væri. Líkamsæfingarnar voru óðum að gera hann að nýjum manni. Vöðvar og taugar voru að verða sterkari og stiltari en áður. Hann var orðinn snar og fljótur í öllum hreyfingum og gekk nú teinréttur, þar sem honum áður hætti til að ganga lotinn. Hægt og hægt en jafnt og stöðugt var hann að ummyndast í auðsveipa og óþreytandi vinnuvél og til þess var líka ætlast. "Þegar á hólminn er komið," lærist mönnum fljótt að sjá og skilja, að fjöldinn á fjör sitt að launa einmitt þessum hvimleiða heraga og endalausu æfingum, sem ekki er linað á fyrr en þúsund menn í fylkingu eru svo samtaka orðnir og fljótir að hlýða skipun foringjanna, að allir bregða við í sömu svipan eins og einn maður væri, og það svo fljótt að vart festi auga á hreyfingunum.

En Jón lærði nú fleira en líkamsæfingar og vopnaburð, lærði fleira en flestir "sambekkingar" hans á "skólanum." Í stað þess að fylla hópinn með flokksbræðrum sínum á "vísitazíu' ferðum þeirra "niður í bæ," varði hann frístundum sínum til þess að æfa sig í lestri og skrift, á ensku tungu. Hann var máske eini liðsmaðurinn í flokknum, sem aldrei hafði beðið um "fjarveru-leyfi." Undirforinginn, sem heræfingum stýrði í liðsflokki Jóns, tók snemma eftir því hvað ástundunarsamur hann var og útsláttarlaus, og tók hann tali við tækifæri og urðu þeir brátt góðir kunningjar. Liðsforingi þessi var roskinn orðinn, enda ekki ætlað annað verk en að kenna "nýsveinum." Svakalegur var hann stundum og gjarnt að hreyta stóryrðum, en góður karl, eftirlitssamur, gætinn og fróður var "halti Kobbi," eins og liðsmenn kölluðu hann í sinn hóp.

Kvöld eitt, er "Kobbi" var að fræða Jón um Suður-Afríku lönd, því hann hafði verið í Búa-stríðinu og bar síðan bæklaðan fót, gekk ungur maður til þeirra og bað liðsforingjann um fjarveruleyfi til mánudagsmorguns.

"Og hvern andsk . . . . ætlarðu að gera með allan þann tíma, stífmælda tvo daga?"

"Er nauðsynlegt að segja það?" spurði maðurinn.

"Eg skyldi nú halda það,—að eg þurfi að sýna ástæður fyrir svo langri burtveru."

"Jæja, mér er nú reyndar engin launung á því," sagði maðurinn. "Eg ætla að gifta mig á morgun."

"Á, er það svona. Hefirðu leyfisbréf?"

Maðurinn kvað svo vera.

"Láttu sig sjá!" og karl tók giftingarleyfið, las það og hélt áfram: "Rétt hjá þér, Bill! Og hérna er "krumlan" og beztu lukkuóskir. Fjarveruleyfið er sjálfsagt, og til þriðjudagsmorg-

uns, ef þú vilt,—á venjulegum æfingatíma."

Aukadagurinn var sönn fagnaðar-gjöf og gekk "Bill" leiðar sinnar meir en ánægður.

"Er ekki sjaldgæft að menn kvongist eftir að þeir eru gengnir í herinn?" spurði Jón.

"Nei, það er nú síður en svo," svaraði "Kobbi." "Látum nú sjá," og hann taldi á fingrum sér. "Þeir eru orðnir um tuttugu, úr þessum búðum, sem hafa gift sig síðan á nýári."

"Er það rétt, er það sanngjarnt," spurði Jón, "að leiða stúlku til að giftast sér, einmitt þegar maður er að leggja út í stríð og kemur máske aldrei aftur?"

"Það eru nú deildar skoðanir á því máli," svaraði "Kobbi," en mín skoðun er að það sé rétt og sanngjarnt gagnvart báðum. Sè maðurinn maður, þá sýnir hann það og verður betri og meiri maður ef hann skilur konu eftir heima. Hann hefir með konunni fengið hugljúfa ábyrgð og það festir hann í rásinni. Eg gæti bent á mörg dæmi þessu til sönnunar, en vitna bara til mín sjálfs. Rebekka mín giftist mér tveimur dögum áður en eg lagði af stað í Búa-stríðið og eg veit ekki betur en bæði séu ánægð með sitt hlutskifti. Eg álít ranglátt að skilja unnustuna eftir einmana, lausa, að vísu, að nafni til, en virkilega bundna. En þó finst mér ósanngirnin hróplegust þegar maður unnir stúlku, hefir hugmynd um að hún unni sér, en leggur út í stríð og styrjöld án þess að hafa minst á einkamál við hana með einu orði. Eg man þrjár eða fleiri harmasögur frá Englandi, sem áttu rætur sínar í þesskyns þögn."

Hér var höggið nokkuð nærri Jóni, en það vissi "halti Kobbi" auðvitað ekki. Víst hafði hann hér fengið alvarlegt umhugsunarefni. Hafði hann máske með þögninni kollvarpað sínum helgustu vonum? Ekki ósennilegt, að minsta kosti ekki ómögulegt, ef nokkuð mætti byggja á sögum "Kobba" og hann hafði aldrei reynt gamla manninn að ósannsögli eða öfgum, og margan nytsaman fróðleik hafði hann numið af honum. Seinast í kvöld hafði "Kobbi" frætt hann um hve nauðsynlegt væri fyrir liðsmenn alla að fá löglega gerða erfðaskrá, og einsetti hann sér að vanrækja það verk ekki degi lengur.

Þess meir, sem hann hugsaði um einkamál sitt, þess nauðsynlegra virtist honum nú, að Rúnu væri kunnugt um ástina, sem hann bar í brjósti. En hvernig gat hann komið því í kring? Það var allsendis óhugsandi að gera sér erindi norður að Grundarkoti bara til þess, eftir að hafa gengið þaðan þegjandi. Nei, eini hugsanlegi vegurinn var sá, að skrifa henni um allar sínar tilfinningar og vonir.

Í þessu vildi nú svo heppilega til, að honum barst bréf frá Birni í Grundarkoti og fylgdi böggull, með sokkum og vetlingum í, sem hermenn eiga aldrei of mikið af, og

innan í bögglinum var pappakassi með sæta-brauði í. Ofan á í kassanum var mjó pappírsræma og á hana ritað með hendi Rúnu:

"Mamma biður þig að fyrirgefa að hún fer með þig eins og barn. Plöggin eru gagnleg, kökurnar ekki betri en búða-kökur, en þær eru—að heiman."

Hér var þá gefin gild og góð ástæða til að skrifa heim og það gerði hann tafarlaust. Tjáði hann henni ástasögu sína frá upphafi, frá gagnslausum tilraunum sínum að útrýma þeim tilfinningum, og hvernig mynd hennar hefði óbeðin, tekið sér bústað í hjarta sínu og sæti þar enn í leyfisleysi. Eftir alvarlega íhugun hefði hann afráðið að fara til Norðurálfu án þess að auka henni áhyggju með þessum einkamálum, en að tilfinningar sínar hefðu að lyktum knúð sig til að rjúfa þögnina. Bréfið endaði hann á þessa leið:

"Sé eg nú svo óhamingjusamur að þú sért mér allskostar fráhverf eða öðrum háð, má eg þá biðja þig að segja mér það hispurslaust, og binda þannig enda á barnalegar vonir og drauma?"

"Aftur á móti sért þú engum háð og hefir ekki neina sérstaka óbeit á mér, má eg þá biðja þig um lítinn neista af von? Má eg halda áfram að bera mynd þína í hjarta mínu, mér til hugarléttis í einveru og þrautum?"

Samtímis skrifaði hann Birni og bað hann, meðal annars, að geyma vandlega innlagða erfðaskrá sína, "þangað til," skrifaði hann, "eg annað tveggja er fallinn frá, eða kominn heim aftur." Auðvitað arfleiddi hann Rúnu að öllu sem hann átti, föstu og lausu, en það vissi Jón einn.

Litlu síðar dreymdi Jón móður sína í annað sinn. "Þú fórst ekki að ráðum mínum seinast, Nonni minn," þótti honum hún segja og hvesti á hann .augun." "Nú veiztu samt hvar gimsteinninn er hulinn. Hann er þín eign. Taktu hann þá og taktu hann strax."

Morguninn eftir, rétt áður en gengið væri til æfinga, bárust honum tvö bréf frá Grundarkoti. Annað var frá Rúnu og stakk hann því í brjóstvasa sinn, en hitt var frá Birni og það opnaði hann og las.

Það var ekki laust við að hann væri skjálfhentur þegar hann um kvöldið opnaði bréfið frá Rúnu, en ekki hafði hann lengi lesið þegar rofa tók fyrir sól, gegnum kvíðakólguna, sem allan daginn hafði grúft yfir huga hans. Bréfið var stutt en efnisríkt og alúðlegra en hann hafði framast vogað sér að vona.

"Vinur minn":

"Eg þakka þér bréf þitt, því fremur sem við vorum farin að óttast að þú værir búinn að gleyma okkur hér í skóginum. Þú biður um afsökun fyrir bæði efni þess og orðalenging. En það var óþarft. Mér þótti það ekki of langt, og hvað efnið snertir þá er það nú sannast, að eg sé ekki hvað þar er að afsaka. En efnið

er alvarlegt og útheimtir alvarlega umhugsun.''

''Fyrirgefðu mér þá, vinur minn, að eg get ekki svarað spurningum þínum í þetta sinn. Þú verður að bíða ögn lengur.''

''Anna móðursystir mín er nýflutt til borgarinnar og býr nú að Victor stræti. Þar sem þau Gunnar og frænka eru nú svo nærri geri eg ráð fyrir að framvegis verði leiðin milli Gundarkots og þeirra heimilis fjölfarnari en áður var. Eg býst við að bregða mér upp eftir á laugardaginn kemur. Máske við sjáumst þar um helgina.''

'Þín einlæg vinkona meðan heitir'

''Rúna.''

Á laugardagskvöldið gat hann máske fengið að sjá hana, og tala við hana! Og nú var miðvikudagskvöld. Bara tveir dagar til laugardagsins!

Þó ekki hefði hann fengið svar upp á spurningar sínar, gekk hann nú til svefns glaðværri og rólegri, en nokkru sinni síðan hann kom í herbúðirnar.

— — Kukkan var á slaginu sjö á laugardagskvöldið þegar Jón gekk heim að — Victor stræti og hringdi dyrabjöllunni. Roskin kona kom til dyra og svo lík Sigurbjörgu í Grundarkoti, en eldri nokkru og hæruskotnari, að ekki leyndi sér að þar var Anna húsfreyja. Jón spurði eftir Rúnu og frétti að hún var þar. Sagði hann þá hver hann var og æskti eftir leyfi til að tala við hana fáein orð. Anna sagði það sjálfsagt og vísaði honum til stofu, en gekk sjálf lengra inn eftir húsinu.

Rúna sat í stofunni og var að tala við aldraðan mann og nær hvítan fyrir hærum og stóðu bæði upp jafn snemma til að heilsa gestinum, en í þeirri svipan kallaði Anna og bað Gunnar sinn að bregða sér í flýti í búð niður á Sargent, og gekk hann út undir eins þegar hann hafði heilsað komumanni.

Jón og Rúna stóðu í sömu sporum og héldust í hendur, eða réttara sagt, hann hafði ekki látið lausa hönd hennar eins fljótt og venjulegt er. En hvorugt þeirra kom upp orði fyrr en Jón slepti hendi hennar og sagði hlæjandi, að þeim gengi máské betur að segja eitthvað ef þau settust niður, og það reyndist rétt.

Í augum Jóns hafði Rúna aldrei verið jafn aðdáanlega fögur eins og hún var nú. Þegar hann hafði séð hana seinast var hún náföl og niðurdregin. Nú voru vangar hennar rjóðari en hann mintist að hafa séð þá áður. Töfrandi bros lék nú um varirnar og í stillilegu, bláu augunum hennar glóði nú æskufjör og gleði. Svipur þeirra sýndi að bæði fögnuðu yfir því, að fundum þeirra hafði borið saman. Ef þau höfðu ekki skilið það áðurskildist þeim það nú til fulls, hvað gott þeim var að vera saman.

Kvöldið leið fljótt, miklu fljótar en Jón hefði viljað. Ljós voru slokkin í herbúðunum klukkan tíu og þangað þurfti hann að vera kominn áður en lúðurinn gall.

Með tilhjálp Gunnars, sem flutti hann „heim" á mótorvagni sínum, tókst það líka vel.

Jafn dýrðlega kvöldstund hafði Jón aldrei lifað. Fyrsti koss unnustunnar var heitur á vörum hans, og heitur skyldi hann geymast til daganna enda.

Næstu vikurnar færðu honum fullan mæli af gleði og ánægju. Í huga hans var nú hver dagurinn öðrum bjartari og sólríkari. Hann fann ekki lengur til sorgar út af missi móður sinnar. Að vísu saknaði hann hennar úr hópnum, en sársaukinn mesti var horfinn. Í stað móðurinnar var hann nú búinn að eignast hugljúfa og elskuverða heitmey, sem fús var til að líða súrt og sætt með honum. Enginn laugardagur leið nú svo, að ekki kæmi eitthvað af Grundarkots fólkinu til borgarinnar, og var Rúna æfinlega í förinni. Hann var nú ekki lengur einmana. Hún var með honum um hverja helgi. Smámsaman komst hann að því, að henni hefði litist vel á sig frá fyrstu, og henti hún gaman að honum fyrir sjóndepruna, að sjá það ekki, því langt væri síðan að bæði móðir hennar, og hún sjálf, hefðu lesið hugsanir hans ofan í kjöl.

Í byrjun maí-mánaðar fræddi „halti Kobbi" Jón um það, að nálægt júní-lokum mundi liðsflokkurinn, sem Jón tilheyrði, verða sendur austur til Ontario, og nema þar staðar sem svaraði mánuði, áður en siglt yrði til Englands. Gleðskapar-mærðin í stofunni að Victor stræti féll fljótlega niður þegar Jón sagði frá þessum fyrirætlunum. Rúna brá lit, en sagði svo að þetta hefði verið fyrirsjáanlegt frá upphafi og væri hér yfir engu að kvarta. Á meðan konurnar voru í kaupskaparerindum, vék Björn máli sínu til Jóns og fór að grenslast eftir hvað hann hefði hugsað sér að því er snerti ráðahag þeirra Rúnu. Jú, Jón hafði nú hugsað margt um það, en hikað við að taka nokkra ákveðna stefnu. Björn spurði hvort hann hefði aldrei leitað eftir áliti Rúnu á því, að þau giftu sig áður en hann færi yfir hafið? Nei, hann hafði veigrað sér við að virðast of heimtufrekur. Margir álitu það réttara, en líklega væru þeir miklu fleiri, sem hefðu gagnstæða skoðun. Hvort hann færi kvongaður eða ekki væri algerlega komið undir áliti Rúnu og foreldra hennar. Björn sagði þá að bæði hann sjálfur og Sigurbjörg sín væru eindregið með því, að þau giftu sig strax, og bætti þessu við: „Í þínum sporum hefði eg gert það, alveg sjálfsagt, og eg skil varla í að alvörugefin stúlka kysi annan kost fremur."

Jón færði þetta í tal við Rúnu og gladdist mjög af að heyra álit hennar, sem var í fullu samræmi við álit foreldra hennar, og hans sjálfs innilegustu óskir. „Ætti eg um tvo kosti að velja," sagði hún, „kysi eg spursmálslaust að giftast unnusta mínum, áður en hann legði af stað. Hættan er jöfn og

hugarstríðið það sama. En það er eins og mér finnist að eitthvað í líkingu við hugnun sé fólgið í því að vita sig hafa lagt eins mikið í sölurnar eins og nokkur kona eða móðir í landinu. Eg geng ekki að því gruflandi, að það verður erfitt að þreyja og þola. En mér finst eins víst að þú komir aftur úr stríðinu, eins og það er víst, að við göngum hér saman á götunni. Við þá von og trú hugga eg mig þegar dagar eru dimmir."

Umræðum allra hlutaðeigenda um þetta mál lauk með þeim ákvæðum, að 21. maí skyldu þau Jón og Rúna halda brúðkaup sitt.

"Halti Kobbi" fagnaði þessari frétt. "Þar fetar þú í mín fótspor," sagði hann, og mun vel gefast. Tuttugu dollara aukaþóknunin á mánuði til giftra manna er líka takandi til greina, en lítið vegur hún þó á móti þeirri meðvitund, þegar í raunir rekur og útkoma er tvísýn, að eiginkona manns bíður heima og biður Guð um hjálp og vernd. Það er nautn, sem þeir einir skilja, er á vígvöll hafa komið. En hvern skollann er eg nú að rugla. Nú skal eg óbeðinn útvega þér fjarveruleyfi frá 20. maí til hádegis 28. júní. Nei, nei, ekki eitt orð, Jón! Burt með þig og í bælið!"

III.

Það var skúra-veður, en heitt, þegar Jón gekk af skipi í Liverpool og inn í járnbrautarlest, sem þeytti honum og liðsbræðrum hans með flugaferð suðaustur um England, alt austur á sendna hálendið vestan megin Ermarsunds. Þaðan var ekki lengra en svo til Frakklands, að strönd þess var nær æfinlega sýnileg frá hæðunum upp frá sjónum, og í hagstæðum vindblæ mátti heyra fallbyssuhvellina, líkasta fjarlægum þrumubrestum, frá vígsvæðunum, sem næst voru sjó.

Hér voru aðalstöðvar Canadaherliðsins og gaf nú að líta röst á röst ofan af búðahreysum þeirra og tjöldum liðsmanna. Hvar sem til var litið úði og grúði af mönnum og allskyns hernaðartólum og brautir allar þaktar mótorvögnum, en yfir höfði var sem kvæði við í loftinu af drunum og þyt flugvélanna, er sumar voru niður við jörð, en sumar svo hátt uppi að þær hurfu með köflum inn á milli ský-bólstranna. Alt var á fleygiferð, og heræfinga-óp og köll glumdu við í öllum áttum.

Hér var líf og fjör virkilega á háu stigi. Vaskleikamenn og vænlegir, í þúsund-tugatali, fullir kapps og metnaðar, lögðu fram alla sína krafta og alt sitt vit til þess að herða og stæla taugar sínar og vöðva, til þess að gera líkaman hraustan, harðan og þolinn eins og framast mátti, og alt í þeim tilgangi, að eyðileggja líf og fjör á öðrum stöðum. Lengra eru mentaþjóðirnar ennþá ekki komnar með réttarfars hugmyndir sínar, eftir mörg þúsund ára lífsreynslu og lærdóm.

Þetta var nýr heimur og undraverður fyrir Jón og hafði verið

frá því hann kom út fyrir Liverpool. Honum hafði oft fundist til um hermanna vaðalinn í Winnipeg, en hvað var sá fjöldi í samanburði við þessi ósköp? Það var eins og að jafna saman reykjareimi upp af litlum arineldi og stórhýsisbrennu.

Fullnaðaræfingar Jóns og liðsbræðra hans tóku nú við. Í aðalatriðunum voru þær áþekkar þeim, er hann hafði áður vanist, en ólíkar þó á ýmsan hátt, einkum máske að því er snerti vopnaburð. Og svo kappsamlega var unnið, að oft stóðu byssu-skota æfingar yfir myrkranna á milli, eða því sem næst. Hér fékk hann fyrst gagnlega tilsögn í víg-grafa-gerð og jarðhússbyrgjanna út af þeim, en án þess lærdóms er enginn liðsmaður fullveðja á vígvelli.

Það var ekki fyr en um októberlok að liðsflokkur Jóns var metinn fullveðja til framgöngu, og var förinni þá heitið norður í Ýpur-grendinni. Haustrigningarnar voru þá að byrja, en þær eru venjulega úthaldsgóðar í Belgíu, og í þetta sinn reyndust þær mun svæsnari en venja var til. Eftir stórfeldar regnhrynum var sumstaðar í víggröfunum svo djúpt vatn, að tók meðalmanni í mitti.

Það er vonlegt að Jóni hafi brugðið í brún, er hann leit yfir vígvöllinn, og til sömu vonbrigða munu flestir hafa fundið, er þeir litu etta svæði í fyrsta sinn. Skáld og listamenn allra þjóða hafa frá öndverðu svo snildarlega sungið og málað hetjufrægðina og sigurdýrðina inn í hugskot fólksins, að hernaðarandinn er fyrir löngu rótfestur í eðli mannsins. Enda sagnaritarnir höfðu varpað svo litmiklum töfraljóma yfir hetjur og herfylkingasöfn, að virkileikinn, sem hér blasti við auga, hlaut að kveikja nýjar hugsanir. Herfrægðardraumarnir sýndu skrautbúnar fylkingar með veifandi gunnfána fara um grænar grundir til móts við fjandmennina, og í broddi fylkingar voru foringjar og frægar hetjur með gylta hjálma á höfði, og í glitrandi brynjum, með gullrekna skildi og spjót í höndum, en hárbeitt sverð við síðu.

Virkileikinn sýndi mishæðalitla mýrlendisflesju með þrefaldri vígskurðaröð með fárra faðma milibili og þverskurðum mörgum á milli. Og alt þetta grafningakerfi var einn vatns og aurleðju-elgur hvar sem stigið var. En ofan í þessar óþverra vilpur voru liðsmennirnir sendir undir eins og þeir komu, því á þessum vígvöllum mátti hvergi sjá mann ofanjarðar. "Víst er helvíti illur bústaður ef hann er verri en þessi!" varð "langa Dick" að orði, er hann staðnæmdist á básnum, sem honum og Jóni var ætlaður. "Eða hvað finst þér Jón?"

"Eg held það sé nú nokkuð rétt álit," svaraði Jón, "en svo venjumst við vosbúðinni ef ekki bilar þrek og þolinmæði. En hvað hugsarðu Dick? Þú veizt að

harðbannað er að gægjast yfir brjóstvirkin.''

''Já,'' sagði Dick, ''en eg má til með að reyna hvað trúa þjóna höfuðpaurinn úr Potsdam hefir hér á móts við okkur.'' Hann gægðist með varúð fram á milli efstu moldarpokanna og reið þegar af skot, en sakaði ekki, þó tæplega skakkaði þverhandar breidd. ''Bölvaður dóninn,'' hélt Dick áfram, ''að heilsa þannig nýjum gesti, hvítum manni og kristnum í betra lagi. En því lofa eg honum, fyrir bragðið, að bráðlega reynist eg honum hæfnari en hann reyndist mér!''

— — Í einni stórskotahríðinni hafði stórt tré fallið yfir þveran þjóðveg örstuttan spöl frá fremstu víg-gryfjum Bandamanna. Um þetta tré höfðu Þjóðverjar gert ramgert vígi og frá því önnur, beggja megin brautar, niður í víggrafir sínar, og reyndist það bráðlega svo hvimleiður broddur, að annaðtveggju hutu Bandamenn að hopa með víg-grafir sínar, eða eyðileggja brautarvirkið. Tvær tilraunir voru gerðar, en árangurslaust, og sýndu þær að á virkið þurfti að beita sameinuðu afli stórskotaliðsins á þeim reit.

Um miðjan desember var sú sókn hafin í dögun að morgni, eftir meir en sólarhrings stórskotasókn til undirbúnings fyrir áhlaup fótgönguliðsins. Þegar lýsa tók af degi var áhlaupinu lokið og sigur fenginn. En áfram hélt stórskotaliðið að ausa eldi og kúlum á víg-grafir Þjóðverja á meðan björgunarmenn leituðu uppi og báru burt á sjúkrabörunum alla, vini og óvini jöfnum höndum, sem lifandi voru en ósjálfbjarga af sárum. Meðal þeirra var Jón, með mörgum sárum máttfarinn orðinn af blóðrás, er hann fanst. Skaðlegasta sár sitt beið hann af byssusting, er gengið hafði gegnum læri hans nálægt mjaðmarbeini, en ''stingurinn'' var einn hinna hræðilegu sagtentu byssustingja Þjóðverja, sem ekki skera en saga og tæta sundur hold og taugar.

Ekki voru sár Jóns gróin og hann metinn vígfær fyr en marzmánuður var kominn. Síðan um jól hafði hann verið á Englandi, og þangað fékk hann þrjú eða fjögur bréf frá Rúnu, er hrestu hug hans og glöddu, af því hún var svo örugg og vonglöð. Í öllum bréfum sínum lét hún þess getið, að kona birtist sér oft í draumi, einkum þegar einhver skuggi legðist á hugann, er hlyti að vera móðir hans, því hún kallaði hann Nonna sinn. Einn þennan draum sagði hún á þessa leið:

''Það var 14. desember. Það man eg af því, að eg geymi enn afrit af pöntun, sem eg sendi Eaton-félaginu um daginn. Mér leið einhvernveginn ekki vel, var eins og ''úti á þekju'' og hafði snert af höfuðverk.. Eg gekk því snemma til rekkju og sofnaði strax. Alt í einu heyrði eg þig hrópa: ''Rúna mín elskuleg!'' Eg reyndi þá að kalla til þín en kom engu orði upp, og í þeirri svipan

var móðir þín þar komin. Hún lagði hönd sína á höfuð mitt og strauk henni um ennið, horfði í augu mér og sagði í blíðum róm: "Vertu hughraust, Rúna mín, Nonni okkar kemur aftur! Óttast ekki!" Hún hvarf, en eg vaknaði og sá að þá var klukkan rúmlega ellefu. Höfuðverkur minn var þá horfinn og drunginn, sem yfir mér hafði hvílt. Mér leið vel."

Jón hugsaði margt um þessa drauma og var hissa að móðir sín kom svo oft til Rúnu, en svo sjaldan til sín. Hann mundi ekki eftir að sig hefði dreymt hana nema tvisvar, en svo svaf hann nú oftast draumlaust, að minsta kosti mundi hann sjaldan draum. En svo var nú gott að hana dreymdi svo vel. Það færði henni nýjan þrótt og endurnýjaði vonir hennar. Þökk sé þeim, sem svalar þyrstri s á l m e ð hugþekkum draumum.

"En skrítið er það," hagðsaði Jón, "að í sama draumnum heyrði hún mig kalla til sín og það einmitt kvöldið áður en við tókum brautarvirkið. Jú, eg man nú að hugur minn hvarflaði til hennar þegar sagar-sveðjan var að rífa hold frá beini og sársaukinn svo mikill, að eg féll í hálfgert ómegin. En þetta gerðist að morgni þess 15. Hvernig kemur það heim og saman? ........ Jú, eg held sú gáta sé leyst. Þegar klukkan er ellefu að kvöldi, í Manitoba, þá er hún sjö morguninn eftir, í Belgíu. En hvernig gat hún heyrt hugsanir mínar í sömu andránni og þær brutust fram? Þá gátu kann eg ekki að leysa." —

Lengri dagar og bjartari gerðu æfina í víg-gröfunum bærilegri, enda þörf, því svo er vetrarvistin þar daufleg, að óánægja og enda óbeit á fyrirsettu verki, kviknar ósjálfrátt í brjósti liðsmanna, sem dag og nótt, í dynjandi regni, í sorta-hríð, í hörku-frosti, standa á verði í þessum óþrifa vilpum og bíða eftir kúlunni, sem annaðtveggja skapar þeim aldur, eða særir þá svo, að stundarlausn fæst og tækifæri til að heimsækja gamla og góða England og njóta þar friðar og fagnaðar.

Þó ill væri færðin á milli höfuðherstöðva og víggrafanna, óx umferðin dag frá degi og samtímis fóru þá liðsmenn að gleyma vetrarþrautunum, því nú var altaf eitthvað nýtt að sjá, er upp kom úr gryfjunum. Undirbúningur til stórræða var hvervetna sýnilegur, og áhlaupum og orustum fjölgaði með degi hverjum og víg-grafa árásir urðu tíðari og stærri. Í þær svaðilfarir í svarta myrkri voru valdir hraustir menn, harðfengir og fimir, er sérstaka æfingu höfðu fengið við að beita högg- og lagvopnum og sem lægnir voru á að kasta sprengihylkjum þangað, sem mest yrði gagn að.

Nálægt apríl-lokum var Jón kvaddur til þessara erinda með rúmlega þrjátíu öðrum. Stundvíst klukkan tvö um nóttina skyldu þeir, sem það var ætlað, niður stíga í býli óvinanna, en ekki tefja þar meir en fjórðung stundar.

Gerðist það þá jafnsnemma, að Jón og félagar hlupu yfir brjóstvirkin og niður í gryfjuna, og að fallbyssur og hríðskotar afkróuðu starfsviðið með svo þéttri og svo látlausri elds og kúlnahríð, að vonlaust var að nokkurt hjálparlið kæmist gegnum þá eld-girðingu. Þeir, sem þar voru fyrir, höfðu því bara um tvo kosti að velja: að berjast og stráfalla, eða leggja niður vopn sín og biðja um grið. Og þann kostinn kusu flestir.

Ekki gekk Jón óskaddur af þessum fundi en hjálparlaust að mestu komst hann til læknabúðanna. Hann hafði fengið marga smá áverka og tvö stór sár, en þó ekki svo skaðleg, að honum væri hætta búin. — —

Eftir að sár Jóns voru svo gróin að hann gat verið á ferli, þó ekki væri hann vígfær, var honum veitt viku frí á Englandi. Vildi þá svo vel til, að vestan-póstur kom til Shorncliffe næsta dag og færði Jóni tvö bréf að heiman, er gott eitt höfðu að segja úr sveitinni. En lesa mátti það á milli lína að mjög langaði Rúnu eftir greinilegri fréttum en margítrekuðu sögunni: "Mér líður vel." Já, Jón skildi nú vel í því, en hvað var til ráða? Þessu var hann að velta fyrir sér þegar hann sá mann álengdar, sem honum fanst hann kannast við. Hann trúði því varla en víst fanst honum að þar væri "halti Kobbi" kominn. Það reyndist rétt og varð þar fagnaðarfundur. Kobbi var óánægður með sín erindislok. Hann var kominn þangað í þeim eina tilgangi að komast á vígvöllinn, "til að litast þar um." En þegar til kom voru öll hlið lokuð, —fyrir löngu bannað að láta eldri mann en fertugan fara "yfir sundið." Nauðugur og niðurdreginn varð hann að fara heim og byrja á nýjan leik að kenna "nýsveinum" að standa, ganga og handleika byssu. Þegar hér kom sögu karls spurði Jón í hálfgerðu spaugi hvað hann segði um að bera fyrir sig bréf og koma í póstinn í Quebec eða Montreal? "Kobbi" tók spurninguna í alvöru, eins og Jón líka hafði búist við, og sagðist þá hverfa heim mun ánægðari ef hann gæti gert þó ekki væri nema einum góðum liðsbróður, svolitla þægð.

Það segir sig sjálft að Jón var meir en viljugur að leysa ofan af frétta-skjóðu sinni. Hann sagði frá öllu því markverðasta og svipmesta, sem fyrir hann hafði borið og frá sárum sínum sagði hann líka, en gerði lítið úr þeim skinnsprettum og rispum. Aldrei sagðist hann hafa fundið til kvíða eða hræðslu, enda gert sér að reglu að bíða með rósemd eftir því sem verða vildi, og hefði ávalt vakandi auga á því að stofna sér aldrei í óþarfa hættu, en því miður gleymdu ýmsir því stundum að "kapp er bezt með forsjá." Henni væri óhætt að trúa því og treysta að réði gætni og varkárni nokkru, þá kæmi hann heill heim að vertíð lokinni.

"Ekki má eg fara út í sum þau málefni, sem þú víkur á," skrifaði hann, "á meðan eg er í þjónustu minnar þjóðar og ber hennar einkennisbúning, enda gagnslaust. En samdóma er eg þér í því, að mál sýnist komið til þess, að heimurinn stjórnaðist fremur af viti og lögum, en vélum og tækjum til að eyðileggja líf og eignir. Til þess að hnekkja og þá því fremur til að kollvarpa jafn rótgróinni skoðun og venju eins og þeirri, að heraflið eitt skuli skera úr þrætumálum þjóðanna,—til þess þarf undirferlislaus samtök og samvinnu, ekki tveggja eða þriggja, heldur allra þ j ó ð a. Hverjir menn eru vaxnir því að sameina sundurleitar skoðanir? Sannarlega ekki málskúmarnir, eða æsingamennirnir, sem gapandi standa og blaðra um alt og ekkert, á öllum mannamótum í öllum löndum. Nei, geti nokkur flokkur manna nokkru áorkað í þá átt, þá eru það þeir, sem staðið hafa í stríði og vita hvað það þýðir. Og það eru þá ekki síður eiginkonur, mæður, systur eða dætur þeirra, sem annaðtveggja hafa látið líf sitt á vígvelli eða komið þaðan svo illa leiknir, að betri hefði verið bráður dauði."

— — Ýpur-grendin var nú síðan í júní algerlega á valdi Canada-manna og var þá sókn á því svæði að mestu lokið. Í júlí var byrjað að senda Canada-menn inn á Frakkland, suðaustur í Somme-héraðið og voru þeir orðnir um eða yfir sextíu þúsundir alls yfir á því svæði, í lok ágúst-mánaðar. Og í b yrjun september var þar hafin sókn er hélzt uppihaldslaust að heita mátti fram um miðjan marz-mánuð næsta vetur. Að undanteknum nokkrum mannskæðustu orustunum í Ýpur-grendinni háðu Canadamenn sína stórfenglegustu orustu 15. september 1916, í grend við og um smáþorp, sem Courcelette heitir. Hafði þorpið lengi verið á valdi Þjóðverja og var eitt þeirra traustasta vígi í Somme-héraðinu. Var tilgangurinn að taka þorpið af óvinunum, en fyrst þurfti að reka þá af meir en fermílu reit, sem lá á milli þorpsins og fremstu fylkinga Canada-manna. Eftir að steypt hafði verið látlausri stórskotahríð um fleiri klukkustundir yfir þennan litla reit, gekk fótgönguliðið fram klukkan sex að morgni hins fimtánda og varð þaðan af ekkert hlé á sókn fyrr en klukkan sjö um kvöldið, en þá var Courcelette-þorpið á valdi Canada-manna.

Þennan mikilvæga sigur mátti að nokkru leyti þakka því, að í þessari orustu kom fyrst fram stálvarði drekinn brezki, sem augnalaus að virtist, skreið og hlykkjaðist yfir og í gegnum alt sem á vegi hans varð, og spúði eldi og kúlum í óþrotlegum mæli ofan í víggrafir Þjóðverja og á vígi þeirra stór og smá. Ekkert vopn stóð á húð þessa hræðilega marglita dreka. Sprengikúlur dundu á hrygg hans, en höfðu ekki meiri verkanir en haglkorn á hús-

þaki. Það segir sig sjálft að í svona orustu er mannfall beggja herflokka mikið og hræðilegt. Þó margir væru björgunarmennirnir, þá höfðu þeir aldrei undan að koma þeim særðu heim í læknabúðir og á spítalann.

Í þriðja sinni á tíu mánaða tíma var nú Jón fallinn í valinn. Björgunarmenn voru svo nærri, að þeir sáu hann hníga, í grend við yztu húsin í þorpinu, og héldu þeir að hann væri örendur. En það var ekki. Hann var með lífi, en meðvitunarlaus. Tvö skot höfðu hitt hann í senn. Riffilkúla hafði hlaupið inn um bringubeinið hægra megin og komið út um herðablaðið, og í sömu andránni hafði sprengikúla tekið af honum vinstri fótinn fyrir neðan hnéð. Þrátt fyrir tilþrif björgunarmanna var hann nær dauða en lífi er læknarnir tóku við honum.

"Eg er hræddur um að þessi maður endist ekki nóttina út" sagði læknirinn við hjúkrunarkonuna, er hann leit á Jón skömmu fyrir miðnættið.

Litlu eftir klukkan sex morguninn eftir kom læknirinn aftur og var meir en lítið hissa á þeirri breytingu, sem orðin var. Jón svaf, og vært að virtist, andlitsliturinn nokkurnveginn eðlilegur, og blóðhitinn stórum mun minni en kvöldið áður. Hjúkrunarkonan sagði lækninum að rétt eftir miðnættið hefði sér sýnst að stundin vera komin. Hann hafði verið rænulaus og buldrað eitthvað, sem hún ekki skildi, nema eitt orð. "Mamma" hafði hann sagt tvisvar eða þrisvar og þegar hann nefndi það orð síðast hafði dregið svo af honum, að hún hélt hann væri að gefa upp andann, en þá alt í einu var eins og tekið hefði verið fyrir þjáningar hans, og hefði hann þá hægt og hægt hnígið í hægan svefn. Þrisvar hefði hann vaknað og beðið um vatn að drekka, en stofnað strax aftur.

"Þessum manni er ætlað lengra líf," sagði læknirinn, "en því hefði eg ekki trúað í gærkvöldi. Það sýnir að samfara eðlilegri löngun til að lifa hefir hann að geyma heilbrigða sál í heilbrigðum líkama og þegar svo er, þá er fengið það sem mestu munar."

* * *

Það var komið nálægt hádegi, þegar lestin staðnæmdist á vagnstöðinni í Winnipeg. Ferðinni var lokið og var það fagnaðarefni hermannahópnum, sem í lestinni voru, og sem lokið höfðu sínum erindum á vígvelli, í bráð og lengd. Þeir voru nú alkomnir heim og leystir úr stríði með sæmd, en limlestir, bæklaðir og brotnir, eða með lungu sín svo skaðbrend í eiturgufu Þjóðverja, að lítil von var um varanlega lækning.

Í þessum hóp var Jón og fagnaði ferðalokum, þó ekki væri eins illa leikinn og sumir þeirra. Hann gat klæðst og dregið sig um á hækjum, en fimm þúsund mílna ferð á sjó og landi eru ofraun þeim, sem sjúkir eru. Honum fanst óumræðileg nautn í að halla

sér útaf í mjúku rúmi í hlýju herbergi, og svo nærri glugga, að séð gat hann til veðurs án þess að lyfta höfði frá kodda.

Hugur hans hvarflaði víða, en fyrst af öllu til skóglendunnar hugþekku, sem geymdi heimili hans og alt það, sem honum var dýrmætast í veröldinni. Hvað skyldi hún vera að gera núna? Gaman væri að vera horfinn þangað! Máske var hún nú hjá Önnu frænku og biði þar komu hans. Varla tilgetandi, en ljúf var sú hugsun. Sorgleg þó í aðra röndina. Hann í rúminu og annar fótur hans burtu. Úr því mátti máske bæta að nokkru með tímanum. Verra var með lungað, sem kúlan tætti sundur. Þoldi ekkert kul. Mátti máske hýma hér fram á vor. Hvaða erindi átti hann í stríðið? Ekkert — heimskuleg fljótfærni, sprottin af sorg. Hvað syrgði hann? Það, að elskuríkri móður leið betur en áður? Nei, nei. Hvað þá? Var sorg hans þá sprottin af eigingirni, eigin meðaumkun? Vafamál og bezt að sleppa því. Eftir alt saman var hann ánægður með för sína. Hafði fræðst um margt, sem hann vissi ekkert um áður, séð margt gott og fagurt, jafnframt því sem ljótast er og hræðilegast. Skyldi Rúna vera búin að fá bréfið, sem hann sendi frá Halifax? Þar hefði hún þá alla sína sögu. Hvenær var sagt að gestir mættu koma inn? Klukkan þrjú? Já, einmitt. Hálftími enn að bíða. Líklega kæmi enginn til að heilsa sér. Enginn.

Áður en han vissi af var hann sofnaður og dreymdi. Í einni og sömu svipan var hann að ösla um hnédjúpa aurleðju í víggröf, var að tala við móður sína og Dóru heima í Sæludalskoti, og var að tala við móður sína úti fyrir Grundarkots-húsinu. Var hún að hughreysta hann eins og venja hennar var frá því hann fyrst mundi eftir. „Kvíðaefni þitt er ekki lengur til,“ þótti honum hún segja. „Braut þín er nú bein og slétt, framundan, og Rúna okkar verður með þér. Þú manst ekki eftir því, en stundum hefi eg dregið sviða úr sári þegar þú meiddir þig mikið. Það geri eg líka framvegis ef á þarf að halda, því eftir þér lít eg ávalt, Nonni minn, í vöku og svefni.“

Strauk hún þá mjúkri hendi um vanga hans og við það rumksaðist hann. Í svefnrofunum fanst honum hann finna hendina og hugði að taka hana í sína hönd. En þar var ekkert og í því vaknaði hann til fulls og opnaði augun. Var þá sól gengin svo til vesturs, að hún skein skáhalt inn um gluggann. Án þess að vera sér þess meðvitandi lét hann augun fylgja sólargeislanum frá glugga til dyra, og þar, vafin í geislum aftansólarinnar, stóð þá Rúna hans, með kærleiksbros á vörum.

Ytra ríkti miðsvetrargaddur, frost og snjór, en innra, í sál ástvinanna, sem hér fundust eftir svo þungbæran skilnað, var nú sumarsól og hlýindi í alveldi og færði þeim fögnuð og frið.

# Jón biskup Gerreksson.

Eftir *Sigurð Skúlason.*

I.

Fyrstu biskupar með Íslendingum voru útlendir menn. Er ljóst af heimildum, að allmargir erlendir biskupar hafa komið til Íslands fyrstu áratugina eftir að kristin trú var lögskipuð hér á landi. Ari fróði getur þessara manna með nafni[1]), og eru þeir, samkvæmt frásögn hans, tólf að tölu, auk Friðreks biskups, sem hingað kom, áður en kristni var lögtekin hér.

Fátt kunna heimildir annað að segja um biskupa þessa en nöfn þeirra. Sýnast þeir hafa komið hingað til lands til þess að líta eftir kristnihaldi manna, en horfið vonum bráðara á bak og burt, án þess að nokkuð það bæri til tíðinda á hérvistarárum þeirra, er þætti í frásögur færandi. Tveir þessara biskupa dvöldust hér þó um all-langt skeið, Hróðólfur og Bjarnharður. Segir Ari[2]), að þeir hafi hvor um sig verið hér á landi í nítján ár. En í Hungurvöku (3. kap.) segir, að Bjarnharður, sem þar er talinn saxlenzkur, hafi dvalist hér tuttugu vetur[3]).

Ekki getur Ari fróði þess um þá fimm útlendu biskupa, er hann telur síðasta í 8. kap. Íslendingabókar, hve lengi þeir hafi dvalist hér á landi. Kennir heldur kala til þeirra í frásögn hans, þótt stutt sé. Honum farast þannig orð:

— — "enn quomo hér aþrer V, þeir es byscopar quoþosc vesa."

En þetta orðalag skýrist af frásögu 3. kap. Hungurvöku Þar segir svo:

"Um daga Ísleifs biskups kómu út biskupar af öðrum löndum, ok buðu margt linara en Ísleifr biskup; urðu þeir því vinsælir við vonda menn, þar til at Aðalbertus erkibiskup sendi bréf til Íslands ok kvað þá suma vera bannsetta en alla í óleyfi sínu farit hafa"[4]). Ekki sýnir það litla hófsemi í fyrrnefndri frásögn Ara, hve mjög hann sneiðir hjá því að deila á biskupa þessa. Hefir hann þó væntanlega fundið sárt til þess hvert ógagn þeir höfðu unnið Ísleifi biskupi, föður Teits fóstra hans. En frásögn Hungurvöku er að því leyti merk, að hún fyllir heldur frásögn Íslendingabókar, auk þess sem hún sýnir fram á, að hinir fimm síðasttöldu biskupar Íslendingabókar munu eigi hafa komið út hingað fyr en eftir 1056. Þá getur og Hungurvaka Kols biskups, sem komið hafi út til Íslands um daga Ísleifs biskups,

1) Íslendingabók, kap. 8.
2) S. St.
3) Bps. Bmf. I, bls. 65.
4) Bps. Bmf. I, bls. 62-63.

andast hér á landi og verið grafinn í Skálholti[5]). Ekki virðist Ari fróði geta þessa manns[6]). En þess má geta, að Kolur biskup er nefndur í 28. kap. Víga-Glúmssögu[7]).

En með Ísleifi Gizurarsyni (biskup frá 1056-80) hefst íslenzkur maður fyrst til biskupstignar hér á landi, og samtímis verður Skálholt fast biskupssetur í öndverðu fyrir alla fjórðunga landsins, en frá 1106 fyrir aðra fjórðunga þess en Norðlendingafjórðung. Er þetta mikill merkisviðburður í íslenzkri kirkjusögu, eigi sízt þar sem hlut átti að máli jafn nýtur maður og Ísleifur biskup. Eftirmaður Ísleifs biskups var Gizur sonur hans, og er ágæti þess manns kunnara en svo, að hér þurfi á það að minnast. Eru heimildir samdóma um það, að Gizur biskup hafi verið hér eigi síður konungur en biskup alla embættistíð sína. En af afrekum hans nægir að nefna tíundarlög þau, er hann fékk í lög tekin hér á landi árið 1096, að því er virðist þegjandi og hljóðalaust, enda farast Ara fróða svo orð um Gizur biskup:

"Gizorr byscop var ástsælli af öllum lanzmönnom an hverr maþr annarra, þeira es vér vitem hér á andi hava verit." Eru þessi ummæli mikils verð frá þeim höfundi.

Dæmi þessara fyrstu Skálholtsbiskupa og eigi síður Jóns helga Ögmundssonar, er fyrstur var biskup á Hólum (frá 1106-21), hefir fært Íslendingum heim sanninn um, að þeir þyrfti eigi að seilast til annara þjóða eftir mönnum í biskupssæti. Sýna heimildir, að á báðum biskupsstólum vorum, Skálholti og Hólum, hafa eingöngu setið íslenzkir biskupar um tæpra tveggja alda skeið. Voru flestir þeirra stórmerkir menn, þótt eigi verði nefndir hér.

En árið 1239 bregður svo við, að hingað til lands eru sendir norskir biskupar[8]). Hétu þeir, Sigvarður Þéttmarsson, er verið hafði ábóti í Seljuklaustri; varð hann biskup í Skálholti, og bróðir Bótólfur, sem áður hafði verið k a n o k i í Helgisetursklaustri; hann fékk Hólastól. Ekki var þetta þó af því, að Íslendingar væri í hraki með biskupsefni. Þeir höfðu þegar árið 1236 kosið tvo menn til þess að takast á hendur biskupsstjórn, Magnús prest Guðmundsson á Þingvöllum, dótturson Jóns Loftssonar í Odda til Skálholts, en Björn prest Hjaltason, er kallaður var Kygri-Björn, til Hóla. Var þá enn eigi biskupslaust á Íslandi, en biskupar, er hér sátu á stóli, Guðmundur Arason á Hólum og Magnús Gizurarson í Skálholti, komnir að fótum fram, svo að vissara þótti að hafa biskupa til taks, ef þeir félli frá innan skamms. — Hin

5) Bps. Bmf. I, bls. 63.

6) Kolur sá, sem getur í 8. kap. Íslendingabókar, hlýtur að vera annar maður.

7) Sbr. Bps. Bmf. I, bls. 63 í nmgr.—

8) Islandske Annaler (útg. Gustav Storms) sbr. m. a. bls. 25, 65, 130, 188, 256; Sturlunga (útg. Ben. Sveinsson) II, bls. 326.—

íslenzku biskupaefni fóru skömmu eftir kosningu sína til Noregs, eins og venja var til. En þegar þangað kom, voru þeim gerðar þær tálmanir, að ekkert varð af vígslu þeirra. Þóttist hinn norski erkibiskup í Niðarósi finna slíkan formgalla á kosningu þeirra, að hún bryti bág við lög kirkjunnar og væri því með öllu ógild.

Fyrir því fór síra Björn Hjaltason til Rómaborgar, til þess að fá vígsluleyfi hjó páfa. En í þeim svifum önduðust báðir biskupar Íslendinga, Guðmundur Arason 16. marz, en Magnús Gizurarson 14. ágúst árið 1237. Var Kygri-Björn þá einmitt í Rómaför sinni. En vetri síðar andaðist hann á heimleið, og var þar með dauðadæmd málaleitan hinna íslenzku biskupaefna. Upp úr þessu eru og hinir norsku biskupar sendir hingað.

Heldur hafa þessar aðferðir þótt óbilgjarnar í garð Íslendinga. Telja fræðimenn ærið vafasamt, að hinn norski erkibiskup hafi haft ástæðu til að ógilda kosningu hinna íslenzku biskupaefna með þeim einum rökum, sem hann færði fram í þessum málum[9]). Ekki sýnist heldur hafa verið ástæða til að hafa neitt á móti biskupaefnum sjálfum. Um Björn Hjaltason er það kunnugt, að hann var mikilhæfur maður. Enda hefði Norðlendingar naumast farið að kjósa lélegan mann til biskups yfir sig. Svipuðu máli gegnir um síra Magnús Guðmundsson, sem kjörinn hafði verið til biskups sunnanlands. Ástæðna fyrir mótspyrnu erkibiskups er annars staðar að leita. Í þann tíð var ærið róstusamt hér í landi. Höfðingjar láu í deilum og sumir þeirra höfðu gerzt þvílíkir vinir Noregskonungs, að þeir hugðu að koma Íslandi undir hann. Helzti hjálparmaður konungs í þessum efnum, Sturla Sighvatsson, féll frá einmitt í þessum svifum. Hefir konungi þótt skylt að láta nú halda sem bezt uppi merki sínu í valdabaráttu sinni hér. Norskir biskupar voru tilvaldir sendisveinar hans á Íslandi. Því mun það nærri sanni, að konungur hafi þarna verið í ráðum með erkibiskupi, er hann þröngdi hingað erlendum biskupum, en hafði að engu löghelga venju Íslendinga um biskupskosningu, sem tíðkast hafði um langan aldur. En með síku tiltæki var það spor stigið af hálfu erlends valds, er verða skyldi Íslendingum til ærins ógagns fyr og síðar.

Upp frá þessu fram undir siðaskifti, rekur, að heita má, hver erlendi biskupinn annan á báðum hinum íslenzku biskupsstólum, þótt öðru hverju sjáist hér raunar Íslendingar í biskupsembættum. Þannig fara á árunum 1238—1465, fimmtán erlendir biskupar með embættisvöld í Skálholsbiskupsdæmi, en að eins fjórir Íslendingar. En um Hólabiskupsdæmi voru á árunum 1238—

9)Sbr. Jón Helgason: Kristnisaga Íslands I, bls. 139-131.

1520 fjórtán erlendir biskupar[10]) en einir fjórir Íslendingar[11]).

En þótt því verði eigi neitað, að fundizt hafi meðal hinna erlendu Skálholtsbiskupa allnýtir menn, svo sem Vilchin (biskup frá 1394-1405), þá er sízt fyrir það að synja, að margir þeirra voru mestu gallagripir, sem hugðu lítt á annað en fjárafla sér og kirkjunni til handa. Litu sumir þessara manna Ísland aldrei augum, en tóku biskupsstólinn svo sem hvert annað lén. Var naumast að vænta uppbyggilegrar kirkjustjórnar af slíkum mönnum.

Það er hlutverk þessarar ritgerðar að rekja feril eins þessara erlendu biskupa, manns, sem á sér að sumu leyti tvímælalaust einkennilegastan embættisferil allra þeirra manna, sem farið hafa með biskupsvöld á Íslandi, ekki sízt vegna þess, að dauði hans er alveg sérstæður atburður í íslenzkri kirkjusögu, og þótt víðar væri leitað. Maður þessi er Jón biskup Gerreksson, sem gegndi kirkjustjórn um Skálholtbiskupsdæmi frá 1430-1433.

II.

Jón Gerreksson á sér viðburðaríkari og sérkennilegri lífsferil, áður en hann gerðist biskup í Skálholti en svo, að fram hjá verði gengið í ritgerð þessari. Hafa ýmsir höfundar vikið að þessu í ritum sínum[12]). Verður hér einkum farið eftir ritgerð G. Djurklous í Svensk historisk Tidskrift frá 1894, þar sem ætla má að henni sé treystanda. Jón Gerreksson, sem víða sézt getið í opinberum gerningum undir latneska nafninu Johannes Jerechini, er talinn kominn af tignum dönskum ættum[13]). Var hann bróðursonur Péturs Jónssonar (Peder Jonsen, sumstaðar nefndur Jensen) biskups í Hróarskeldu, sem Danir kendu við ætt sína og kölluðu Lodehat, (d. 1416), en bróðir Andrésar Gerrekssonar (Anders Gerekesen), kanoka í Hróarskeldu (d. 1429)[14]). — Um uppvöxt Jóns er lítt kunnugt, þó má geta þess,

10) Jón biskup Helgason telur biskupa þessa 13 að tölu, sbr. Kristnisaga Íslands I, bls. 223. En Dr. Guðbrandur Jónsson, rithöfundur, sem er fróður mjög í þessum efnum hefir góðfúslega bent mér á, að talan 14 sé réttari. Vill hann bæta þarna við Jóhannesi nokkurum Repelvolgh, sem hann telur biskup yfir Hólabiskupsdæmi frá 1411-1423. Ber Dr. G. J. hér fyrir sig *Hierarchia Catholica* I.-III., Mynster 1898-1910, I., bls. 289. Munu þeir Johs. Repelvolgh og Jón Tófason, sem talinn er biskup á Hólum frá 1411-1423, hingað til hafa verið gerðir að einum og sama manni, að því er Dr. G. J. telur. Hefir Jón Tófason, eftir þessu, haldið Hólastól aðeins örskamma hríð, að Pétri biskupi Nikulássyni (1391-1411) látnum.—

11) Sbr. a. n. l. Biskupatal á Íslandi, Safn t. s. Ísl. I, bls. 1-6; Jón Helgason: Kristnisaga Íslands I, bls. 265.—

12) Sjá um þetta efni m. a. Reuterdahl: Svenska kyrkans historie III, 2, bls. 7, o. s. frv.; Keyser: Den norske Kirkes Historie II, bls. 469 o. s. frv. — Síðast og fyllst hefir ritað um þessi efni G. Djurklou: Jöns Gereksson ärkebiskop i Uppsala 1408-1421. Kulturbild fran konung Eriks af Pommern dagar, Historisk Tidskrift utg. af Svenska Historiska Foreningen genom E. Hildebrand, Fjortande Årgangen, Stockholm 1894.

13) Hist. Tidskr., bls. 190.

14) Hist. Tidskr., bls. 190.

að einn höfundur[15]) minnist þess, að hann hafi stundað háskólanám suður í Prag. En það hafa menn eftir Jóni Gerrekssyni sjálfum, að Eiríkur konungur af Pommern, sem krýndur var til konungs yfir öll Norðurlönd í Kalmar 17. júní 1397 þá raunar barn að aldri, hafi snemma látið sér annt um hann. Gerði konungur þessi Jón að kanslara sínum laust fyrir 1408, en áður hafði hann í Danmörku gegnt opinberum störfum í þágu kirkjunnar að minsta kosti um tveggja ára skeið[16]). Þessa skjótu upphefð sína hefir Jón Gerreksson vafalaust að nokkuru leyti mátt þakka frábærum hæfileikum, sem sagt er, að hann hafi verið gæddur og lempni í framkomu, sem honum var mjög sýnt um að beita við sér æðri menn, er hann þurfti að koma ár sinni fyrir borð. En hér kemur og vafalaust fleira til greina. Skal að því vikið nokkuð nánara, einkum þar sem aldrei hefir áður, mér vitanlega, verið á það bent.

Upphefð og gengi Jóns Gerrekssonar má vafalaust setja í samband við frændsemi þeirra Péturs Jónssonar biskups í Hróarskeldu. Hefir sá maður löngum verið talinn hægri hönd Margrétar drottningar frændkonu Eiríks af Pommern, enda mun drottning oftast hafa kvatt Pétur biskup til ráða, ef einhvern vanda bar að höndum.

15)Kr. Erslev í C. F. Bricca: Dansk Biografisk Lexikon V, bls. 596, og eftir honum Jón Helgason, Kristnis. Íslands I, bls. 226.—
16)Hist. Tidskr., bls. 190.

Er þess og ósjaldan getið, að biskup hafi lánað drottningu stórar féfúlgur með hagkvæmum kjörum eða bjargað henni á annan veg, er hún var í féþröng.

Pétur biskup hafði á sinni tíð komizt til skjótra metorða, enda stórvel gefinn maður. Þegar hann varð biskup í Hróarskeldu árið 1395, hafði hann áður gegnt tveim öðrum biskupsembættum, og öðru þeirra í Svíþjóð. En þrátt fyrir þessar upphefðir í þjónustu andlegra mála, mun biskups þó lengur verða minnst fyrir röggsamleg afskifti hans af veraldlegum málum. Er þess m. a. getið, að á þinginu í Kalmar árið 1397 hafi hann ráðið mestu um úrslit þeirra stórmála, sem þar voru til meðferðar. Síðan er hans jafnan getið við hlið Margrétar drottningar, ef eitthvað vandasamt var á seyði, er krafðist djúphyggju og skjótra úrræða. Og eftir að Pétur Jónsson var orðinn biskup í Hróarskeldu, varð hann jafnframt æðsti kanslari Danmerkur.

Ferill þeirra Péturs biskups og Jóns Gerrekssonar er að ýmsu leyti áþekkur. Báðir eru biskupar í Hróarskeldu, kanslarar í Danmörku og biskupar í Svíþjóð. Þetta er engin tilviljun. Pétur biskup hefir séð hinn unga frænda sinn, fluggáfaðan og framgjarnan, manna líklegastan til þess að verða eftirmann sinn og halda uppi heiðri og veg ættar sinnar. Það mætti hugsa sér, að þeir Jón Gerreksson og Eiríkur konungur af Pommern hafi alizt upp eigi

fjarri hvor öðrum og ef til vill verið æskufélagar. Bak við sveinana hyllir undir hinn aldraða biskup og Margréti drottningu, sem náð höfðu yfirráðum um öll Norðurlönd. Er ekki ótrúlegt, að biskup hafi einhvern tíma skotið því að drottningu, að hún yrði að gera Jón Gerreksson að voldugum manni, og fá honum þau störf, sem væri samboðin hæfileikum hans. Og engum mátti vera það kunnugra en Pétri biskupi, hver þörf var á konunghollum leiðandi mönnum í Svíþjóð. Því má ætla, að hann hafi ráðið miklu um það, að Jón Gerreksson var sendur þangað með erkibiskupsvald. En hitt mætti biskupi þykja hafa sézt yfir, hver úlfur hjó í hinum unga frænda hans, og að slíkum mönnum er sízt hollt að hljóta skjóta upphefð.—

En hingað til munu menn þó hafa látið sér nægja að eigna upphefð Jóns Gerreksonar margumræddri vináttu þeirra Eiríks konungs, sem enginn hefir þótzt þurfa að skýra einu orði. Eru þess háttar röksemdir og jafnan handhægastar.

Árið 1408 (13. marz) losnaði erkibiskupsembættið í Uppsölum. Brá Eiríkur konungur þá brátt við og bauð Jóni Gerrekssyni að gerast þar biskup. Mun honum, sem von var, hafa litizt svo, sem danskur maður mundi að öllum jafnaði verða sér auðsveipari í kirkjustjórn þar en líkindi væri til um sænskan mann. Auk þess var Jón Gerreksson mikill vinur Eiríks konungs. En konungur hafði þegar hér var komið sögu, sakir æsku sinnar, ekki náð þeim tökum á Svíum, sem hann vildi. —

Nú höfðu kórsbræður Uppsala að vísu þegar útnefnt mann í erkibiskupsembætti þetta, áður en Jón biskupsefni kom til sögu, og var sá í þann veginn að afla sér samþykkis páfa til þessa. En til þess að hafa mál sitt fram, fékk Eiríkur konungur Margrétu drottningu frændkonu sína, í lið með sér, og tókst þeim með kænsku að fá hið sænska biskupsefni til að afsala sér embættinu. Fékk Eiríkur konungur manni þessum svo sem til uppbótar fyrir vonbrigðin og í þakklætisskyni fyrir auðsveipni hans, biskupsembætti nokkurt, sem af hendingu losnaði fám mánuðum síðar. Heppnaðist þeim að fá páfasamþykki til þessa. En kórsbræður, sem einnig hér höfðu komið sér saman um annað biskupsefni, þykktust við. Varð út af þessu löng og hörð rimma[17]).

En það er af Jóni Gerrekssyni að segja, að hann brá við, jafnskjótt sem honum bauðst erkibiskupsstaðan, fór á páfafund og fékk samþykki hans til starfans. Gat Eiríkur konungur látið svo sem hann sendi Svíum þennan gæðing sinn af föðurlegum kærleik, með því að eigi væri hættulaust að hafa sjálft erkibiskupsembættið óskipað.

Í fyrstu sýndist svo, sem sópa mundi af Jóni Gerrekssyni í erki-

---

17) Hist. Tidskr., bls. 191-92.

biskupsstétt. Lauslæti allt og iðjuleysi virtist honum sízt að skapi og bannaði hann slíkt stranglega á kirkjuþingum. Mætti ætla, að hann hafi í öndverðu hugsað sér að verða nýtur maður í þjónustu kirkjunnar.

En brátt bregður svo við, að biskup gerir sig sjálfur sekan í flestu því, sem hann hafði áður tekið öðrum mönnum vara fyrir. Tók hann og brátt að leiða hjá sér eftir föngum málefni kirkjunnar og kærði sig kollóttan um, hvað kórsbræður sögðu. Sýndi hann þeim slíkan þótta og fyrirlitningu, að þeir urðu að gjalti og þorðu ekki á sér að bæra.

Gerðist erkibiskup nú brátt þvílíkur veraldarmaður, að hann gaf eigi eftir verstu ribböldum í fógetastétt. Lét hann verja stórfé til húsagerðar á erkibiskupsgarði og öðrum lendum stólsins og hafði um sig hirð og lífvarðarsveit, sem væri hann konungur. Er og orð á því gert, að hann hafi haft hjá sér hóp lauslætiskvenna og haldið stórveizlur og drykkjusamkvæmi. Gerðist honum því brátt féskylft. En til þess að bæta úr því, tók hann að sóa eignum erkistóls og kirkju og þiggja mútur af sakborningum. Allt þetta olli því, að erkibiskup varð óvinsælli en frá megi segja. Þorðu menn þó lítt að kæra hann eða vanda um þetta háttalag. En þá urðu þeir atburðir, að almúgamaður nokkur reis gegn ójöfnuði erkibiskups og það af slíku kappi og þrautseigju, að Jón Gerreksson varð að lyktum að hröklast úr embætti sínu.

Maður er nefndur Ludbert Kortenhorst. Hann var ungur, vel efnum búinn og bjó í Stokkhólmi. Árið 1414 vildi svo til, að samborgari hans, Hans Horn að nafni, lézt og lét eftir sig unga ekkju, sem Helleka hét. Hún var stórrík, að því er sagt er, átti m. a. húseignir í bænum, en mun auk þess hafa verið hin ásjálegasta kona[18]). Urðu því margir menn til þess að líta ekkju þessa hýru auga, og varð Ludbert Kortenhorst það hlutskarpastur, að festar fóru fram með þeim Helleku í votta viðurvist, og bundu þau það fastmælum að giftast[19]). En hér um bil tíu dögum síðar hafði Helleku snúizt hugur, og má ætla, að það hafi verið af fortölum annara, en svo mikið er víst, að ekki vildi hún framar heyra það nefnt að giftast festarmanni sínum.

Ludbert þótti þetta súrt í brotið og krafðist samþykkis kirkjuvalds um hin fyrri heit. En þá leitaði Helleka trausts Jóns Gerrekssonar erkibiskups og vildi fá hann til að rifta heitum þeirra Ludberts. Erkibiskup brá við skjótt og lofaði að verða við bæn Helleku. Sýnist hann hafa vakanda auga á þessum málum frá upphafi, hvort sem honum hefir sjálfum leikið hugur á konunni eða eigi. Var nú reynt að miðla málum, og boðaði biskup báða að-

18) Hist. Tidskr., bls. 195.
19) Hist. Tidskr., bls. 196.

ilja og vitni þeirra til funda. Gekk þetta í nokkuru þófi, en Ludbert veitti þó betur; var framburður vitnanna honum einkum í vil. Krafðist hann þess nú, að erkibiskup staðfesti heit þeirra, en hann þæfðist við. Skyldi málið dæmt í Uppsölum, og hlutaðeigendur mæta þar fyrir erkibiskupi og ráði hans. En þetta leiddi til þess, að Jón Gerreksson tók Helleku í fulla vernd sína og lét förunauta hennar fara leiðar sinnar. Hafði hann hana síðan með sér til Stokkhólms. Var hún þar með ráðum hans heitbundin öðrum manni, sem hét Gottskálk Severinghusen, og skyldi hann verða aðstoðarmaður erkibiskups við fjárvörzlu gegn vernd hans í hjúskaparmálunum.

Komu nú enn kröfur fram af hendi Ludberts, og skaut hann máli sínu til erkibiskups í Lundi. En Jón Gerreksson var hinn þverasti og kvaðst ekki vita til þess, að þennan embættisbróður sinn varðaði málið hið minsta. Kvað hann erkibiskupsstól Uppsala síður en svo háðan vera erkistóli Lundar.

Að svo búnu fór Jón Gerreksson til Stokkhólms og hét á þau Helleku og hið nýja mannsefni hennar að giftast tafarlaust. Brúðgumi var tregur til, með því að Ludbert hafði þegar leitað fulltingis páfa í málum sínum. Lét erkibiskup sig það engu varða en hét Gottskálk vernd sinni, hvernig sem alt færi. Var borgarstjóri síðan gerður út á fund bæjarprestsins, en þegar til kom, neitaði hann að veita samþykki kirkjunnar til þessa hjúskapar ýmissa hluta vegna[20]). Tjáði ekki, þótt borgarstjóri hótaði presti refsingu erkibiskups; hann sat við sinn keip. En engu að síður voru hjónaefnin um kvöldið leidd í eina sæng og sterkur vörður settur um hús þeirra. Leið nú heilt ár, og höfðu þau Helleka allan þann tíma ólöglegar samvistir. En Gottskálk varð að lúka Jóni Gerrekssyni of fjár fyrir afskifti hans af þessu máli og einhvern málaflutning, er biskup þóttist hafa haft við páfa þar að lútandi.

Ludbert Kortenhorst hafði eigi verið aðgjörðarlaus, meðan þessu fór fram. Hafði hann snúið sér til páfa og fengið því framgangt, að mál sitt yrði rannsakað vandlega af biskupi þeim, sem áður hafði afsalað sér erkibiskupsembætti í Uppsölum, er Jón Gerreksson var skipaður þangað. Var málið nú rannsakað að nýju, og urðu vitni enn Ludbert í vil. Dæmdi því biskup þau Helleku og bónda hennar skilin að borði og sæng, þar til er fullnaðardómur félli í málinu. Sintu þau því engu, en reiddu sig á fullkomna vernd Jóns Gerrekssonar. Kom og svo, að biskup sá, er rannsaka skyldi málið, treystist eigi að standa á móti vilja erkibiskups og dæmdi því móti betri vitund þannig, að málið ónýttist fyrir Ludbert Kortenhorst. Hann lét sér

20) Hist. Tidskr., bls. 200.

þó eigi bilt við verða, fékk sér enn á ný páfabréf þess efnis, að hjúskap þeirra Gottskálks og Helleku skyldi lokið og þau skilja samvistir. Var úrskurður þessi lesinn upp af prédikunarstóli í Stokkhólmi af presti þeim, sem áður hafði þverskallazt við að gefa þau Helleku og Gottskálk saman. En Jón Gerreksson brá við, sendi aðstoðarmann sinn á vettvang og lét hann lesa upp annan boðskap af sama prédikunarstóli þess efnis, að páfabréfið væri falsað og því marklaust. Tók hann þau hjónaleysi til sín í fullkomna vernd og vígði þau í hjónaband með mikilli viðhöfn, þrátt fyrir bann páfa[21]).

Nú þóttist Jón Gerreksson einnig verða að ná sér niðri á presti þeim, sem ekki hafði viljað gifta þau Helleku og Gottskálk og einnig hafði gerzt svo djarfur, að lesa upp af prédikunarstóli páfabann gegn hjúskap þeirra. Fór hann því síðla dags í apríl 1417 með hóp vopnaðra manna að presti, lét taka hann höndum undir borðum, veita honum áverka og draga síðan sem hrakalegast eftir götum bæjarins. Fengu menn ekkert að gert, fyr en málleysingi einn gerðist svo djarfur að ryðjast inn í mannþröngina og hrífa prest, sem var kominn nær dauða en lífi, úr klóm erkibiskupssveina. Af öllu þessu óx eigi lítið óvild manna gegn erkibiskupi.

Ludbert hafði jafnan verið að klifa á málum sínum og loks hlotið þann dómsúrskurð, að honum væri heimilt að ganga að eiga Helleku. Krafðist hann því enn konunnar af erkibiskupi, en fékk þau ein svör, að hann mundi eigi víkja frá hinum fyrra úrskurði sínum, hvað sem páfi segði, þó svo það kostaði líf sitt, æru og bæði eignir sínar, kirkjunnar og allra vina sinna. Sá Ludbert sér þá eigi annað fært en að skjóta máli sínu til Eiríks konungs, og þann kost tók hann.

Þrátt fyrir alla þá hylli, sem talið er að Jón Gerreksson hafi notið hjá Eiríki konungi af Pommern, var nú auðsýnt að draga mundi til sundurþykkis með konungi og erkibiskupi. Til þess bar margt: Vanræksla erkibiskups í embættisfærslu, kæruleysi á ýmsum sviðum, óhóflegur fjárdráttur til eigin þarfa og ekki sízt það, að biskup hafði dregið að sér óaldarflokk, er hann hafði í þjónustu sinni, til þess að framkvæma rán og ýmis ofbeldisverk. Mun konungi hafa verið það ljóst, að nauðsyn bæri til að hefta ofstopa og gerræði erkibiskups, en sömuleiðis gat Jóni Gerrekssyni ekki dulist það, að hér þurfti skjótra aðgerða við, ef þetta framferði hans ætti ekki að ríða honum að fullu. Mun honum eigi hafa þótt vænlegt að brjóta af sér hylli fornvinar síns, Eiríks konungs, og því hugði hann á ný ráð.

Vorið 1419 bjóst Jón Gerreksson til langferðar. Ekki var mönnum ljóst, hvert haldið skyldi, því

---

21) Hist. Tidskr., bls. 201.

að ekki hafði erkibiskup fyrir því að kveðja staðarmenn eða skipa fyrir um neitt það, er laut að kirkjustjórn, í fjarveru sinni. Það eitt var kunnugt, að hann fór fyrst til Stokkhólms. En sumir hugðu, að hann mundi ætla að fara alla leið til Róms. Þetta varð þó eigi að sinni. Rúmum mánuði síðar kom hann á ríkisþing, sem háð var í Kaupmannahöfn. Sat þar margt stórmenni, bæði konungur og biskupar, en auk þess voru komnir þar þeir meðbiðlarnir Ludbert og Gottskálk. Kærði Ludbert mál sín á þinginu, og lögðu þeir félagar þau í dóm konungs. Var erkibiskup Lundar ásamt öðrum biskupum settur til að dæma í málum þessum, og var úrskurður þeirra á þá leið, að Ludbert skyldi ganga að eiga festarkonu sína, en Gottskálk missa hennar fyrir fult og alt.

En auk þessarar ívilnunar krafðist Ludbert margvíslegra skaðabóta af Gottskálki. Svaraði hann því sem var, að erkibiskup hefði ráðið framferði sínu í málum þessum og skelti allri skuldinni á hann. Fór Gottskálk jafnvel fram á það, að auk sjálfsagðra skaðabóta til Ludberts, bæri erkibiskupi að greiða sér bætur fyrir öll þau útgjöld og þær svívirðingar, er hann hefði fengið af málavafstri þessu.

Jón Gerreksson svaraði í mesta styttingi, að dómur sinn í málum þessum væri fullkomlega réttmætur og skyldi haldast óhaggaður, hverju sem tautaði. Hafði hann svipuð stóryrði í frammi sem hann hafði áður látið fjúka við Ludbert[22]), og það þótt sjálfur konungur og annað stórmenni væri viðstatt. Vakti þetta mikla gremju og varð til þess, að konungur skipaði ráðinu að meta slíkt framferði til refsingar. En er dómur þessi var lesinn upp, leizt Jóni Gerrekssyni ekki á blikuna, enda varðaði fullnæging dómsins velferð hans. Tók biskup því það fangaráð að auðmýkja sig og leggja öll mál sín á konungs vald. Kvað hann sér það ljóst, að hann mundi að þessu sinni bera lægra hlut. En sakir fornrar velvildar konungs sér til handa, lézt hann óhræddur að trúa honum fyrir málum sínum, jafnvel þótt konungur hefði eitthvað misjafnt um sig fram að færa[23]).

Þetta hreif. Konungur blíðkaðist þegar í stað og kvaðzt mundu sýna erkibiskupi alla þá linkind, sem í sínu valdi stæði. Hins vegar þorði hann ekki að missa sjónar af Jóni Gerrekssyni, enda rigndi þeim kærufjölda yfir erkibiskup, að konungi fór ekki að lítast á blikuna, ef hann yrði látinn einráður, hvað þá sendur aftur til embættis síns í Svíþjóð. Var páfa nú sent skjal, þar sem á var rituð skýrsla um afbrot erkibiskups, því að eigi treystist konungur að leyna hinn heilaga föður slíkum afbrotum, sem Jón

22) Hist. Tidskr., bls. 207.
23) Hist. Tidskr., bls. 207-208.

Gerreksson hafði framið. En erkibiskup varð kyr í Kaupmannahöfn hjá Eiríki konungi, og var þar allvel haldinn. Varð hann að lofa því hátíðlega að viðlögðum drengskap að hlaupast eigi á brott þaðan.

Skýrsla sú eða greinargerð lútandi að afbrotum Jóns Gerrekssonar, sem Eiríkur konungur hafði sent páfa, og áður er minst, mun að nokkuru leyti hafa valdið því, að erkibiskup rauf heit sín við konung og strauk burt frá Kaupmannahöfn eftir að hafa dvalizt þar skamma hríð (strauk nál. 15. ágúst 1419). Mun biskup hafa komizt á snoðir um bréfið til páfa og, þegar alt kom til alls, litizt svo, sem sér kynni að reynast málstaður sinn helzti uggvænlegur, ef ekkert væri að gert. Hefir biskup því þótt nauðsyn mikil að reyna til að sporna við þeim óþægindum, sem af bréfi þessu gátu leitt. Svo mikið er og víst, að áður en mál hans yrði dæmd eða metin í páfagarði, var hann sjálfur þangað kominn og lagði nú fram skriflega kæru. Lýsti hann þar háttsemi sinni ítarlega og eins og honum þótti bezt við eiga, en gerðist jafnframt svo djarfur að bera sakir miklar á hendur mótstöðumönnum sínum. Krafðist hann enn fremur nýrrar rannsóknar á málum sínum og loks fór hann fram á það, að sér yrði tryggt erkibiskupsembætti sitt, líf og góz fyrir tiltekinn tíma.

Jón Gerreksson hafði með þessu framferði komið hinum heilaga föður í hina mestu klípu. Óskammfeilni erkibiskups og einurð var slík, að eigi varð fram hjá því gengið að taka kærur hans til greina. Má ætla, að hann hafi enn, þrátt fyrir alt, sem á undan var gengið, vonað fastlega, að eitthvað mundi rætast úr málum sínum, ef laglega væri á haldið. Hins vegar var óhægt að véfengja skýrslu Eiríks konungs eða láta sér til hugar koma, að þar væri logið sökum upp á erkibiskup. En alt þetta gerði málið ærið vandasamt og torvelt viðfangs.

Var nú kardínála einum falið það til frekari rannsóknar, en kæruskjal erkibiskups sent kórsbræðrum í Uppsölum til athugunar. Kardínáli þessi skipaði í sinn stað erkibiskupinn í Rígi til að annast rannsókn málsins.

Kæruskjal Jóns Gerrekssonar barst kórsbræðrum Uppsala í hendur 3. júlí 1420. Var þegar í stað skotið á fundi og samin vörn eða svar gegn rógburði erkibiskups. Voru ekki einungis hraktar ákærur hans í flestum greinum og því snúið upp á hann sjálfan, sem hann hafði sakað aðra um, heldur og margt það til tínt, sem áður hafði legið í láginni[24]). Má þar einkum til nefna alls konar fjárkröfur, t. d. fyrir embættisverk, sem aldrei höfðu verið innt af hendi ,rán og margs konar meiðingar og yfirgang. Meðal annars er hér talinn áverki sá, sem biskup

24)Hist. Tidskr., bls. 216-18.

og sveinar hans veittu klerki þeim, er þeir drógu eftir götum Stokkhólms, og áður er frá sagt. Og finna má hér fleiri sakargiftir, sem hver um sig er talinn næg bannsök. Er skjal þetta hin bezta heimild um feril erkibiskups í Uppsölum, er sýnist hafa verið ófagur. Má því svo að orði kveða, að vopnið snérist hér ærið hrapallega í hendi Jóns Gerrekssonar, þar sem rit hans sjálfs skyldi verða til þess að vekja upp ýmsar þær sakargiftir á hendur honum, sem vart mundi hafa verið hreyft við í þessari mynd, ef biskup hefði haft vit á að bæra ekki framar á sér opinberlega. Mun þó kæruritið sjálft fyrst í stað að eins hafa vakið upp hin helztu afbrot erkibiskups, og sýnir það bezt, að af miklu var að taka í þeim efnum.

Af öllum þessum sakargiftum leiddi það, eftir nákvæma rannsókn, að samin var stefna á hendur Jóni Gerrekssyni, þar sem honum var boðið að koma til Uppsala á ákveðnum degi í júní mánuði árið 1421 og standa þar fyrir máli sínu[25]). Var stefna þessi síðan birt víðs vegar, ýmist fest upp eða lesin í heyranda hljóði alls staðar, þar sem mannamót voru, og lá við bannsök, ef út af var brugðið. Mun eigi trútt um, að þetta athæfi hafi vakið upp enn þá fleiri kærur á hendur erkibiskupi, þótt naumast yrði málstaður hans veiktur meir en áður var[26]). — Ýmsar fleiri nauðsynlegar ráðstafanir voru og gerðar.

Eigi vita menn með neinni vissu, hvar Jón Gerreksson muni hafa hafzt við, meðan öllu þessu fór fram, en helzt ætla menn, að hann hafi dvalizt í Lýbiku. Fyrsta apríl árið 1421 skýtur honum alt í einu upp í Danmörku eða innan vébanda ríkis Eiríks konungs af Pommern, fornvinar hans. Má vel ætla, að hann hafi enn vænt sér einhverrar styrktar úr þeirri átt.

Honum var nú tafarlaust birt stefnan, eftir þeim reglum, sem við átti, og verður eigi séð, að erkibiskup hafi hugsað sér að skjótast undan að þessu sinni. En þar sem konungur lagði blátt bann við því, að hann færi til Svíþjóðar á ný, varð hann að útvega sér griðabréf þangað. Mun það hafa tekizt, því að á tilnefndum stefnudegi var hann kominn til Uppsala, reiðubúinn til að standa fyrir máli sínu innan veggja dómkirkjunnar þar, eins og krafizt hafði verið. Var rannsókn málsins háð af erkibiskupinum í Ríga í viðurvist margs stórmennis. Menn ætla að rannsókn þessi hafi staðið dögum saman. Er þess getið, að Jón Gerreksson hafi reynt að flækja málin með rakalausu skvaldri og stóryrðum, en það var haft að engu og rannsóknum haldið áfram, eins og ekkert hefði í skorizt. Var og nauðsynlegt, að alt væri sem ítar-

25) Hist. Tidskr., bls. 219.

26) Hist. Tidskr., bls. 220.

legast bæði ákærur og vitnisburðir, þar sem málin skyldi dæmd af kardínála, sem hvergi var nærri.

Eigi er þess getið, að rannsókn þessi hafi leitt þær nýjungar í ljós, er breytti í neinu verulegu málstað Jóns Gerrekssonar. Mun mönnum hafa litizt hann á þá leið, að æskilegast væri að reyna að semja málin í kyrþey. Sú var og eindregin ósk Eiríks konungs, og í því skyni mun hann hafa farið til Svíþjóðar nokkuru síðar. Jón Gerrekson tjáði sig fúsan til að leggja niður erkibiskupsembætti sitt. En til þess að geta lifað sómasamlegu lífi, án þess að vera upp á aðra kominn, krafðist hann ærins lífeyris. Voru hlutaðeigendur fúsir til að verða við þeirri kröfu. Var honum leyft að hafa með sér frá Svíþjóð húsbúnað þann, er hann hafði haft með sér til Uppsala eða látið gera þar, en auk þess var honum dæmdur ævinlegur lífeyrir[27]). Er fullkominn endi bundinn á öll þessi mál með páfabréfi frá 5. marz 1422, þar sem erkibiskup er algerlega dæmdur frá embætti í Uppsölum og tekin af honum prestsþjónusta. Verður vart annað talið en biskup hafi sloppið allvel, þegar litið er til þess, sem á undan var gengið, og nú hefir verið skýrt frá til nokkurrar hlítar.

En þó að Jóni Gerrekssyni hefði verið vikið úr Svíþjóð með þeim hætti, að sýnast mætti sem hann mundi nú hafa verið búinn að fá nóg af vafstri opinberra mála, og hefði helzt kosið, að setjast í helgan stein það sem eftir var ævinnar, er síður en svo, að endir væri bundinn á afbrot hans og raunir; þeim skyldi ekki linna fyr en yfir lauk. Að vísu má ætla, að þegar hér var komið sögu, hafi biskup haldið kyrru fyrir um sinn og hugsað á einhvers konar yfirbætur fyrir hinar margvíslegu meingjörðir, er honum voru kendar. Til þess bendir a. m. k. eindregið orðalag það, sem kemur fram í skipunarbréfi því, er páfi gaf honum fyrir Skálholtsstól 6. marz árið 1426[28]). Víst er og um það, að um nokkurt skeið hverfur biskup algerlega af vettvangi opinberra mála. Er engin ástæða til þess að ætla, að hann hafi, þegar hér var komið sögu, verið hneptur inn í fangelsi, eins og einn höfundur hefir haldið fram[29]), þar sem hann hafði eigi verið dæmdur í neins konar varðhald og honum auk þess verið veittur álitlegur lífeyrir eins og hverjum öðrum uppgjafaembættismanni. Uppreisn sú, er honum skyldi bráðlega hlotnast, bendir a. m. k. eindregið til einhvers konar yfirbótalífernis, eins og enn mun sýnt verða.

## III.

Jón Gerreksson kemur næst við sögu árið 1426 með þeim hætti, að eigi er undarlegt, þótt mönnum

27)Hist. Tidskr., bls. 222.

28)Sbr. Dipl. Isl. VIII, nr. 19, (bls. 25).

29)Hist. Tidskr., bls. 223.

bregði í brún, þegar litið er til alls þess, sem á undan var gengið, og nú er frá sagt. Þetta ár er hann af páfa skipaður biskup í Skálholti, hinu forna biskupssetri Íslendinga. Hafði þar setið næstur á undan íslenzkur maður, Árni biskup Ólafsson, sem mun hafa látizt árið áður (1425)[30]. En raunar hafði biskup þessi jafnan verið utanlands frá 1419[31]). Má ætla, að kirkjustjórn í Skálholtsbiskupsdæmi hafi um þetta leyti verið heldur lakleg, og því æskilegt að fá þar nýtan mann í biskupssæti. Enda kemst höf. Nýjaannáls svo að orði um ástand Skálholtsstaðar í þann mund, sem Jón Gerreksson kom út hingað:

"Var þá heilög Skálholtskirkja í þvílíkum hörmum og sútum, sem aldrei fyr vissum vér orðið hafa; fyrst biskupslaust, en officialis gamall og blindur, en mistu síðan ráðsmanninn þann, er bæði var staðnum hallkvæmur og hollur"[32])

Hefði því naumast veitt af sæmilegum biskupi út hingað, er ástand staðarins var svo bágborið. Guldu Íslendingar þess nú tilfinnanlega, hve farið var fornu sjálfstæði þeirra, og að þeir létu erlent vald algerlega einrátt um biskupskjör sitt.

Svo mun alment talið, að Eiríkur konungur af Pommern hafi útvegað Jóni Gerrekssyni Skálholtsstól. Hefir biskup hér enn notið fornrar vináttu. Mun það og rétt, að konungur reyndist Jóni yfirleitt vel í basli hans. En hitt mætti ætla, að Eiríkur konungur hafi verið orðinn saddur af að hafa Jón Gerreksson undir verndarvæng sínum eins og ætla má, að verið hafi frá því, er biskup misti embætti sitt. Í veitingarbréfi Jóns biskups fyrir Skálholtsstól sýnist svo sem biskup hafi verið kominn á vonarvöl, og hafi vinir hans orðið að hlaupa undir bagga með honum, til þess að hann hefði nægilegt lífsviðurværi[33]). Er trúlegt að Eiríkur konungur hafi verið einn þeirra, sem réttu biskupi hjálparhönd í þessum vesaldómi hans. Má ætla, að konungi hafi nú þótt verið nægilega farið að fyrnast athæfi Jóns Gerrekssonar í Svíþjóð, til þess að óhætt væri að láta biskup hefjast handa á ný. Og ef Eiríkur konungur hefir haft svipaða skoðun á Íslendingum og fram kemur í skipunarbréfi því, er Jón biskup fékk fyrir Skálholtsstól, þar sem sagt er, að fólkið sé svo sem óþjóð[34]), hefir honum þótt bera vel í veiði að vinna tvent samtímis; fá villiþjóðinni hér norður á hala veraldar, andlegt yfirvald, sem tæki hana í kollhárin og losna um leið við Jón biskup, þennan erfiða skjólstæðing sinn. En sízt mun konung hafa órað

30)Sbr. Annales Islandici (útg. Bmf.) I, bls. 52 í nmgr.; Jón Helgason: Kristnisaga Íslands I, bls. 221.

31)Safn. t. s. Ísl. I, bls. 2; Jón Helgason: Kristnisaga Íslands I, bls. 221.

32)Nýi annáll; Annales Islandici (útg. Bmf.) I, 1, bls. 27.

33)Dipl. Isl. VIII., nr. 19, (bls. 25-26).

34)S. st.

fyrir þeirri mótspyrnu, er Jón biskup varð að lyktum fyrir af hendi Íslendinga.

Jón Gerreksson kemur ekki út til Íslands fyrr en sumarið 1430[35]), hafði hann veturinn áður dvalizt í Englandi. Tók biskup land í Hafnarfirði[36]) miðvikudaginn fyrir Jónsmessu (þ. e. 21. júní). Í Nýja Annál segir svo um komu biskups hingað til lands:

"Kom herra biskup af Englandi til, því hann hafði setið þar áður um veturinn. Fylgdu honum margir sveinar þeir, er danskir létust vera; voru þeir flestir til lítilla nytsemda landinu, hirði eg því ekki þeirra nöfn að skrifa. Tveir prestar komu út hingað með herra Jóni Skálholtsbiskupi, hét annar Mattheus en annar Nikulás. Sigldi Nikulás prestur samsumars aftur og með margar lestir skreiðar vegna biskups, því honum var auðaflað fiskanna og annara hluta, því að landsfólkið varð nokkuð bráðþýtt við biskupinn"[37]).

Vart verður nú nánara skýrt frá komu Jóns biskups hingað til lands en gert er í þessari heimild, enda má talsvert lesa út úr frásögn hennar, þótt stutt sé.

Jón Gerreksson kemur út hingað skuldugur, m. a. eftir veturvist sína í Englandi. Því verður honum það fyrst fyrir að snapa saman fisk til að lúka með þessar skuldir sínar. Er eigi ósennilegt, að biskup hafi etið og drukkið óspart um veturinn á Englandi upp á vonina í íslenzkum afurðum, sem löngum urðu handhægar erlendum eyðsluseggjum, sem settir voru yfir Íslendinga. En til þess að eiga hægara með að koma sínu fram við "óþjóð" þá, er biskup skyldi nú kippa á sáluhjálparbraut og ef til vill einkum til þess að auðveldara yrði að framfylgja væntanlegum fjárkröfum, hefir honum litizt hentugt að hafa sveina með sér. Má ætla, að þess vegna hafi hann stigið hér á land umkringdur e. k. lífvarðarsveit. Hitt er annað mál, hve valið lið hans var, og hvern hemil væri að vænta, að maður sem Jón Gerreksson mundi geta haft á hinum útlendu sveinum, eftir að þeim hafði einu sinni verið hleypt hér á land.

Sveinar Jóns biskups voru þrjátíu að tölu. Hafa þeir löngum verið taldir írskir að uppruna og óaldarseggir. Jón Egilsson kemst þannig að orði um þá í Biskupa-annálum sínum[38]):

"biskup Jón Gerreksson, hann var svenskur að ætt og hafði xxx

---

35) Staðið hefir hann þó skil á embættisgjöldum sínum fyrir þann tíma, eins og kvittanir, sem enn eru til, sýna, sjá Dipl. Isl. VIII. nr. 23 (bls. 28), nr. 24 (bls. 29), og nr. 25 (bls. 30).

36) Í Hist. Tidskr., bls. 224 er sagt, að biskup hafi tekið land í Fanarfirði (Fanarfjorden). En þessi missögn byggist á ritvillu í sumum af handritum Nýja-Annáls, sem Gustav Storm hefir ekki gáð að leiðrétta í annálaútgáfu sinni, sbr. Islandske Annaler ved Gustav Storm (Chria. 1888), bls 295. Er villan þaðan komin inn í ritgerð G. Djurklous í Hist. Tidskr. Dr. Hannes Þorsteinsson hefir leiðrétt þetta í annálaútg. sinni, sjá Ann. Ísl. I, 1, bls. 27 í nmgr.

37) Annales Islandici (útg. Bmf.) I, 1, bls. 27.

38) Safn t. s. Ísl. I, bls. 34.

sveina írska, hverir að næsta voru mjög ómildir, svo að biskup hann réð litlu eður öngu fyrir þeim."

Af frásögn Nýja annáls, sem tekin hefir verið upp hér að framan, virðist þó mega ráða, að sveinar þessir hafi þótzt vera danskir að ætt. En hvað sem því líður, hefir því alment verið trúað, að þeir hafi verið af írsku bergi brotnir; skiftir þetta raunar heldur litlu máli.

Biskupsstörf Jóns Gerrekssonar á þeim þrem árum, sem hann sat á biskupsstóli í Skálholti, eru hvorki mörg né merkileg. ef dæma má af þeim gögnum, sem varðveitt eru. Þessi munu hin helztu:

1. Máldagi Krosskirkju í Landeyjum frá 1430[39]).

2. Skipan hálfkirkju að Breiðuvík í Saurbæjarþingum frá 1431[40]).

3. Samningagerð við Gunnar bónda Bjarnason frá 1432 þess efnis, að Gunnar tekur að sér nokkurar jarðir kirkjunnar í Hvammi í Norðurárdal, en á að leysa þær í lausafé[41]).

4. Skipan hálfkirkju á Skarðshömrum í Norðurárdal og afturköllun dóms og gerðar um fimm aura gjald frá Skarðshömrum til Hvamms frá 27. marz 1431[42]).

Miklu meira kveður að glettingum biskups og sveina hans við ýmsa menn, enda urðu þær þeim að lyktum að fjörtjóni. Eitt atvik hér að lútandi virðist sýna furðu vel, hvernig háttað var siðferði Jóns biskups og skýrir að nokkuru leyti feril hans frá fyrstu tíð.

Atburður þessi hefir varðveizt í vitnisburðarbréfi Ljóts prests Helgasonar frá 1. júní 1450 lútandi að vísitatíu Jóns Gerrekssonar á Reykhólum 1432[43]). Sýnir bréf þetta, að þegar biskup var staddur á Reykhólum, hefir komið til hans Gizur nokkur Runólfsson og kært fyrir honum mann þann, er Filippus hét Sigurðsson "ok bad biskup ion gerreksson hialpa til suo hann mætti giora havnum eina hueria olucku"[44]).

Varð Jón biskup ekki seinn til að skipa sveinum sínum að gera Filippusi hverja þá ólukku, sem Gizur vildi. Var þá sagt, að Filippus væri kominn í kirkju. En Jón biskup skipaði að taka hann út úr kirkjunni og lét svo um mælt, að þótt kirkjan væri saurguð í kveld, skyldi hann gera hana hreina að morgni.

Segir ekki frekara frá úrslitum þessa máls, en ástæðulaust er að véfengja skýrslu Ljóts prests, þar sem hann var einmitt sjálfur staddur á Reykhólum um þessar mundir.

Sveinar Jóns Gerrekssonar gerðust brátt svo óstýrilátir, að biskup réð lítt við þá. Mun hann raunar sjaldan hafa latt þá stórræða . Um framferði biskups og manna hans á yfirreiðum farast

39)Dipl. Isl. IV, nr. 465 (bls. 423).
40)Dipl. Isl. IV, nr. 510 (bls. 469).
41)Dipl. Isl. IV. nr. 546 (bls. 506-507).
42)Dipl. Isl. V, nr. 7, (bls. 5-7).
43)Dipl. Isl. V, nr. 42, (bls. 50-51).
44)Dipl. Isl. V, nr. 42 (bls. 51).

Jóni Egilssyni þannig orð í Biskupa-annálum[45]):

"Hann reið víða um land og gerðu menn hans mikinn óskunda, en tóku ríkismenn til fanga."

Þá voru á meðal leikmannahöfðingja hér á landi þeir Þorvarður sonur Lofts ríka á Möðruvöllum og Ingibjargar Pálsdóttur, og Teitur Gunnlaugsson í Bjarnanesi í Hornafirði. Þessir menn kunnu illa ránum og óspektum biskupssveina og munu hafa veitt þeim mótspyrnu. Hefndi biskup og sveinar hans þessa með því að taka þá Þorvarð og Teit höndum sumarið 1432 og flytja þá til Skálholts. Voru þeir þar í járnum og látnir berja fisk, en sættu að sögn spotti og bríxlyrðum biskupssveina. Þorvarður slapp úr varðhaldinu um haustið, en Teitur varð að dúsa þar til páska árið 1433. Var þá veizla í Skálholti og drukkið fast. Tveir sveinar skyldi gæta Teits. Urðu þeir að lyktum svo drukknir, að þeir týndu lyklinum að fjötri hans. En griðkona ein fann hann og fékk Teiti. Komst hann við það burt[46]). Á Teitur að hafa launað stúlkunni þetta vel, ef satt er, að hann hafi gefið henni tuttugu hundraða jörð og séð henni auk þess fyrir ríku gjaforði[47]). En nú gerðist sá atburður, er boða skyldi lok Jóns biskups og sveina hans.

Maður er nefndur Magnús. Hann var einn í flokki sveina Jóns biskups. Er hann í heimildum kallaður kæmeistari í Skálholti og jafnvel talinn launsonur biskups[48]). Magnús bað sér til handa Margrétar Vigfúsdóttur, hirðstjóra Ívarssonar. Hún átti heima á Kirkjubóli á Miðnesi hjá bróður sínum, jungkara Ívari hólmi. Var honum synjað ráðahagsins. Þessu reiddist Magnús[49]) og fór suður á Nes með biskupssveina árið 1433. Báru þeir eld að húsum á Kirkjubóli, og brunnu þau til kaldra kola. Ívar mun hafa leitað útgöngu, en var skotinn til bana[50]). Hins vegar tókst Margrétu að komast úr eldinum, að því er virðist með mikilli ráðkænsku og hugprýði[51]). Slapp hún úr klóm biskupssveina og lét svo um mælt, að hún vildi engan eiga nema þann, sem hefndi bróður hennar. Er sögn til um það, að Margrét hafi hitt þrévett tryppi og forðað sér á því um hríð, til þess er hún fékk betra fararbeina norður að Möðruvöllum til Þorvarðs Loftssonar og eggjaði hann hefnda[52]). Hvað sem því líður, mun atburður þessi hafa ýtt undir

45) Safn t. s. Ísl.. I, bls. 34.

46) Sbr. Biskupa-annálar Jóns Egilssonar, Safn t. s. Ísl. I, bls. 34-35.

47) Sbr. Biskupa-annálar Jóns Egilssonar, Safn t. s. Ísl. I, bls. 36.

48) Skarðsárannáll við árið 1433, Annaler Islandici (útg. Bmf.) I, 1, bls. 57.

49) Jón Egilsson kallar fyrirliða biskupssveina Árna kæmeistara, sjá Safn t. s. Ísl. I, bls. 36.

50) Jón Egilsson virðist telja að Ívar hafi komizt lífs af (Safn t. s. Ísl. I, bls 36); það mun ranghermi.

51) Sbr. Skarðsárannál við árið 1433, Ann. Isl. (útg. Bmf.) I, 1, bls. 57.

52) Smævir I, bls. 165.

Þorvarð að hefna hrakfara sinna á biskupi og sveinum hans. Skrifuðust þeir Teitur á um þessi efni og réðu það af að veita Jóni biskupi og sveinum hans heimsókn á staðinn á ákveðnum degi sumarið 1433[53]). Um komu þeirra Þorvarðs til Skálholts fer að nokkuru leyti tveim sögum fram. Er önnur þeirra í Biskupa-annálum síra Jóns Egilssonar[54]), en hin í annálum Björns Jónssonar frá Skarðsá[55]). Frásögur þessara heimilda fylla hvor aðra. En þar sem miklu er ítarlegar sagt frá atburðum í biskupa-annálum, er hér fylgt frásögn þeirra.

Þeir Þorvarður og Teitur komu jafnsnemma "á hamarinn"[56]). Riðu þeir Teitur síðan Hvítá á Þengilseyri[57]) og segir síra Jón Egilsson, að áin hafi eigi fyrr verið riðin þar.

Þegar biskup frétti, að Teitur væri kominn á "hamarinn" ugði hann um líf sitt og sveina sinna. Skrýddist hann þá fullum messuskrúða, fór til kirkju með sveina og klerkaskara sinn og lét loka öllum hurðum á staðarhúsum svo og kirkju. Fór biskup síðan fyrir altari og hóf messusöng. Vígði hann áður oblátu eina og hélt á henni til öryggis sér.

Þeir Þorvarður komu nú á staðinn, og er þeir fundu hús öll læst og sáu, hvað biskupi leið, báru þeir stór tré undir undirstokka kirkjunnar og vógu hana síðan upp annars vegar svo hátt, að þeir máttu ganga þar innundir.

Frásögn Björns Jónssonar á Skarðsá er að því leyti fyllri um þá atburði, sem nú eru taldir, að hann nafngreinir einn liðsmann Þorvarðs Loftssonar, Árna bónda Magnússon frá Dal í Eyjafirði, sem kallaður var Dalskeggur. Var hann öðrum þræði fyrir liði Þorvarðs. Segir hér enn fremur, að þeir félagar hafi komið til Skálholts kveldið fyrir Þorláksmessu á sumri (20. júlí), en þá var þar hátíð mikil, eins og venja var til, og margmenni saman komið. Höfðu menn tjaldað nálægt staðnum, og settu þeir félagar tjald sitt utar öðrum tjöldum. Hafði Dalskeggur lagt á ráðin, að koma í Skálholt um þetta leyti árs, með því að þá mundi biskup áreiðanlega verða heima. Þá segir og í Skarðsárannál, að er komumenn höfðu lyft upp öðrum megin, hafi þeir gengið þar inn undir fimtán saman og Árni Dalskeggur í broddi fylkingar. Hafi honum þá fallið þessi orð, er hann sá biskup alskrýddan fyrir altari kirkjunnar:

"Nú er mikið um dýrðir." En

---

53) Síra Jón Egilsson telur Jón Gerreksson ranglega dáinn árið 1432, Biskupa-annálar, Safn t. s. Ísl. I, bls. 36.

54) Safn. t. s. Ísl. I, bls. 35-36.

55) Annales Islandici (útg. Bmf.) I, 1, bls. 57-58.

56) Hér er átt við ferjustaðinn á Hvítá hjá Iðu, sem er skamt frá Skálholti, í suðaustur. Ferjustaður þessi hefir heitið Skálholtshamar, en er nú í daglegu tali nefndur Iðuhamar fremri og efri (þ. e.: fyrir sunnan og norðan Hvítá; hefir Teitur og lið hans komið sunnan að ánni.

57) Svo heitir stór eyja í Hvítá skamt fyrir vestan Iðuferjustað, í suður frá Skálholti. Greinir hún ána í tvær kvíslar. Er kvíslin milli eyjar og árbakka bæði breið og djúp.

eftirtektaverðast er það, að í Skarðsárannál er Teits Gunnlaugssonar alls eigi getið í sambandi við þessa Skálholtsreið. Verður eigi annað séð af frásögn þess rits en í förinni hafi einvörðungu verið Norðlendingar. Skýtur þetta nokkuð skökku við frásögn Jóns Egilssonar, sem lætur Jón biskup einmitt örvænta um líf sitt og manna sinna, er hann heyrir, að *Teitur* er væntanlegur til staðarins. Er ekki að undra, þótt síra Jón Egilsson, sem einmitt reit annál sinn heima á Skálholtsstað, færi nokkuð ítarlegar út í þessa sálma en maður, sem alla sína tíð dvaldizt fjarri þessum slóðum, í öðrum landsfjórðungi.

Þeir Þorvarður tóku nú biskup höndum, þar sem hann stóð fyrir altarinu með helgan dóm á lofti, og toguðu hann utar eftir kórnum. Héldu prestar biskups honum þó eftir megni og streittust á móti, þangað til komið var út fyrir stöpul kirkjunnar; þar gáfust þeir upp[58]). Oblátu þá hina vígðu misti biskup í miðri kirkju. Skreið kirkjuprestur síðan þangað, sem hún lá, og bergði á henni "þar í þeim sama stað var biskup eftir á jarðaður, og þá kirkjan brann (þ. e. 93 vetrum síðar) sá menn vott nokkurn til hans kistu," segir síra Jón Egilsson í Biskupaannálum[59]).

Síðan var farið með biskup vestur að Brúará. Var hann þar færður í poka, bundinn steinn við og síðan varpað í ána, að sögn síra Jóns Egilssonar. Björn á Skarðsá kemst svo að orði um þetta[60]): "Þar eftir höfðu þeir biskup til Brúarár og drekktu honum þar í með taug og steini."

Lík Jóns biskups rak síðar upp hjá Ullarkletti, sem er í landareign jarðarinnar Hamra í Grímsnesi.

Biskup hafði beðið sér lífs, en það kom fyrir ekki. Hann hlaut að deyja. Sveinar hans skyldi einnig fara sömu leið. Á sumum þeirra var jafnvel unnið í kirkjunni. En allir eiga þeir að lyktum að hafa verið dysjaðir í Íragerði, fyrir vestan Brekkutún[61]). Sjást þar enn tvær allstórar þúfur samhliða, sem kallaðar eru Íraleiði. Nokkur ástæða mætti þó þykja til að efast um, að örnefnið Íragerði stafi frá sveinum Jóns biskups, m. a. af því, að sama nafn þekkist annars staðar á Íslandi[62]).

## IV.

Flestir Íslendingar, sem komnir eru til vits og ára, kannast ennþá við Jón biskup Gerreksson. Þeir vita, að hann var sendur hingað til lands með biskupsvaldi

58) Skarðsárannáll getur ekki mótspyrnu klerkanna. Segir hins vegar, að Norðlendingar hafi dregið Jón biskup nauðugan, og hafi hann verið orðinn dasaður nokkuð "af tregðan göngunnar," er þeir komu í stöpulinn. Leyfðu þeir biskupi þá að senda eftir víni til að svala sér á, og biðu meðan hann dragg af silfurskál. (Ann. Isl. útg. Bmf. I, 1, bls. 57-58).

59) Safn t. s. Ísl. I, bls 35.

60) Skarðsárannáll, Annaler Islandici (útg. Bmf.) I, 1, bls. 58.

61) Safn t. s. Ísl. I, bls. 35-36.

62) Sbr. Búnaðarrit 24. árg. bls. 143.

og hvernig ævi hans lauk. Hinir munu færri, sem vita meira um biskup þennan. Kenslubækur þær í Íslendingasögu, sem völ er á eru ágripskendari en svo, að rúm hafi verið til að rekja þar ítarlega sögu þessa manns. Hins vegar er Jón Gerreksson svo aðsópsmikill og ferill hans svo sérstæður í sögu Norðurlandabúa, að sjálfsagt má þykja, að varðveittur sé í heilu líki með Íslendingum. Skilst þá fyrst til hlítar hvílíkan mann biskup hafði að geyma.

Hér hefir verið leitazt við að rekja hin markverðustu æviatriði Jóns biskups. Enn eru þó ótalin kvennamál, sem hann komst í, meðan hann sat á erkibiksupsstóli í Uppsölum. Var það áður en þeim Ludbert Kortenhorst lenti saman en annars eigi óáþekkir málavextir[63]). Verður allt þetta til að styrkja það eindregið, að Jón biskup hafi verið í meira lagi kvenhollur og jafnframt ósvífnari í þeim efnum en hent var á þeim tímum manni í biskupsstöðu.

Ferill Jóns Gerrekssonar skýrir nægilega skapferli hans. En Íslendingar kváðu upp þann dóm yfir honum í lifanda lífi, sem aldrei hefir síðan verið hróflað við. Þeir töldu hann réttdræpan.

Á einum mesta hátíðisdegi ársins gripu þeir hinn útlenda ævintýramann, klæddan biskupsskrúða, fyrir háaltari Skálholtskirkju, færðu hann í poka og drekktu honum í Brúará. Rúmum þrjátíu árum eftir að Svartidauði hafði lamað þessa þjóð, svo sem kunnugt er, fanst þó enn slíkur manndómur í íslenzkum höfðingjum.

Síðari aldir hafa staðfest gerðir þeirra manna, er unnu á Jóni biskupi Gerrekssyni. Fyrir víg hans komu aldrei neinar bætur né hefndir. Frumkvöðlar þess urðu allgæfusamir menn á veraldarvísu og stigu til mannvirðinga.

Þorvarður Loftsson gekk að eiga Margréti Vigfúsdóttur. Efndi hún þannig heit sitt, sem áður er getið. Er kaupmálabréf þeirra gert í Brautarholti á Kjalarnesi 19. okt. árið 1436, og má af því sjá, að þau hafa sett saman bú af miklum efnum[64]). Hafði Þorðvarður fjögur stórbú, eitt á Eiðum í Fljótsdalshéraði, annað á Möðruvöllum í Eyjafirði, þriðja á Strönd í Selvogi og fjórða á Hlíðarenda í Fljótshlíð. Reið hann að jafnaði milli þessara búa sinna með sveinahóp eins og höfðingjum var títt í þá daga. Þorvarður dó árið 1446[65]).

Teitur Gunnlaugsson hafði um langt skeið sýsluvöld, en varð lögmaður sunnan og austan á Íslandi eftir 1440. Hann var talinn höfðingi mikill og varð fjörgamall maður [66]).

Erlendu kirkjuvaldi mun hafa þótt óhægt að ýfast við Íslendinga út af drápi Jóns biskups og sveina hans. Þó sýnist það hafa hreyft lítillega eftirmálum, en raunar

63)Sbr. Hist. Tidskr., bls. 210-11.

64)Sbr. Dipl. Isl. IV. nr. 601 (bls. 562-63).
65)Smævir I, bls. 162-67.
66)Smævir IV, bls. 574-75.

eigi fyrr en löngu eftir dauða biskups.

Þannig veitti Nikulás páfi hinn fimmti Marcellusi Skálholtsbiskupi 1. júní árið 1448 vald til þess að afleysa leikmenn þá, er lagt höfðu heiftugar hendur á Jón biskup Gerreksson og setja þeim hæfilega refsingu[67]). En þessu varð aldrei framgengt, m. a. af því, að Marcellus biskup kom aldrei út til Íslands, þótt hann héldi Hólabiskupsdæmi um þrettán ára skeið. Enda var Þorvarður Loftsson látinn, áður páfabréf þetta kæmi til, og því nokkuð örðugra að koma þar fram hefndum.

En árið 1474 er enn stjakað við málum þessum með þeim hætti, að Sixtus páfi hinn fjórði ritar Sveini biskupi Péturssyni í Skálholti bréf þess efnis, að hann leyfir honum að afleysa þá menn, sem fyrrum (1433) réðu Jóni Skálholtsbiskupi Gerrekssyni bana, þó svo, að þeir, auk vanalegra aflausnarskilmála, láti reisa steinkapellu við dómkirkjuna, þar sem jafnan sé lesnar tíðir fyrir sál Jóns biskups[68]).

67)Dipl. Isl. IV, nr. 750, (bls. 723).
68)Dipl. Isl. V, nr. 653, (bls. 735-36).

En þótt Jón biskup Gerreksson hafi fyr og síðar sætt hörðum dómum manna, hefir minningu hans eigi að síður verið nokkur linkind lögð í þjóðtrúnni.

Þannig er þess getið í biskupatali í Uppsölum, að Jón biskup hafi verið drepinn á Íslandi, en eigi síðan að hafa gert jartegnir (dicitur coruscare miraculis)[69]). Og síra Jón Egilsson getur þess í Biskupa-annálum sínum[70]) að tveir af böðlum biskups, sem einkum höfðu sig í frammi við dráp hans, hafi orðið litlir gæfumenn og skammlífir. Þeir hétu Ólafur og Jón. Um þá var þetta kveðið:

"Ólafur hinn illi
biskupa spillir,
þó gerði Jón en verra
hann sá ráð fyrir herra."

Af erindi þessu má marka, hvernig þjóðtrúin hefir litið á dráp Jóns biskups Gerrekssonar. Enda bætir síra Jón Egilsson því við um Jón þann, er varpaði biskupi í Brúará, að hann hafi engan frið haft í gröf sinni eftir dauðann og því gengið aftur.

69)Dipl. Isl. V, nr. 15, (bls. 12).
70)Safn t. s. Ísl. I. bls. 35.

SKAMMSTAFANIR:

*Bps. Bmf. I*: Biskupasögur (útg. Bókmentafélagsins) fyrra bindi, Kh. 1858.

*Dipl. Isl. IV, V, VIII*: Diplomatarium Islandicum (Íslenzkt fornbréfasafn) fjórða, fimmta, áttunda bindi.

*Hist. Tidskr.*: Historisk Tidskrift utgiven af svenska historiska Föreningen genom E. Hildebrand, Fjortande Årgången, Stockholm 1894.

*Safn. t. s. Ísl. I*: Safn til sögu Íslands og íslenzkra bókmenta fyrsta bindi; Kh. 1853-56.

*Smævir I-IV*: Sýslumannaævir eftir Boga Benediktsson á Staðarfelli. Með skýringum og viðaukum eftir Jón Pétursson og Hannes Þorseinsson fyrsta og fjórða bindi; Rv. 1881-1884 og 1909-1915.

*Höf.*

# Ævarrskarð.

Eftir *Erlend Guðbrandsson frá Mörk.*

Það var af hendingu að eg rakst á "Árbók hins íslenzka Fornleifafélags" fyrir árið 1923, þar sem þeir deila um bæjarnöfnin Dr. Finnur Jónsson í K.höfn og landsskjalavörður Hannes Þorsteinsson í R.vík. Ástæðan, sem dró mig til að lesa bæjarnafna skýringarnar, var ekki sú að þeir lærðu menn stóðu á öndverðum meið í sumum skýringunum, heldur lofsverð viðleitni þeirra á því að leiðrétta villur þær og latmæli er skilningsleysi fólks eður hugsunarleysi hefur skapað um aldirnar síðan bæjarheitin urðu til.

Einkum þar það eitt bæjarheiti og skýring þes ,er vakti eftirtekt mína; það var bæjarnafnið Litla-Vatnsskarð í Engihlíðarhreppi í Húnavatnssýslu.[1]) Getur skjalavörðurinn sér til að þar sé landnámsjörðin Ævarrskarð. Hann gerir svo grein fyrir hvernig hann álíti að nafnið á löngum tíma hafi smá breyzt svo, að úr Ævarrskarði sé nú orðið Vatnsskarð. Samt slær hann þessu ekki föstu og álítur að fyrst beri að rannsaka þetta enn ítarlegar (t. d. um landnám Ævarrs, staðhætti o. fl.)

Í árbók Fornleifafélagsins 1924 bls. 32—33 kemur þetta umtalsefni fyrir aftur í ritgerð skjalavarðarins til Dr. Finns og kemst hann þar að sömu niðurstöðu og áður, er hann byggir á sögum kunnugra manna um landnám Ævarrs; en að síðustu, og að því er honum skilst til endilegrar áréttingar að Ævarrskarð gamla sé það sama og nú er kallað Vatnsskarð, tjáir hann sig hafa fundið handrit í Landsbókasafninu með örnefnaskýringar úr Húnavatnssýslu ritaðar um 1871 af Jóhannesi Guðmundssyni á Gunnsteinsstöðum. Hann segir Jóhannes geti þess að ýmsir hafi verið að brjóta heilann um hvar Ævarrskarð hið forna hafi verið, og segir að flestir hafi hallast að Litla-Vatnsskarði, og færir til sem sönnun þess, að sá bær hafi verið fluttur, vegna þess að hinn gamli hafi farið af fyrir skriðufalli—"en þar sem gamli bólstaðurinn hafi verið, heiti enn í dag þ. e. 1871 *Evarrstóptir.*" Þetta þykir skjalaverðinum merkileg upplýsing, og kveðst ekki síðan vera í minsta efa að þar hafi verið bústaður Ævarrs, og hvergi annarstaðar, og segir það skifti engu máli hvort þetta *Evarrstópt-*

---

1)Þrjú bæjarnöfn úr Vindhælishreppi bjóst eg við að sjá lagfærð annað hvort í jarðamatsbókinni nýju eður þessum bæjarskýringum, en hvorutveggja brást, það voru bæjaheitin Ásbúðir, Mánavík og Mánaskál, í hreppsbókum Vindhælishrepps, sem byrja um 1793 og fram til 1830 stendur Mávabúðir, Mánavík og Mánaskáli og þykir mér líkindi til að þau séu réttari. Mánaþúfa er og örnefni á Skaga og hefur svo haldist frá ómunatíð.

*ir* sé nú gleymt eða ekki, þar sem það hafi verið kunnugt þar í nágrenninu fyrir rúmum 50 árum, niðurstaðan sé því sú, að algerlega sé óhætt að strika burtu vafamerkið, er hann í fyrri grein sinni hafi sett til vara.

Þessu lík er meining skjalavarðarins í nefndum ritgerðum, er gefa efni til þessara lína.

Þegar eg var unglingur, heyrði eg sagt frá því að mönnum hefði ekki komið saman um hvar Ævarrskarð hefði verið til forna; nokkrir ætla það verið hafa Bólstaðarhlíð, en aðrir, einkum Jóhannes Guðmundsson, að það væri Litla-Vatnsskarð. Rök fyrir þessum skoðunum heyrði eg ekki og við það sat; þetta mun hafa verið um 1873.

Síðan hefi eg ekkert heyrt um þetta, þar til eg sá þessar greinir skjalavarðarins. Merkilegast þótti mér handrit Jóhannesar, og helzt þessi setning: "en þar sem bólstaðurinn gamli hafi verið, heiti enn *Evarrstóptir*," og litlu ómerkara þótti mér það að Jóhannesi var kunnugt um að bærinn Ævarrskarð var f l u t t u r úr skriðuhættu. Sannleikurinn er sá, að eg fyrir mitt leiti þarf sterkari sannanir en þessa skýrslu Jóhannesar, meðan eg veit ekki á hve réttmætum rökum hann byggði hana, eða hvaðan kom honum þessi saga um bæinn Ævarrskarð í landi Litla-Vatnsskarðs? Eru nokkrar sannanir fyrir því, að hann hafi átt kost á að sjá það í gömlum skrifum, sem aðrir ekki þektu eða þekkja? Eða fór hann eftir munnmælasögum, sem þá hefðu verið almenningseign, og því öllum kunnar í nágrenninu? Eða var þessi skoðun byggð á hans eigin rannsókn að þarna væri *Evarrstóptir* og loks: Var svo þessi niðurstaða samkvæm anda og orðum Landnámu? er mun vera það helzta ef ekki það eina, sem hægt er að styðjast við í þessu efni, hversu sagna fá sem hún kann að þykja.

Helzt skilst mér blærinn á skýrslu Jóhannesar sá, að hún sé fremur bygð á munnmælum heldur en fornum skjölum, og sé það réttur skilningur, gjöri eg mig ekki ánægðan með hana, nema því að eins að hún ekki komi í andstæðu við orð Landnámu, eins og eg tók fram áður.

Ef hann byggði álit sitt á fornum skrifuðum fræður, kemur mér það undarlega fyrir, að hann ekki vitnaði til þeirra í skýrslu sinni, málinu til styrkingar, og ef hægt var að sanna hvar Ævarr eða Evarrstóptir voru, og vegna hvers bærinn var fluttur. Um hvað var þá þráttað? Það er einmitt þrætan, sem sannar það bezt að enginn eða hvorugur málsparturinn, gat sannað nokkurn hlut, heldur byggðu álit sitt á munnmælum í breyttum útgáfum, og þessvegna var hægt að þræta. Eg held helzt eg vildi líta svo á, að enginn hefði gert nokkra ítarlega tilraun til að leita uppi Ævarrskarð, og allir lifað á munnmælum um langan aldur og látið þar við sitja.

Eftirtekta verð er neðanmáls skýring skjalavarðarins um Sigmund Helgason í Köldukinn, sem er uppi 100 árum fyrir Jóhannes. og hefur verið öllum staðháttum kunnur, að hann heldur að Strjúgstaðir hafi heitið Ævarrskarð til forna. Ekki hefur hann þekt Evarrstóptirnar í Vatnsskarðslandi.

Er nú víst, að sagan um skriðuna, sem á að hafa tekið af bæ Ævarrs, hafi geymst óbrjáluð sem þjóðsaga allar götur síðan í 8—900 ár, eða hvað sem það var, eða er það sama sagan og fylgir svo mörgum gömlum eyðibýlum, t. d. Karlastöðum í Langadal; Helgastöðum á Víðirdal, og skriðunni, sem sagt er að eygðilegði Skíðastaði í Vatnsdal og stýflaði Vatnsdalsá. Jafnvel var það trú manna fram um miða s.l. öld að Vatnsdalshólarnir væru eftir þá skriðu. Alþýða manna á Íslandi þekkti betur steinatök Grettis Ásmundarsonar heldur en ísaldarinnar, því var það oft að hólarnir og hæðirnar, voru álitnar gamlar skriður, ef upp undan sáust skörð í fjöllin til jarteikna, og og var ekki lítið að lesa fyrir 70 árum og þar fyrir, er fræddi alþýðuna um tröllatök ísaldarinnar á Íslandi? og var nú öldungis víst að Jóhannes, þó greindur væri, hafi í þeim efnum ekki verið barn sinnar samtíðar, eins og aðrir?

Um fram alt má enginn, sem leita vill eftir bæjarstæði Ævarrs gleyma því, að Ævarr bygði *í* Ævarrskarði. Landslagi verður því að vera svo háttað í Litla-Vatnsskarði ef það skal Ævarrskarð heita, að það hafi haft öll þau skilyrði, er rausnarbýli sómdi og annað umhverfi eftir þörfum. Í dalahlíðum þarf ekki að leita, og hvergi nema *í* skarði.

Að norðan verðu í Litla-Vatnsskarði sézt nú fyrir tóptum í þremur stöðum. Vestast sézt fyrir tóptarbrotum vestan í Selgilsskriðunni. Kemur manni í hug að þar hafi einhverntíma staðið sel samkvæmt nafninu, en hvergi verður þar vart við túngarð eður stærri tóptir er gefi hugboð um bæ Ævarrs. Norðar í skarðinu er Móbergssel með sínum mannvirkjum. Ekkert er þar heldur er gefi von um að hitta fornbýlið Ævarrskarð. Þriðja tóptin er á Moldgilsgrundinni, miðja vega frá þröskuldinum í Skarðinu og ofan að Víðirdalsá á Víðirdal, en hún er svo lítil, að ekki er hægt að taka hana til greina helzt að sjá, að þar hafi einhvern tíma verið hlaðið utan um heyhrúku. Að sunnan verðu í Skarðinu eru og tóptir á þrem stöðum. Sú austasta er í Tjarnarhólunum. Það er sýnilega gömul fjárrétt. Hefur þar aðeins þurft að hlaða dyrakampa um þvera valllendislaut milli tveggja mela, og stinga úr brekkunum á þrjá vegu. Rétt þessi mun hafa tekið 700—1000 fjár. Þá eru smátættur fyrir vestan Illagils-grundina, fast við ána, gátu kannske verið selkofar. Þriðja tóptin er fyrir neðan Hraunið á Stekkjargils-grundinni.

Sjáanlega gamalt stekkjarbrot. Þetta eru allar leifar gamalla bygginga, sem nú sjást í Litla-Vatnsskarði, og hvergi sjást merki til að þar hafi tún verið.

Í landareign Litla-Vatnsskarðs er þó ein tóptargirðing ótalin, ef eg man rétt. Hún er sunnan í Hryggjunum niður undir flóanum út frá Vatnsskarðsbænum. Hafi það nokkurntíma verið mannabústaður þá sýnist hann frekar óhöfðinglegur. Vatnsbólið hygg eg hafi verið í Kattaraugunum í flóanum, eru það óþokka vatnsker með uppsprettuvatni, og hættuleg mönnum og skepnum allan veturinn. Mig minnir eg heyrði það sagt að Jóhannes ætlaðist til að þetta væru *Evarrstóptir*, þó nafnið gæti ekki fest við þær. Finnst mér þetta mjög svo óbeysin hugmynd um bæ Ævarrs og hann sjálfann, er Landnáma telur einn af átta merkustu höfðingjum, er námu land í Norðlendingafjórðungi, og um leið gengið fram hjá orðum sögunnar er segir að Ævarr byggði í Ævarrskarði.

Það er nú af Hryggjum þessum að segja, að þar eru engar líkur fyrir skriðuhlaupi á tóptarstæðið, og miklu hættara við snjóflóði á Vatnsskarðsbæinn þar úr gilinu. Annars tel eg víst að jarðfræðingar álitu Hryggina myndaða af framakstri úr Kötlunum á ísöldinni.

En hvar var þá Ævarrskarð?

Það er viðeigandi að fletta upp Landnámu, og heyra hvað hún segir; þar segir svo:

"Ævarr hét maðr son Ketils helluflaga, ok Þurðíðar dóttr Haraldar konungs gullskeggs úr Sogni. Ævarr átti ..... þeirra son var Véfröðr. Synir Ævarrs laungetnir voru þeir Karli ok Þorbjörn strjúgr ok Þórðr mikill. Ævarr fór til Íslands úr víking, ok synir hans aðrir en Véfröðr, með honum fór út Gunnsteinn frændi hans ok Auðólfr ok Gautr, en Véfröðr var fyrir víkingu. Ævarr fór upp með Blöndu at leita sér landnáms, en er hann kom þar sem heita Móbergsbrekkr, setti hann niðr stöng háva, ok kvaðst þar taka Véfröði syni sínum bústað, síðan nemr hann Laugadal allan upp þaðan, ok svo þar fyrir norðan háls. Þar skifti hann löndum með skipverjum sínum. Ævarr bjó í Ævarrskarði ........ Véfröðr gerði bú at Móbergi, sem ætlat var en Þorbjörn strjúgr á Strjúgsstöðum, en Gunnsteinn á Gunnsteinsstöðum. Karli á Karlastöðum. Þórðr mikill á Miklastöðum. Auðólfr á Auðólfsstöðum. Gautr byggði Gautsdal; hann var einhentr."

Þetta er það eina, sem Landnáma hefir að bjóða, sem hægt er að styðjast við þegar leita skal eftir Ævarrskarði. Það má ganga út frá því sem sjálfsögðu, að einhver fyrsta framkvæmd Ævarrs, eftir að hann var stiginn á land, hafi verið að ná fundi manna er þegar voru búsettir, og fá greinilegar fréttir, hvar og hver lönd voru þá numin, og hvar ónumin. Honum var sagt að öll lönd væru

numin vestan Blöndu, en Langidalur hið efra ónuminn. Þar næst hefir hann rækilega kannað þetta ónumda land. Hann hefir gert sér sem ítarlegasta grein fyrir kostum þess og ókostum, og afstöðu allri, því á þeim nána kunnugleik varð að byggja sanngjörn skifti, milli sona hans og vina; jafnframt hefir hann haft hliðsjón af skaplyndi þeirra, og hverskonar búmenn hann hugði þá mundu verða, og hve umsvifa miklir, og mikið undir að friður héldist innan vébanda landnámsins.

Nirztur er hið væntanlega foringjaefni Véfröður sonur hans þá Þorbjörn strjúgur launsonur, þá Gunnsteinn frændi hans, þá launsynir hans tveir Karli og Þórður mikill. Syðstur er Auðólfur og var þá skipað landi að Auðólfsstaðaskarði. Nú mætti ætla að Ævarr héldi áfram að skifta landinu fram Langadalinn, og gæfi Gaut land þar sem eru Æsustaðir, en svo er ekki, hann bersýnilega vill engan fram fyrir Auðólfsstaðaskarð, og því setur hann Gaut niður þar sem síðan heitir Gautsdalur er það efst í Auðólfsstaðaskarði að norðan, og telst til Laxárdals.[1])

Í fljótu bragði mun kunnugum mönnum virðast ýmislegt eftirtektavert við þessi landaskifti Ævarrs. Í fyrsta lagi að Véfröður sonur hans er á norður jaðri landnámsins, og mun það stafa af því, að hann á að vera varnargarður gegn Holta og öðrum er ójöfnuð kynnu að sýna þessum nýkomnu landnemum. Annað, að Gunnsteini er skipað svo til sætis að tveir synir Ævarrs eru honum til hvorrar handar og er það engin tilviljun. Gunnsteinn hefir verið spakur maður og vinsæll, og honum treyst að standa svo á millum bræðranna, að engin vandræði hlytust af. Vinátta hefir og verið mikil milli Gunnsteins og Þorbjarnar strjúgs, segja munnmælin, að þeir séu heygðir gegnt hvor öðrum í miðju Strjúgsskarði, þar sem síðan heita Haugar. Rennur Skarðslækurinn á milli[2]). Í þriðja lagi, hvað þeir sitja þröngt landnemarnir, og mun sú orsök að félagslífið var þá skemtilegra, og einkum að landið var lítið, þegar þeim var ekki leyft fram fyrir Auðólfsstaðaskarð en engan mun hafa fýst að flytja upp í vetrarríkið á Laxárdalnum, en þar voru sumarhagar ágætir fyrir búsmalann, og þar skyldi selin standa, og all-líklegt að þá hafi Blanda runnið vestur undir

---

1)Þrjú örnefni eru kend við Gaut: Gautadalur upp frá bænum, Gautaskálar í Auðólfsstaðaskarði að norðan og Gautavirki austan í hrauninu í skarðinu. Það er á hól ármegin við veginn, þegar neðan skarðið er farið, og fyrst sézt heim að Gautsdal. Býsna ótrúlegt er það að Gautur hafi haft virki svona langt frá bæ sínum 4—600 faðma og auk þess fatlaður og enginn óeirðarmaður.

2)Ekki held eg neitt sjáist nú hvar haugar þessir hafa verið, en að norðanverðu við lækinn hefir verið grafinn grifja allmikil ofan í sléttan lækjarbakkann. Var sagt að þar hefði Natan Ketilsson verið að leita eftir fjársjóðum Þorbjarnar strjúgs, en árangurslaust þó.

hálsinum, og gátu þá verið mikil engjalönd að austan verðu í dalnum, svo sem enn sjást glögg merki til.

Ævarr gefur Véfröði syni sínum mest land. Hann var mikill fyrir sér, og átti að verða sveitarhöfðingi að föður sínum látnum. Móbergsland hygg eg hafi ráðið að norðan, Hvammsskarð meðan það entist, og þaðan austur í Laxá um Sauðadal eður Haugsskarð. Að sunnan hafa ráðið brúnir á Strjúgsskarði að norðan og í Laxá um næsta gil fyrir norðan Strjúgssel. Auk þess held eg Ævarr hafi gefið honum sérstakt selland þar sem nú er Litla-Vatnsskarð og Móbergssel, en selstöðin hafi með fyrstu verið þar, sem nú er Vatnsskarð, eður á Selgilsgrundinni. Seinna, löngu, hafi svo þessu landi verið skift. Vatnsskarð gert að sérstöku býli, en selstöðin færð norður í skarðið þangað sem Móbergssel er nú. Þetta er þó aðeins getgáta. Strjúgur hefur átt það land er honum fylgir enn í dag,—að meðtöldu sellandinu—Strjúgsskarð að norðan og ofan í Laxá. Stendur Strjúgssel að norðan verðu í Skarðsmynninu Laxárdals meginn. Gunnsteinn hefir átt skarðið að sunnan og austur í Langholt hjá Kattaraugunum, og fram að Seljadal hinum ytri, þar hefir Gunnsteinstaðasel staðið til forna á Seljadalsgrundinni. Karlastaðir, Miklastaðir og Auðólfsstaðir hafa átt land frá ytri Seljadalnum og fram að landi Gauts. Sel þeirra bæja hafa staðið á Seljadalsgrundinni, rétt við landamerkin gegnt Gunnsteinsstaðaseli. Hefir þá lækurinn runnið milli seljanna, en nú fyrir löngu hefir hann þó fært sig þaðan, en uppsprettulind er þar enn í farvegnum, er hefði getað byrgt bæði selin, ef lækurinn var kominn úr þeim farvegi.

Svo sem mörgum er kunnugt, rennur Svartá eftir Svartárdal; endar dalurinn við Hlíðará, sem fellur þar í Svartá. Um þau ármót breytir Svartá stefnu sinni og rennur eftir það í vestur, þar til hún fellur í Blöndu, heitir þá Langidalur norður frá ármótunum, en suður frá þeim heitir Blöndudalur. Til hvaða sveitar telst þá Bólstaðarhlíð? Mundi kunnugur maður skrifa utan á bréf t. d. svona: Bólstaðarhlíð í Svartárdal? eða Bólstaðarhlíð í Langadal? Hvorugt. Heldur Bólstaðarhlíð í Húnavatnssýslu. Sannleikurinn er sá, að enginn getur ákveðið landshlutann frá Hlíðará og ofan að Blöndu til annarshvors dalsins vegna afstöðu sinnar. Það er Bólstaðarhlíðarland.

Sé maður staddur við ármótin Blöndu og Svartár og horfi upp með Svartá til Botnastaða, er ljúfast að skoða þetta landslag sem Skarð, með því þá er lokað sýn til Svartárdalsins vegna króksins á Svartá.

Eg yfirgaf Ævarr út við Auðólfsstaðaskarð. Hafði hann þá skipað mönnum sínum land utan frá landnámi Holta, en ætlaði

engum suður fyrir Auðólfsstaði. Var nú óskift hálfu landnáminu. Heldur hann svo suður eða fram um Æsustaðaland, sem nú er og Langadalinn á enda fram í ármót en með því honum þótti ekki gjörlegt að setja sig niður með fram Blöndu fyrir bratta fjallsins, þá snýr hann upp með Svartá, og byggir þar, og kendi landsvæðið og bæ sinn við sig og kallaði Ævarrskarð.

Hér var heldur ekki um tilviljun að ræða. Hann hafði kynt sér landnámið ítarlega, svo sem hyggnum manni sómdi og ætlaði sér ekki frekar venju að bera skarðan hlut frá borði í skiftunum, það reyndist og svo enn; þarna var sameinað, einhver veðursælasti blettur sýslunnar og fegursti. Þarna voru skógivaxnar hlíðar sbr. örnefnið Skógarhlíð og töðugresis rjóður. Þarna gat hann haft tún svo mikil sem honum líkaði. Þarna gat hann ruðst um fast í búskapnum og borið ægishjálm yfir landnáminu, eins og áður í víking. Auk alls þessa, var hann þarna í þjóðbraut og kom það sér vel að geta fengið greiðar fréttir af öðrum héruðum, og jafn greiðlega' gat borist út orð af höfðingsskap hans og rausn, og síðast: Með þessu voru þeir feðgar sinn á hvorum enda landnámsins eins og sverð þess og skjöldur gegn þeim er á þá kynnu að leita í framtíðinni, og máttu það teljast hyggindi, þar sem allir voru meiri og minni yfirgangsseggir og vígamenn, og höfðu það sem atvinnu.

Ekki kæmi mér það á óvart, þó Ævarr hefði reist bæ sinn á öðrum stað, en Bólstaðarhlíð stendur nú, og séu nokkrar tóptir fyrir vestan Hlíðarklifið þætti mér alls ekki ótrúlegt að það væru leifar af bænum Ævarrskarði, en fénaði hefði með fyrstu verið haldið austur í Skógarhlíðinni, og hún svo fengið nafnið af bælum hans eða bólum, og síðar þegar bærinn var færður, fyrir nú löngu gleymdar ástæður, hafi nafn bæjarins ekki verið látið fylgja, heldur tekið upp það nafnið, er þá var komið á, vegna bælanna—Bólstaðanna í Hlíðinni.

Ævarr gefur skipverjum sínum lönd upp um Skörð og Laxárdal norður til Litla-Vatnsskarðs. Þar eru jarðirnar Mörk, Hvammur Mjóvidalur, Þverárdalur og Kálfárdalur? Hvað landnámið náði langt fram er ekki auðvelt að ákveða, en líkur til að það hafi náð suður til Krókskarðs, og til móts við landnám Þorkels Vigners er nam Vatnsskarð og Svartárdal.

Engan vafa tel eg á því að Ævarr hafi haft undir alt Hlíðarfjall.

Með þessum hætti bjó Ævarr í Ævarrskarði svo sem segir í Landnámu.

— — — —

Þegar eg hafði skrifað framanritaða grein, skrifaði eg greindum manni og skilgóðum, Klemenzi Jónassyni í West-Selkirk, er alist hafði upp til fullorðins ára í Ból-

staðarhlíð, og spurði hann eftir hvort sæist fyrir gömlum tóptum fyrir vestan Hlíðarklifið. Hann svaraði því með ítarlegu bréfi, og segir að þar sjáist greinilega fyrir tóptum og túngarði, en af því verði ekki dregin ábyggileg ályktun, því þar hafi lengi verið stekkur frá Bólstaðarhlíð, en túngarðurinn bendi helzt á, að þar hafi verið smábýli eða kot.

Að vísu hefir Svartá getað brotið nokkuð af túninu en tæpast svo að nemi miklu ummáli og má því vel vera að Bólstaðarhlíð standi þar sem býli Ævarrs stóð til forna.

Hr. Kemenz segist vera mér samdóma um að landshlutinn með Svartá frá Hlíðará til Blöndu, sé það sem áður eður með fyrstu var nefnt Ævarrskarð. Þá getur hann þess, að þegar hann var drengur hafi hann heyrt Jóhannes Guðmundsson halda því fram að Litla-Vatnsskarð væri það sama og hið forna Ævarrskarð, en alla aðra að það væri Bólstaðarhlíð, og þar á meðal Friðrik Stefánsson alþingismann frá Vallholti í Skagafirði.

Kemur það mjög vel heim við neðanmálsgrein skjalavarðarins, er hann vitnar til ættartölu safnsins úr Húnavatnssýslu, og segir að ritarinn setji nafnið Ævarrskarð sem skýringar orð yfir Bólstaðarhlíð.



# Íslenzkir vordagar.

Brosir yfir bygðum,
brúnafagur,
sviphreinn sumarboði,
sólhlýr dagur.
Kyljan andar ilmi
ungra blóma;
stráðar geisla gulli
grundir ljóma.

Lóur hefja lofgjörð
loftið titrar
þrungið sætum söngvum.
Særinn glitrar;
felur sér í faðmi
fjölda mynda:
gróðurgrænar hlíðar,
glæsta tinda.

Harðbrýnd hamratröllin
hýrri standa;
helgiblær um hauður
hafs til stranda.
Fold í vorsins faðmi
fagurt dreymir;
alt, sem anda dregur,
angri gleymir.

Undraraddir öllum
eyrum hljóma;
hjartslög lífs má heyra' í
hvísli blóma.
Þeim, sem augu eiga,
opnir standa
djúpir dýrðarheimar
dularlanda.

*Richard Beck.*

# Frá Íslandi 1927.

Eftir *Guðmund Friðjónsson.*

Tímarit Þjóðræknisfélags Íslendinga hefir óskað eftir, að eg lýsti ísl. sveitalífi á víð og dreif, eins og það er nú, eftir því sem eg ber skynbragð á og hefi máttерni til. Eg vil freista þess, þó að eg finni vanmátt minn. Einkanlega brestur mig þekkingu til fullkominnar frásagnar eða þeirrar lýsingar, sem er jafnvíg um allar sveitir. Eg þekki bezt lífið í Norðurlandi að sjón og sögusögn. En þó mun láta nærri, að lífið sé svipað og keimlíkt í öllum sveitum Íslands. Svo sem nærri má geta verður frásögn mín fremur ágrip, en svo nákvæm greinagerð, að hún taki út í yztu æsar. Eg býst við, að Vestur-Íslendinga fýsi að heyra um lífið í gamla landinu í hálfyrðum, þó að ekki takist betur en svo. Eg get sagt það með fullri vissu, um okkur Austur-Íslendinga, að við viljum heyra af högum bræðra vorra og systra vestur í álfunni, ágripsfréttir heldur en alls engar frásagnir. En það er þó enn betra, að fá fullan sanninn, ef þess væri kostur. Vandinn er sá, fyrir mig, að velja og hafna. Sá vandi er að vísu fyrir höndum hvers manns, sem lætur penna hlaupa um pappir. Hann á þá kvölina og um leið völina, að skera úr í snatri, hvað hann hirðir af hugsunum sínum, og hverjar hann rekur á dyr eða út í "ystu myrkrin"; því að enginn má láta alt flakka í ræðu eða riti, sem í hugann kemur. — Nú hefi eg þá fjölina til að fljóta á vestur yfir álinn, í þetta sinn, að ritstjóri Tímaritsins hefir gefið mér bendingar um kafla eða atriði frásögunnar. Sú forsjálni hans og búmenska—svo að eg noti það gamla landsvenjuorð, dirfði mig til þess, að reyna þó að timbra saman pistli þeim, sem nú gefur á að líta. Hann hefir með þessu móti lagt hamingju sína í skaut mitt og ætti sú hýra að draga mig að landi.

*Sveitarstyrkur.*

Vera má að sumum lesendum þessa máls þyki kynjum gegna, að eg byrja á þessu efni. Orsökin er þessi: "að hamra skal járn meðan heitt er." Eg las í blaði nýlega, að s. l. ár hefðu Norðmenn tekið upp það bjargráð við atvinnulausa fátæklinga að styrkja þá til Vesturheimsferðar, með fátækrafé=sveitarstyrk. Þess háttar framlög voru af höndum látin í ungdæmi mínu og mæltust illa fyrir á seinni skipunum. Sumir þjóðkunnir gáfumenn (t. d. E. B. skáld) hafa dæmt harðlega þessar gömlu ráðstafanir. Eg held að þær hafi verið viturlega fram-

kvæmdar. Þessir menn úrræðalausir hér heima, og gersamlega vonleysumenn. Svo virtist, sem örbirgðin gengi í ættir. Svo þegar þessir auðnuleysingjar, sem svo vóru nefndir, komu vestur, óx þeim ásmegin svo að kalla og þeir tóku til að leggja sig fram á nýjan hátt, sér og sínum til bjargar. Og margir þeirra urðu bjargálnamenn og börnin fram yfir allar vonir. Hér heima mundi þessi lýður hafa "lapið dauðann með krákuskel," svo að eg noti algengt orðtæki. Börn sumra umkomulausra foreldra, sem fluttu vestur og höfðu frá engu að hverfa, hafa getið sér góðan orðstír í Vesturálfu heims. Og sá orðstír fer vaxandi, ef að líkindum lætur. Eg drep á þetta í upphafi máls míns vegna þess, að sú fátækt, sem lá við sveit eða var á hreppnum, var aðal undirrótin að Vesturheims ferðum frænda vorra síðasta fjórðung 19. aldar. Útþrá og ævintýralöngun var önnur grein eða undirrót þeirra þjóðflutninga vestur um hafið.

Í ungdæmi mínu var sveitarstyrkur veittur þannig, blásnauðum barnamönnum, að "*þeim var lagt heim,*" borgað með ómögum af sveit. Nú er þess háttar styrkur fágætur beinlínis. En reyndar eru þurfamenn til, þó að breytt sé um nöfnin. Sjúkrastyrkur er kominn í staðinn. Honum er þannig háttað, með lögum, að sýslurnar greiða með berklaveikum mönnum miklar fúlgur fjár, en það fé gjalda sveitarfélögin í sýslusjóðina. Hrepparnir stynja nú undir þessum gjöldum og fá trauðlega undir þeim risið. Þau eru orðin miklu hærri nú, en fátækrastyrkur varð hæstur í mínu ungdæmi á árunum eftir 1880, sem kölluð eru ísaárin og harðast léku Norðurland, t. d. a. t. Svo virðist sem berklaveikin vaxi í skjóli mannúðar og góðvilja. Þau rök bendi eg á þessu máli mínu til stuðnings, að þau börn, sem mest er malið undir og minst eru hert með vinnuhörku og útivist, liggja flötust fyrir hvíta dauðanum. En þær fjölskyldur, sem hörku beita við sig og sína, sleppa helzt við þessa landplágu og verða svo að róa undir hinum dauðýflunum. Fólkið, sem lifir eftir gömlu lögmáli matarhæfis og vinnubragða og klæðnaðar, virðist harka af sér þessa lævísu veiklun, enda þótt húsakynni megi kalla ábótavant. Nú er sjúkrastyrkur þessi þeginn kinnroðalaust, þó að á hreppnum lendi að vissu leyti. Því að sýslusjóðsgjöldunum er jafnað niður á einstaklinga hreppanna " eftir efnum og ástæðum," þ. e. a. s. á sama hátt, sem fátækrastyrk var fyrrum jafnað. Svona breytast tímarnir og mennirnir sömuleiðis.

*Ábyrgðirnar.*

Þá hafa ábyrgðirnar og samábyrgðirnar sína sögu að segja. Fátækragjöldin, útgjöldin þau á efna-bændunum fyrrum voru leikur og skemtun í samanburði við þá alvöru, sem af ábyrgðunum

hefir stafað og stafar enn. Það sverð hangir yfir höfðum fjölda bjargálnamanna, en er fallið að hálsi margra. Sú saga mun ganga um öll lönd, ef að líkindum lætur. En hún sverfur jafnfast að Austur-Íslendingum, þó að svo kunni að vera, að samskonar saga gerist í hinum löndunum. Það lítur sæmilega út á pappírnum, að fáir (fjölskyldu)menn þiggi af sveit á Íslandi nú á dögum. En þegar gætt er betur að og kurlin tínd til kolagrafarinnar, kemur í ljós, að fjöldi manna í landinu er upp á náunga sína kominn. Og sumir þiggendanna eru einhleypir menn, eigi allfáir heilbrigðir og gætu séð sjálfum sér farborða, ef vilja og viðleitni sýndu til dáða og drengilegs lífs.

*Vinnubrögð.*

Verkamenn og forkólfar þeirra tala um og heimta vinnudaginn styttan. Gott væri, ef það gæti tekist. Sífelt stríð kyrkir sálina eða beygir; tómstundir og hvíld myndu lyfta henni og gera hana glaðari en nú er hún víðsvegar.—Íslenzkir sveitamenn eiga við sjálfa sig um vinnudagslengdina og áframhaldið, og konur þeirra slíkt hið sama. Nauðsynin sker úr þessum málum á þann hátt, að alla dag þarf að vinna svo lengi sem vakan hrekkur til, þar er ekkert undanfæri. Bændurnir afla því að eins þeirra heyja, sem lífs nauðsyn þeirra krefur, að unnið sé vel og lengi hvern dag, sem grasið stendur. Og konurnar mega ekki sofa nægju sína, ef innanbæjarstörfin eiga að komast í framkvæmd—þau allra brýnustu. Hjálparhöndum bændanna og húsfreyjanna fækkar stöðugt. Unga fólkið fer í skóla á haustin og í vetrarvistir, í kaupstaði fara stúlkur til hússtarfa, og karlar til sjávar. Af þessum ástæðum brýtur nauðsyn vinnunnnar lögin þau, sem mannúð mentunar og linkindar hygst að setja. Eigi vil eg draga fjöður yfir þau sannindi, að meiri vinnu er nú afkastað með jöfnum mannafla en fyrrum var og stafar sá viðauki af bættum áhöldum og skynsamlegri vinnuháttum. Þeir sem á sjóinn sækja, eru nú flestir hættir áraburði. Vélarnar ýta bátum og skipum móti stormi og straumi. En sjósóknin er nú svo hlífðarlaus, vegna þess hve langdrægt er á miðin, að nálega gengur sólarhringur heill í mörgum viðistöðvum til hvers róðurs—þó ekki sé *róið*. — Við þetta harðræði, áreynslu og svefnleysi, búa þeir, sem eru húsbændur sjálfra sín á útveginum, eins og hinir, sem eru undirgefnir útvegsmenn. Þarna skapar nauðsynin, eins og við heyskapinn í sveit, hlífðarleysið. Þessir menn sofa helzt á leiðinni út á mið og á heimleið af miðum, þannig að sjómennirnir skiftast á um að sjá um skipið. Landmennirnir, þeir, sem gera að afla og beita línu, verða einnig að vinna miklu lengur á sólarhring hverjum, en þeir menn telja sæmilegt, sem kalla sig alþýðuleiðtoga.

Annars er þess að geta, að sjómenn fá hvíldartíma, þegar þær árstíðir eru, sem engar gæftir eða afla gefa. Þá geta þeir notið hvíldar og skemtana. En sveitamaðurinn má aldrei um frjálst höfuð strjúka að því leyti. Fjárgeymsla og önnur heimilisstörf kalla á hann hverja stund, svo að honum eru engin setugrið gefin. Vinnutími hans er 12—14 klst. allar árstíðir, og ekki eru konurnar betur settar.

Eg gat um bætt vinnubrögð. Nú eru hestar meira notaðir en áður. Kerrur eru á flestum bæjum og sláttuvélar allvíða, þar sem engjum háttar svo að þeirra njóti. Þá má nefna "rakstrarkonuna" svokölluðu. Hún er svo gerð, að grind er á ljánum, sem sópar grasinu úr ljáfarinu í múginn þar sem skáraslátt er hægt að fremja, þ. e. a. s. á sléttlendi votu. Þetta tól er mesta þing og þó eigi alment enn nema í sumum sveitum. Prjónavélar ryðja sér til rúms, eldavélar og ofnar sömuleiðis. Nú dreymir alþýðu um raflýsingu og rafsuðu. Ef þess háttar hlunnindi kæmu í sveitabæina, væri bætt úr feikna böli alþýðu. Efnaskortur stendur fyrir þeirri umbót, enn sem komið er. En eigi er um að kenna deyfð né drunga. Þetta er hægfara að vonum, en þokast þá áfram, ef vel er á haldið því málefni.

Nú er svo komið í einni sýslu landsins. Skaftafellssýslu, að alþýðusmiðir eru orðnir færir um að útbúa heimilin raftækjum og þar er lausn málsins að því leyti, að þeirra manna frammistaða er og verður miklu ódýrari en hinna, sem lærðari eru og frekari til fjárins, vegna lærdómsins mikla, sem æ er dýr á sér, þegar hann er einn um hituna. Þetta mál er mesta menningarmál sveitanna og miklu meira, en hitt, að fá varptól raddanna inn á hvert heimili, þó að það væri fýsilegt fyrir forvitnina. Það er munaðarmál. En raflýsingin er lífsnauðsyn og rafsuðan slíkt hið sama.

*Heimilisiðnaður.*

Í ungdæmi mínu um 1880 var á sveitabæjum unnið úr ullinni til heimilisþarfa og svo selt smáband í kaupstaði. Fólkseklan hefir dregið úr þessum iðnaði að miklu leyti. Vefnaður heimilanna hefir rénað, enda eru nú prjónavélar teknar við að gera sokka og nærföt. Og verksmiðjur tæta í utanhafnarföt að sumu leyti. Enn eru tætt reipi og net riðin, þar sem veiði er. Prjónafötin og sokkarnir þeir hafa sína kosti og galla. Kostirnir eru þeir að fljótlegt er að koma upp þessum flíkum og fyrst í stað eru þær skjólgóðar. En við slitið eru þær skjóllitlar og ilt að bæta þær, slitna á þann hátt, að alt gliðnar og verður eins og sía. Enn er að nefna skóna. Þeir eru úr skinni heimagerðir að fornum sið. Og þó eru gúmmískór að ryðja sér til rúms. Þeir þykja þó gallagripir að því leyti, að fótrekja stafar af þeim, vegna þess, að gufan, sem út úr fótunum

rýkur, kemst ekki á burt og sezt að í sokkunum. Auðveldara er að hirða um þessa skó, en skinn-skóna og mun mega telja þá til bóta, þrátt fyrir annmarkana, sem þeim fylgja.

Margir sveitamenn smíða heyskaparáhöld sín, orf og hrífur, hestajárn og enn kunna margir að bregða gjarðir. Mikla stund leggja bændur á girðingar úr gaddavír og eru þær þó tvíeggjað sverð, þ. e. a. s. dýrar og endast verr en vel. Fénaður treður sér milli strengjanna, þegar þeir slakna. En það er þeirra háttur að láta undan snjóþunga og svo þunga sjálfra sín. Vírinn ruddi sér til rúms á fáum árum. En heldur minka vinsældir hans við kynninguna. Ryðbruni herjar á vírinn, þó hægt fari og á allan hátt er hann gallagripur, og minni vörn í honum en ætlað var í fyrsta kasti.

*Aukagetur*

Sveitabændurnir og þeirra fólk lifir á kvikfénaði svo sem vænta má. En illa gengur að láta afurðir fjárins hrökkva fyrir þörfunum. Ýmsir leita sér að auka atvinnu til hagsbóta. Sumir fara í vegavinnu á vorin, þeir sem lítil bú hafa. Sumir í sláturhús á haustin, þann tíma, sem fjártaka stendur yfir. Sumir og þeir eru reyndar margir, elta rjúpur alt haustið. Sú veiði sýnist vera álitleg, þegar maður fær upp undir 50 á degi og rjúpan selst á 50 aura. Þó fer svo að fáir fitna á fuglaveiði þeirri, nú sem fyrrum þegar málsháttur þessi varð til. Byssa og skotfæri eru dýr, og skóslitið mikið. Þessi veiði er sótt svo geyst, að nærri stappar óðs manns æði, *hlaupið* um fjöll og firnindi, og varla neytt svefns eða matar. Svo er það að telja, að flest öll heimilisverk eru vanrækt, þar sem er fátt um manninn, naumast flutt á tún mykja eða jarðabótum sint. Þó fémunir komi fyrir rjúpnaveiði, ber lítið á því að þeir menn efnist. Þessi aðgangur er sumum áhorfendum gleðilaus. En eigi tjáir um að tala. Eignarréttur manna er bókstaflega fótum troðinn, því að engir hirða um landamerki, er til rjúpna ganga.

Viðskifti sveita- og sjómanna haldast við, að nokkru. Sveitamenn selja hey og mjólk, smjör og þess háttar, sjómenn láta í móti fiskifang, lyfur í hey, grásleppu og rauðmaga. Þessi viðskifti éru til hagsbóta báðum og hafa geng ið erjulaust, þar sem eg þekki til.

*Skemtanir*

Ungmennafélags hreyfingin barst til landsins fyrir hér um bil 25 árum og eru þau um allar sveitir eða svo að kalla. Þau eru til nytsemdar tvímælalaust. Fyrst og fremst hafa þau á skildi sínum hófsemi og bindindi, svo að vín og tóbak er eigi leyft. Æfingar og íþróttir eru hafðar með höndum og taflbrögð. Félögin halda fundi sína all-oft og halda úti blöðum, sem skrifuð eru. Á þann hátt fæst æfing í að fara með orð og hugsun í ræðu og riti. Víða er

lítið um húsrými fyrir þessa fundi einkanlega, þegar fleirum er á fundina leyft, en félögunum sjálfum. Oft er farið svo að úrlausn þeirra efna, að húsaskjól er veitt ýmist á þessum bænum eða hinum, fundirnir færðir til. Helzta skemtun í sveitunum fæst í skjóli ungmennafélaganna. Fundirnir hafa að vísu dansa öðrum þræði og er ekki um það að fást. Félögin bera fyrir brjósti húsabyggingar handa sér og hafa komið þeim upp á sumum stöðum. Þá er þessum félögum ant um heyskapinn. Sumstaðar heyja þau og geyma til vetrar. Sá heyskapur fer fram á einum degi í félagsskap, þar sem engjakostur er. Þá ber það við alloft, að ungmennafélögin slá hjá þeim bændum, sem sjúkir eru um langt skeið, sunnudagskveld, vel úti látið til dæmis. Þessi félagsskapur er vel innrættur og horfir til þjóðþrifa. Hitt er satt, að hann er enn máttar minni en æskilegt væri, og horfir þó til vaxtar og viðgangs.

Ef eg man rétt, var Jóhannes glímu-berserkur Jósefsson einhver allra fyrsti hvatamaður að þessum félagsskap hér í landi, flutti hann frá Noregi til Akureyrar, og þaðan breiddist hann út. Önnur félagsskapar alda, Góðtemplara reglan, kom einnig frá Noregi til Eyjafjarðar, þó fyrri væri—ef eg man rétt að greina. Svo má segja, að Eyjafjörður sé góður lendingarstaður útlendra hreyfinga. Þeim heiður, sem hann eiga skilinn. Og hinum ósæmdin, sem eru valdir að óhamingju lands og lýðs, fyrri og síðar.

*Afkoma alþýðu.*

Löngum var þröngt í búi á fyrri dögum og sést bóla á skortinum í frásögnum annála og árbóka. Vér sem lifðum kringum 1880—ísaárin og harðærið, sem flest fólk flæmdi úr landi, kunnum grein á þeim örðugleikum. Nú lifa landsins börn við allsnægtir í samanburði við það, sem þá gerðist. En sá er þó annmarkinn á nútíðarlífinu, að kviksendi skuldanna er svo að segja hyldjúpt. Þær eru í öllum áttum: í verslunum, kaupfélögum, bönkum og sparisjóðum. Dýrtíðin, sem styrjöldin mikla olli, skapaði þessa hylji, þessi undirdjúp. Þjóðin og börn hennar munu lengi horfa niður í þessi afgrunn, áður en yfir lýkur. Geta vil eg þess, að ýmislegt er nú til í híbýlum almennings, sem vegur að nokkru móti þessu skuldabasli, svo sem bætt húsakynni, eldavélar, ofnar, prjónavélar, spunavélar, skilvindur. En þó er það svo, að örðugt er að ganga og standa uppréttur undir skuldaþunganum.

Margir gerðu sér glæsivonir um kaupfélagsskap og samvinnu. Þau hafa ekki orkað því, að bjarga landslýðnum til hlítar. Frelsið og samgöngubæturnar hafa ekki heldur reynst eins vel og ætlað var. Eitt er það með öðru, sem sligað hefir á síðustu árum bændastétt vora: kaupgjaldið. Dýrtíðin og fall krónunnar ruglaði öllum réttum rökum. Og aldarandinn

gerðist hlífðarlaus, þannig, að hver reyndi að flá náunga sinn í kaupum og sölum. Lausafólkið tók hærra kaup en atvinnuvegirnir þoldu. Það flaug með kaupið út í veður og vind mentunar og skemtana, lifði í glaumi og gleði. En bændur og búþegnar sátu eftir með sárt enni og oft og tíðum ábyrgðina þá, að sjá um börn og skyldulið lausingjanna, sem flugu út í veður og vind, og sveitarstjórnarlöggjöfin batt þeim á herðar. Sú löggjöf er óhræsis mönnum hliðholl, en hinum til þunga, sem sitja um kyrt og græða landið. Áður drap eg á ábyrgðarskelli, sem stafa af glæframönnum og angurgöpum. Þessi sama saga er í Vesturheimi kunn og er á þessi misendi drepið í Landnámu Thórstínu í kafla, sem gamlir höldar hafa ritað um afleiðingar ófriðarins. Enn í dag heimtar lausafólkið miklu hærra kaup en bændur geta greitt. Svo ramt kveður að þessu misendi, að nú í mörg ár hafa bændur og húsfreyjur unnið að búum sínum kauplaust, en kaupafólkið borið frá borði, svo að kalla mætti fullar hendur fjár. Þetta má sanna með augljósum dæmum; sem eru á hverju strái. Þau eru á þessa leið: Ómagalaus, skuldlaus hjón hafa aðeins haldið við nú í mörg ár, og þó tapað heldur en hitt. Þau hafa ekki lagt í kostnað á nokkurn hátt. Hvar er þá þeirra kaup og rentan af jörð og búi?— Það alt fer í kaupgjald og útgjöld. Skattar og skyldur eru óbærilegir í landi voru og mun sú óvættur vera landlæg í flestum löndum. Þessi árin geldur þjóðin um 10 miljónir til landsjóðs, sem oflætismennirnir nefna *ríkissjóð* af eintómri fordild. Þar að auk eru sveitagjöld, sem slaga hátt upp í þessa ofurfúlgu. — Þetta er ofraun atvinnuvegum vorum. Og þjóðin sligast undir byrðinni.

Fullveldið er okkur dýrt, þó að mestur hluti útgjaldanna sé bundinn við heimabrangsið. — En það má kenna fullveldis mikillætinu, að sú uppþemba gat af sér allskonar óaðgæzlu í fjármálum og jafnvel ofdirfsku og hleypti ofvexti í fingurna á sumum mönnum.

Nú eigum vér eftir að standa frammi fyrir allri Heimskringlunni á 1000 ára afmæli Alþingis og þarf til þess nokkurn fótastyrk og höfuðmátt slíkt hið sama. Mig svimar við þá hugsun og fleiri en einn mun sundla, þeirra manna, sem hafa hugboð um ábyrgð og eftirköst.

*Mentun og þessháttar*

Nú er alt fólk í landi voru atkvæðisbært með því móti, að notið hefir "upplýsingar" kennara. Flestir frömuðir þjóðar vorrar gerðu sér miklar vonir um áranginn af tilsögninni og heyrðu að af henni mundi stafa hverskonar viðgangur einstaklings og alþjóðar.—

Eg hefi udanfarna daga verið að blaða í og lesa í landnáma bókum Þorleifs og Thorstínu Jackson

og gladdst af frásagnarlist þeirra, sem þar segja æfisögur sínar — ólærðir menn að öllu leyti, en svo greinagóðir, að furðu sætir, þar sem þarna eru að verki menn, sem alla æfi vóru erfiðisvinnu háðir og jafnvel skortinum. Hálfgildings mentamenn vorir mundu naumast betur gera. Annars þarf ekki í þess háttar samanburð. Hitt er að greina, að þrátt fyrir uppeldiskenslu í barna- og alþýðuskólum vorum undangengin 40 ár, er svo háttað í landinu, að aldrei frá byggingu þess, hefir veitt svo auðvelt *sem nú* s. l. árin, að seila þorra manna aftan í lýðskrumara og ósannindamenn, þar sem um allsherjar málefni er að ræða. Þetta misendi er svo áþreifanlegt. að ekki tjáir móti að mæla. Eg vil t. d. nefna það, að 1909 var þjóðinni talin trú um að samninga-uppkastið við Dani, sem Hannes Hafstein stóð að, leiddi þjóð vora til niðurdreps landráðamenskunnar. En þeir samningar voru samkvæmir þeim réttindum til handa þjóð vorri, sem Jón Sigurðsson og Benedikt Sveinsson dreymdi lengst og hæzt um, allri þjóðinni *þá* til gleði og aðdáunar. Mótstöðumenn Hannesar Hafsteins og uppkastsins neituðu aldrei því, að það færi eins langt og Jóni og Benedikt þótti gott. — Síðan hefir þjóðin verið gint með ósannindum við þingkosningar, allmikill fjöldi hennar. Nýjabrumsmentunin getur ekki reist rönd við þjóðmálaskreytninni, dugar ekki til þess, m. ö. o. setur eigi undir leka grunnfærninnar. Þessi litla þjóð getur ekki risið undir fullveldi, nema í orði kveðnu. Mannalætin lenda í þeim ógöngum að lokum að reisa sér um öxl hurðarás fjárgjalda til "ríkisins," sem þegnarnir fá ekki borið á herðum sér. Sennilega fer svo, að bjargálnamenn reyna að forða sér úr landi, þegar svo er komið, sem skamt mun að bíða, að þeir verði uppetnir af sveit og "ríki." Jafnaðarmanna foringjarnir ætla að bæta úr öllu með þjóðnýtingu. En með þeirri forystu mundi aðeins nýr asni verða leiddur inn í herbúðirnar—um nýjar dyr, því að þeir menn kunna ekki skynsamleg bjargráð.

*Hittur nagli á höfuðið.*

Það tíðkast um allar sveitir, að stökur eru gerðar, sem hitta naglann á höfuðið. Þessi staka fæddist í kaupstað nýlega, daginn eftir að "jafnaðarmenn" unnu á í bæjarstjórnarkosningum, en vísuna gerði borgari; sem þó er ekki nafnkunnur fyrir ljóðagerð, djúphygginn:

"Upp er skorið engu sáð,
alt er í varga ginum;
þeir, sem aldrei þektu ráð,
*þeir eiga að bjarga hinum.*"

Vísan er mæta vel gerð og hefir þann vísdóm að geyma, sem tekur út í allar áttir þjóðlífsins — auðvitað á líkingarlegan hátt, eins og gerist um skáldskap. Það segir sig sjálft.

Alstaðar hefir það sannast í landi voru, að þeir menn hafa á umbrotaárum síðustu boðafalla staðið föstustum fótum, sem hafa farið varlega að ráði sínu og verið tortryggir gagnvart umturninu. Íheldnir, fastlyndir menn, sem lifað hafa svipað því, sem gerst hefir í landinu, áður fyrri, hafa varðveitt fjárhag sinn og heilsu, sína og sinna. En það er satt, að þeir hafa smám saman verið neyddir til að lúta í lægra haldi fyrir "þeim, sem aldrei þektu ráð" í raun oy veru, mönnum, sem gerðu kröfur til annara en sjálfra sín um fjárframlög og afrek.—

Leiðtogar svo kallaðir hafa risið upp í öllum áttum, heiftúðugir og nasbráðir, sem náð hafa tangarhaldi á fjölda manna með orðagjálfri og spádómum um sælu og auðæfi, ef þeirra forsjá væri hlítt —sem þó er alls engin *forsjá.* Þessir menn sá engum grókornum, og mun uppskeran bregðast, þegar svo illa er í garðinn búið. —

Það brennur við í landi voru, að þjóðleg gætni er lítilsvirt og sliguð af hálfu uppivöðslunnar, bæði á fjármálasviðinu og þjóðmálasviðinu. Þessir annmarkar munu ganga um öll lönd að vísu. En stóru skipin þola betur áföll en smáfleytur, sem skvettur ganga yfir, auk heldur stærri ólög. Líkindi virðast mæla með því, að íslenzkir sveitamenn yrðu síðla teymdir á eyrunum, þó að atkvæðasmalar kæmu til þeirra með gapanda gini. En þó hefir stappað nærri um það. Hitt er minna tiltökumál, þó að takast mætti í þéttbýlum þorpum að æsa upp lýðinn, þar sem daglegum blaðaútgáfum og fundaæsingum verður við komið. Þessi taumþægni almennings hefir vaxið þrátt fyrir aukin skólafræði og má af því ráða þann sorglega sannleika, að skólamentun orkar ekki því að koma í vitsmunina vexti og viðgangi alment.

Þar sem jarðvegurinn er dásamlega frjór frá umliðnum öldum, getur það gengið á tréfótum strákalukkunnar um tímabil — það hátterni að skera upp án þess að sáð sé. Það gera menn, sem fleka náunga sína í ábyrgðir, sem ábyrgðarmennina brenna á baki að lyktum. Slíkt hið sama gera þeir gapuxar, sem ærslast í "umbóta" áætlunum á þann hátt, að þeir menn verða að borga brúsann, sem standa á fornum merg viturlegra lifnaðarhátta. En þeir menn verða fljótt mergsognir, þegar á þeim lafa ótal blóðsugur og mergætur mannfélagsins, í skálkaskjóli löggjafar, sem er alæta í efnum og áhöldum forsjálninnar.

*Tvær þjóðir í landi.*

Svo má að orði kveða, að nú lifi tvær þjóðir í landi voru — eða jafnvel þrjár: Sveitafólkið, daglaunamenn og sjómenn í þorpum og svo kaupmenn og embættismenn og aðrir borgarar í bæjunum.

Hugsunarháttur, lifnaðarhættir

og jafnvel mál þessara stétta er býsna ólíkt. Allar þessar stéttir eiga sammerkt að einu leyti: Þær halda, að sín kjör séu verst, þegar öll kurlin komi til grafar.

Bændastéttin lifir í lægstum loftköstulum allra stéttanna. Hún veit það vel, að í hennar landi geta engin höpp komið á daginn. Ef hún á að geta komist af, verður að vinna og spara. alt hvað af tekur. Allmargir bændur hafa nú á síðustu árum selt bú sín og jarðir og flutt sig "á mölina," sannfærðir um það, að daglaunavinna sé *þó* betri en búskapur í sveit Svo hart hefir fólksekla og kauphæð sorfið að bændunum. Þó er þeim sárt um skepnurnar, sem þeir hafa alið upp og fóstrað og jörðina, sem þeir hafa slitið á barnskóm sínum.— Aftur á móti halda daglaunamennirnir á mölinni, að bændunum líði vel, og sumir þeirra láta í veðri vaka, að sig langi í sveitina, ef kostur væri á þeim umskiftum. En það er auðveldara að selja bú upp í skuldir, en að stofna búnað með skuldafé, svo sem nærri má geta þess vegna reyna engir að fara af mölinni á grasrótina. Háa dagkaupið síðustu ára vex bændunum í augum, og þykir líklegt að á því megi lifa allgóðu lífi. Reynslan sker úr, en hætt er við að hún verði kaldrifjuð og sízt af öllu mjúkhent, ef að vanda lætur. Þeir sem í þorpin flytja, líta svo á, að í þeim sé lifað betra lífi í mat og drykk, klæðaburði og skemtunum en í sveitinni verði viðkomið. Trúin á nýju fötin keisarans er enn við lýði, og svo mun verða fyrst um sinn, ef að líkindum lætur; því að manneðlið er æ hið sama, þó að ýmsu viðri.

Fólkstraumur úr sveitum til borga er faraldur, sem gengur yfir öll lönd, og okkar land er háð sama lögmáli. Þorpin eru enn með sveitafólki að sumu leyti. En smám saman vex upp í þeim kynslóð, sem er annarar ættar og lifir öðru lífi en í sveit gerist. Og er farið að bregða í það horf í flestum sjóþorpum. Klæðaburður og málfæri hneigist í útlenda átt, og fer sú breyting í vöxt. Unga kynslóðin í bæjunum tekur upp og temur sér málfæri, sem er Íslenzkunni ósamboðið. Og það vil eg segja, að íslenzka æskan vestan hafs hefir litla málfegurð að læra af íslenzku æskunni í bæjunum, þ. e. þorpunum hér heima — nema umskifti verði til bóta. Þá eru embættismenn og kaupmenn, þeir ætla í hjartans einfeldni sinni, að bænda beyglurnar séu sjálf skaparvíti og vel sé hægt að lifa góðu lífi á landsbygðinni. Embættismennirnir þykjast lifa við harðan kost ,og reyndar munu þeir hafa í fullu tré að lifa. Þó eru þeirra híbýli sómasamleg, og margir þeirra geta farið skemtiferðir, á sumrin, jafnvel út úr landi voru. Það er gott að geta það. Og þeir, sem það gera, eru þó ekki á flæðiskeri staddir.

*Reikular hugrenningar.*

Eg hitti að máli s. l. vetur reyk-

vískan hálaunamann, málhreyfan. Hann hafði ferðast næstliðið sumar um sveitir í nágrenni Reykjavíkur — sér til vonbrigða. Honum þótti bændurnir framtakslitlir, dýrseldir, konurnar sáust ekki komu stundum sumar þeirra, ekki í augsýn gestanna, maturinn fábreyttur og ekki vel þrifalegur. Þetta lét hann sér um munn fara. Eg hélt uppi vörnum á þessa leið:

Ábyggilega vinna bændurnir það, sem þeir orka. Hitt er annað mál, að lítið ber á afrekum. Svo sem nærri má geta, hverfur eins manns vinna á jörð og þó tveggja sé, án þess að á beri. —

Túnræktin, garðvinna, heyskapurinn, haustferðir með fé til lógunar, viðhald húsa — alt þetta tekur til sín vinnu og þessi störf gera sig ekki sjálf. Konurnar hafa alt annað að gera í sveit en sitja hjá og verða að bæta við sig umsjón gesta, þegar þá ber að garði og sjá um sama leyti fyrir heimili sínu. Sala greiðans er að líkindum aldrei of há um heyanna tíma; þá tefja gestir fyrir verkum, svo að miklu munar, stundum raska þeir rúmhvíld lúinna heimamanna. Þrifnaður á sveitabæjum er þannig, jafnvel í kotum, að minni reynd, að hverjum sæmilegum gesti er samboðið. — Hvorugur okkar gat sannfært hinn um sitt mál. Eg drep á þetta til að sýna djúpið, sem er á milli sveitalýðs og borgarlýðs. Það er víst ekki of mælt er eg segi, að í landi voru búi tvær þjóðir eða þrjár.

Gestrisni í fornum skilningi á að vísu dauðadóminn yfir sér í sveitum, sem eru undir átroðningi sumargesta. Hún getur eigi staðist, þar sem fólkið vill bjarga sér og sínum.

,Eina og þó tvær sögur, sagði mér Borgfirskur bóndi og annar austur í Rangárvallasýslu. Reykvískir efnamenn vildu fá sumardvöl hjá þeim fyrir konur og börn, en vildu eigi hús né aðstöðu til eldimensku, þegar það kom í ljós að sveitakonurnar gátu ekki bætt á sig að þjóna þessum sumarfuglum til borðs og sængur. Reykjavíkur fólkið ætlaðist til þess, að því væri bætt á sveitaheimilin, fólkslítil um sláttinn, — eins og sveitakonurnar væru til þess hæfilegar. Þetta sýnir skilningsskortinn á kjörum og aðstöðu sveitaheimilanna. —

Aftur gera sveitamennirnir ráð fyrir því, að þetta fólk geti borgað dýru verði það sem það fær úti látið. Sannast enn hið fornkveðna "að margur ristir breiðan þveng a f a n n a r s manns skinni." —

Lífið er orðið með allmiklum hraða í landinu síðan samgöngur bötnuðu og farartæki, bílar komu og draumar fjalla um flugferðir. Yfirbragð almennings er orðið með meiri gleðibrag en áður var og málrómurinn hressilegri. Eg man þá tíð, þegar landslýðurinn bjó við hallærið og vesturfarar hugurinn var mestur. Augun voru döpur og málrómur margra nærri því vælulegur. Nú eru öreigarnir, hvað þá hinir, djarflegir í

bragði og í limaburði. Þetta er gleðilegt að sumu leyti. Svo er að orði komist í Hávamálum fyrir 1000 árum, að "glaður og reifur skyli gumna hver, unz sinn bíður bana."

Vonlaus þjóð er dauðadæmd og vonlaus einstaklingur slíkt hið sama. En að bakhjarli þurfa vonirnar að hafa skynsamlegt vit, ef þær eiga að geta heitið með réttu hjálparvættir eða bjargvættir mannanna og þjóðanna.

*Augnablik, sem eigi gleymast.*

Eg hefi nú drepið niður fingurgómum á víð og dreif um þjóðlífið og landið, eftir því sem mér þykir brýnust ástæða til. Nú vil eg að lokum minast á þrjá staði, sem eg heimsótti nýlega við höfuðstaðinn, því að þar bregður fyrir myndum, sem kasta frá sér ljósi og skuggum yfir víðáttusvið.

Úti á Seltjarnarnesi við Reykjavík er vísir að gamalmennahæli, 10—20 konur og karlar, konurnar fleiri ef eg fer óvillur vegarins. Sr. Ástvaldur Gíslason hefir mest gengist fyrir þessari stofnun og sér um hana. Þegar eg leit þar inn, þótti mér sem eg sæi 1000 ár aftur í tímann, svo frábrugðið var þetta gamla fólk hversdagslýðnum í höfuðstaðnum. Mjaðmamiklar miðdigrar konur sátu þar við rokk, með stórt niðurandlit og á allan hátt öðruvísi en kynslóðin, sem sézt á fagnafundunum, á götunni og í skrifstofunum. Þarna voru dætur náttúrunnar í gamalli skinn-útgáfu, Evudætur, sem enn áttu sjálfvaxið hár og aldrei höfðu borið bræðing á andlitið. — Karlarnir voru á sinn hátt viðlíka. Þar var Gunnar vefari, um áttrætt, hafði hann vef uppsettan og til þess búinn að draga í höldin. Hann bauð í nefið, en það var nú ekki notað. Annar áttræður öldungur, mjög þjóðlegur, var þar, Sigurður bóksali, lítill maður vexti, sem bar um sveitir bækur um hálfa öld, ef eg man rétt og var sá baggi oft alt að vættarþyngd, þ. e. 40 kíló. Marga mjöllina óð þessi kauplági alþýðufræðari, og aura og vaðla slíkt hið sama. Nú harmaði hann það mest, að geta eigi lesið á bók fyrir sjóndepru.

Hæli þetta hefir sæmileg húsakynni, mjólkur kýr og svo ráðskonu, og virðist þar vel um gengið og ánægja ríkja í gömlu hugskotunum. Sr. Ástvaldur sýndi mér hælið. Þegar við gengum þaðan, mætti okkur hópur söngmanna, sem ætlaði að syngja þeim til sálubótar í Hallgrímssálmum. — Inni í borginni spilaði um þetta leyti á fiðlu rússneskur snillingur. Eg *trúði* því eins og hinir, að hann væri snillingur. Frá honum fór mergð manna lófasár af ofurklappi, og tómhentari að fé, en til hans fór. Það eru orðin trúarbrögð í landi voru, að allir söngmenn og spilagosar, sem koma frá útlöndum til Reykjavíkur, séu snillingar. Öll blöðin eru sammála um *það*.

Minnilegustu 10 mínúturnar, sem eg hefi lifað, eru þær, sem eg lifði á Kleppi, vitfirringanna s. l.

vor og gekk gegnum dvalarstað þeirra, sem þar eru nokkurn veginn lausir. Allir þögðu og héldu kyrru fyrir. En augnaráð þessara manna gekk í gegnum mig eins og spjót myndu ganga.

Þangað ók eg á bifreið á páskadaginn í sólskinsdýrð. Hælið er á fögrum stað, gagnvart Viðey, klaustureynni fornfrægu og höfðingjasetrinu. Hælið hefir verið allmjög stækkað nýlega. Aðsóknin er svo raunalega mikil. Ekki er mér kunnugt um hvort þar fæst bati, nema þá örsjaldan. Geðveiki er þrálát og mun vera nálega ólæknandi. Augnatillit þessara ógæfubarna tjáði mér frá og sýndi fjarska örvæntingar og hyldýpi angistar. Mér virtist þarna fleira af konum en körlum. Það gæti verið eðlilegt, eða réttara sagt að vonum. Konur eru viðkvæmari og veigaminni en þeir. Og ef svo væri, sem líklegt virðist, að oft komi geðveiki af brotnum vonum, gæti verið sennilegt, að kvenkynið hefði á hálku ástamálanna fengið af sterkara kyninu þau olnbogaskot, sem kom kveneðlinu á kaldan klaka áttaviltra tilfinninga. Þetta eru aðeins getgátur. Sá, sem lítur þessa hörmulegu vesalinga, hlýtur að grípa um augun og geta sér til um orsakir. Sumt er geðveika fólkið af þannig veikluðu foreldri. Geðbilun gengur í ættir. Annars fer vitfirringum fjölgandi í veröldinni, þó að mentun og mannúð sé talin í vexti og viðgangi. Mér virtist svo, sem hvert auga þarna hefði sína sérstöku æfisögu að segja. Allir þögðu, að því undanskildu, sem augun töluðu um endalausar harmsakir. —

Einn karlmaður um það bil 25 ára vakti sérstaklega athygli mína, fríður maður sýnum og höfuðið vel skapað, jafnvel gáfulegt. Hann stóð á miðju gólfi, tylti sér á tær með lóðréttum handleggjum, tvísteig lítið eitt fram og aftur og horfði út og upp í bláinn, með sæluríku augnaráði. Ölvun ánægjunnar virtist vera runnin honum niður í tær og upp í hársrætur. Þessi maður var ljóslitaður á hár og á hörund, norrænn. Hann hefir verið með þessu háttarlagi all-lengi. Aumustu veslingana fékk eg ekki að sjá, þá sem voru innilæstir. Læknirinn sagði mér, að þetta fólk talaði lítið saman, heldur að eins við sjálft sig, hver einstaklingur, ef nokkuð væri.

Fáum dögum fyrri hafði eg komið í Vífilsstaða hælið, og áður nokkrum sinnum, er eg var á ferðinni. Eg reyndi enn að skemta sjúklingunum eina klukkustund. Það var þegið með einstakri ánægju. Salur til samkvæmis er þar ágætur, tekur alt fólkið, sem mun vera, með vinnandi lýð, hátt á öðru hundraði. Alt kom, sem vetlingi gat valdið. Þar hefi eg séð þakklátust andlit í ræðusal. Margt þessara manna lítur sællega út og enga leit eg þar hrygðarmynd, búningur góður á fólkinu og lífsvon í hverju andliti. En

þrálát er þessi veiki og seinn batinn.

Mikil jarðrækt hefir fram farið kringum Vífilstaði og er þar mikið kúa-bú. Hælið varð fyrir aðkasti eigi alls fyrir löngu, en stóðst það vel, mun sú árás hafa verið pólitísk að sumu leyti. Ekki ætla eg að rita þá sögu. En alla vega leizt mér vel á þenna höfuðstað. Sérstaklega er mér minnisstætt það skínandi orðalausa þakklæti, sem geislaði til mín af öllum andlitunum meðan eg stóð í ræðustólnum og eins er eg gekk til dyra. Ýmsir skemtanamenn koma að Vífilsstöðum, jafnvel útlendir, láta sig ekki muna um krókinn né stundina. Þá hefi eg drepið á þau efni, í þessum pistli, sem eg tel hæfileg til frásagna og nærri fara óskum þeim, sem ritstjóri Tímarits Þjóðræknisfélagsins bar fyrir mig. Og hafi þeir nú þakklæti, er á mig hafa hlustað.



# Við lát St. G. Stephanssonar.

Eftir *Þorskabít.*

Dóm í ómi dimmra slaga
dauða klukkan ber.
Ein af stærstu stjörnum braga
— Stefán — hnígin er.
Óskmög bætt hef'r einum Saga
í annáls-bók hjá sér.

Drotning fjalla, dags í gnýnum
dánar-fregn þá heyr!
Hómer þinn er horfinn sýnum,
hann er ekki meir.
Eftir lét samt þér og þínum,
það, sem aldrei deyr.

Fjær þér gröf hans eins þó yrði
— óðul rækti 'ann tvenn —
syngja lát um sveitir, firði
sonartorrek þrenn.
Mætari engin móðir syrgði
mög og skáld í senn.

Lát í hljómum hvern þinn vaka
hreim, sem ráð átt á,
svani og lóur klökkar kvaka
kveðju-lag þér frá,
gljúfrabúa bassann taka,
bylgjur taktinn slá.

Engi lét sig dýrri drauma
dreyma um þig, en hann.
Þó hann væri' ei hjá þér heima
hátt þér ljós hans brann,
svona mætum mögum gleyma
móðir engin kann.

# Yfir Skeiðará.

(Ferðasögubrot)

Eftir *Stgr. Matthíasson.*

Frá því eg fyrst man eftir hef eg haft sérstaka ánægju af að kanna vatnsföll. Í rauninni mun þetta hafa verið sama ástríðan og sú sem flestum drengjum er á-sköpuð, að hafa gaman af að busla í vatni og blotna í lappirnar. En sú vatnsælni öll mun vera arfur frá foreldrum vorum í fornöld jarðsögunnar, þegar alt lifandi ól allan aldur sinn í vatni. Eg man hve eg öfundaði eldri piltana með lappir svo langar að þær náðu strax niður í vatnið þegar komið var í kvið á hestinum, en mínar lappir dingluðu þurrar hátt uppi á síðum.

Smám saman kyntist eg fleiri og fleiri vatnsföllum og lá stundum við að mér yrði hált á að kljást við þau sum.. Það jók freistinguna í næsta skifti.

Skeiðará hefir löngum verið talin eitt af ægilegustu vötnum þessa lands. Einhvern tíma fanst mér eg þyrfti að prófa hana. Það gafst mér sumarið 1921. Eg fór þá með drengjum mínum Baldri og Braga austur um Skaftafellssýslu. Þeir voru þá einmitt á því strákareki, sem eg var á, þegar mér þótti mest gaman að göslast yfir árnar á Rangárvöllum. Þessvegna vildi eg gjöra þeim vel til og kenna þeim um leið landafræði í sumarfríinu. Kunningjar mínir í Reykjavík löttu mig þess að vera að fara með þá í slíka glæraför. Það gerði aftur strákana ennþá sólgnari í túrinn og jók þeirra ferðagleði.

Það er nú engin frægðarsaga af okkur, sem eg ætla að segja hér, því vandinn er enginn að komast yfir Skeiðará, með góðri leiðsögn skaftfellskra vatnamanna.

Mig langar aðeins til að lofa lesaranum (ef hann er góðfús lesari), að ferðast með okkur daginn þann, sem við fórum yfir Skeiðarársand og Skeiðará. Vil eg með því láta hann kynnast lítillega, því, sem er mest varið í að kynnast í Skaftafellssýslu—hinu stórfenglega landslagi, geigvænum jöklum og fjöllum, öræfum, hrauni og söndum og vötnum annarsvegar og hins vegar þess á milli inndælum gróðri. Eyðimerkur og vinjar á víxl; en *vinjar* er skársta orðið yfir *oasis.*

Eg hefi hvergi komið hér á landi þar sem mér hefir fundist náttúrufegurð meiri en víða í Skaftafellssýslu. En fólkinu þar er líka vert að kynnast. Og eg skal segja það strax: Það var þrent, sem mér fanst mest um í Skaftafellssýslu, og það var: *Öræfajökull, Skeiðará og Stefán*

*póstur* (en það var hann, sem fylgdi okkur yfir Skeiðará).

Við fórum frá Kálfafelli í Fljótshverfi um morgun og áðum á Núpstað áður en við lögðum á Sandinn. Því bæði þarf að gá undir fæturnar á hestunum og leyfa þeim að bíta í næði áður en auðnin tekur við og 6 tíma grasleysi í vændum. Og svo er gnúpurinn ,sem bærinn dregur nafn af, þvílík prýði, að vert er að staldra við hans vegna. Hann er gerður úr móbergi og stuðlabergi á víxl og svo haglega frá hleðslunni gengið, að fljótt á litið virðist líkara, því sem hér væri um mannlegt listasmíði að ræða heldur en guðlegt náttúrufyrirbrigði. Þessu til frekari áréttingar nægir sögukorn, sem lifir í alþýðumunni þar eystra: "Eitt sinn bjuggu hjón á Núpstað, karl og kerling. Kerlingin elskaði núpinn ofan við bæinn og þótti ekkert fjall fegurra. "Því skapaði guð ekki öll fjöll eins vel og vandlega eins og gnúpinn okkar?" spurði hún karl sinn. "Hann byrjaði á því, en hætti við, því honum fanst það of tafsamt," sagði karlinn.

Svo riðum við á sandinn, svartan og grófgerðan. Sumir klárarnir voru óþægir til rekstrar og vildu ógjarnan yfirgefa Egyptaland.

Eftir nokkra stund riðum við neðan við Lómagnúp, eitt hið tignarlegasta fjall á landi voru. Það er langur hryggur, sem hækkar fram á herðakambinn og fremst rís kollurinn hæst en frá honum steypist bjargið þverhnípt niður 2000 fet—niður að hárri grjótskriðu, sem hrúgast hefir upp neðan við bjargveggnn fyrir hrun úr berginu. Lómagnúpur sézt langt að og er til að sjá eins og voldug sfinx, sem liggur fram á lappir sér og horfir fram á sandinn. Sjórinn hefir áður fyr gengið upp að bjarginu, barið það brimi og hjálpað til að skapa það. Og enn koma sjófuglar og verpa á bjargsillunum—máfar, lundar og fýlungar.

Þegar Lómagnúp sleppir koma Núpsvötn til sögunnar, — þau breiða sig í mörgum kvíslum á sandinum, eru móleit og ískyggileg yfirferðar fyrir ókunnuga, sem halda að þar sé Skeiðará strax komin, en fylgdarmaðurinn slettir í góm og gerir lítið úr slíkum sprænum. Þau þættu þó ægilegt vatnsfall í öðrum sveitum. Þar á eftir tekur við tilbreytingalítill svartur, öldóttur sandurinn —langt, langt austur að Öræfajökli, sem gnæfir hátt og tígulega og byrgir fyrir útsýnið. Á vinstri hönd, spölkorn ofan við þar sem riðið er, liggur Skeiðarárjökull eins og grá, svartflikrótt skáhöll og víðáttumikil breiða, sem smáhallar langt norður á við og upp að Vatnajökli. Hann er svartflikróttur af sandi, sem fokið hefir á hjarnið. Próf. Þorv. Thoroddsen líkir jöklinum við stóra svartflikrótta köku, sem hallist niður á sandinn. En neðan við þessa miklu jökulbreiðu liggur garður af einlægum sandhryggj-

um og hólum, sem jökullinn ýtir fram undan sér. Og milli hólanna renna víða mórauðir lækir fram á sandinn. Á hægri hönd er sífeldur sandur, einlæg sandslétta eins og augað eygir fram að sjó.

Sandurinn er þungur undir fæti, tafsamur yfirferðar og tilbreytingalítill er hann og hvimleiður. En tvent er það sem skemtir auganu á leiðinni austur eftir: *Öræfajökull fram undan og hillingarnar til hafsins,* þegar sólin skín. Öræfajökull er tvímælalaust tilkomumesta og fegursta fjallið á landi voru. Eg segi fjall, því jökulhúfan er ekki svo tiltölulega mikil ummáls. Hér og hvar standa berar klettahnútur og hamrar út úr klettastakkinum, en grábláleitir hálfsandorpnir skriðjöklar liggja niður eftir skörðum og geilum niður á láglendið.

Hillingarnar á söndunum á Suðurlandi eru dásamlegar. Má þar oft sjá hinar furðulegustu kynjamyndir, einkum á heiðskírum svölum sumarmorgni. Einar Benediktsson hefur lýst slíkum hillingum ágætlega í kvæðinu *Hillingar í Landeyjum.* Smásteinar og grastóir verða að háum tröllum eða að háum klettadröngum, hliðum og görðum, mönnum og skepnum. Í þetta skifti sáum við heilar hersveitir fótgönguliðs koma gangandi sunnan sand. Iðuðu hermennirnir í tíbránni og virtust stefna upp sandinn til móts við okkur. Af því þetta var um það leyti, sem mikið var skrafað og harðvítuglega mótmælt atferli Spánverja og fúlmensku þeirra í að troða upp á okkur spánarvínunum, fanst mér sennilegast, að herinn væri spænskur og sendur til að sauma betur að okkur Mörlöndunum. Hugði eg þá landi og þjóð ekkert vænlegra en að biðja góðar vættir að hleypa á dónana með duglegu Skeiðarárhlaupi. Sjálfum okkur og ferðafélögunum var nú óhætt, þó hlaup kæmi, því við vorum komnir þar austur á sandinn, sem hann er hæstur, og þar sem sæluhúsið er reist. Þar þarf enginn að óttast vatnsgang þó hlaup komi úr jöklinum. Þar fórum við inn og borðuðum nestisbita, meðan klárarnir veltu sér og kroppuðu melgresistóir kringum kofann. Kofinn er álíka óþokkalegur og óvistlegur eins og önnur íslenzk sæluhús gerast. En það er lakur skúti, sem ekki er betri en úti, segir máltækið. Og hefur kofinn komið mörgum að góðu liði. Eitt var þar öðruvísi en annarsstaðar. Pappaspjald á veggnum, sem prentuð er á leiðbeining á fjórum tungumálum um að kveikja á luktinni, sem er í kofanum og hengja hana á austurvegginn svo að sjáist frá Skaftafelli. Þá má vænta hjálpar þaðan næsta dag. Thomsen lét reisa kofann og mun nafn hans uppi miklu lengur en kofinn stendur.— Enn héldum við áleiðis. Himininn var orðinn skýjaður, veður svalt og Spánverjarnir horfnir. Það glitti í vötn fram undan. ''Þarna sjáið þið Skeiðará,'' sagði Stefán póstur. Loks-

ins vorum við þá farnir að nálgast óhræsið. Hún liggur sem sé allra austast á sandinum—upp við Öræfi og Öræfajökul. Allur er sandurinn myndaður af framburði árinnar. Hún hefir verið frá alda öðli að færa sig til og frá um sandinn. Nú um langt skeið hefir hún numið staðar þarna austur frá. Hún kemst nú ekki lengra fyrir Öræfajökli og verður því smám saman að þoka sér aftur vestur á bóginn.

Stefán póstur, bóndi í Kálfafelli fylgdi okkur og annar maður að auki, Jón að nafni. Eg hafði hugsað nóg að fá einn mann til fylgdar yfir sandinn og ána, en því fór fjarri að Stefán tæki í mál að fara nema hafa annan með til hjálpar. "Mikið stendur til," hugsaði eg ,en eg sannfærðist um að ekki veitti af. Annar þarf að fara á undan og kanna ána, en hinn gæta lausu hestanna og ríða samsíða ferðamönnunum.

Eg gat ekki fengið betri mann til fylgdar yfir Skeiðará en Stefán póst. Hann gegndi póststörfum um Skeiðarár- og Breiðamerkursand í 20 ár og þekkir síðan alt eðli og háttalag Skeiðarár, betur en nokkur annar.

Stefán er maður þrekinn og sterkur, ljóshærður, alskeggjaður, alvarlegur á svip og fámæltur. Hann er sonur Þorvaldar heitins lögregluforingja í Reykjavík, og fanst mér hann öldurmannlegri en faðir hans var. En við nánari viðkynningu reyndist Stefán spaugsamur og glaðlyndur og ungur í anda og vöðvum. Meðan við áttum eftir all-langan spöl að ánni skimaði Stefán undir lófa sér til að kynna sér árvöxtinn og átta sig á hvar helzt skyldi prófa yfirferðina. Um föst vöð á jökulvötnunum er aldrei að tala. Það verður að velja nýtt vað á degi hverjum. Straumurinn grefur farveginn sundur og saman. En þar sem lygnur eru, þar er venjulega meiri kyrð á og líklegra að reitt sé um það bil. Stefán sá glitta í slíka lygnu nokkuð frá okkur og stefndum við þangað. Komum við þar að breiðu og ægilegu jökulfljóti.

Við fórum af baki til að leysa niður taumana á lausu hestunum til að geta teymt þá alla. Ekki dugar að sleppa neinum lausum. Og svo þurfti að herða á gjörðunum.

"Þetta er þá Skeiðará"—sagði eg. "Og ekki þó meiri." Mér fanst hún svipuð og Héraðsvötnin í Skagafirði áður en þau kvíslast. "Já," sagði Stefán, "en hún er nú eitthvað meira en þessi eina kvísl. Þetta er minsta kvíslin, hinar eru fjórar, að minsta kosti, og allar meiri."

Mér fór nú að skiljast að Skeiðará væri býsna drjúgt vatnsfall og kærði mig ekkert um hana meiri.

"Farið nú varlega strákar mínir. Takið af ykkur vetlingana og haldið ykkur í faxið."

Stefán bað okkur að bíða rólega meðan hann reyndi kvíslina og áður en orðinu var slept var

hann kominn út í miðja á.

Hann reið hesti glófextum, rauðum, stórum og sterklegum. Þótti mér sem hesturinn fríkkaði jafnskjótt og hann kom út í vatnið. Hann reisti makkann og varð allur fjörlegri og svipmeiri. Nú reið Stefán upp og niður ána í einlægum krókastigum, ýmist með straumnum eða móti. Snögglega dýpkaði, þar var sandbleyta, en svo grynkaði aftur og svona á víxl. En í hvert skifti sem dýpkaði sneri hann Glófaxa í strauminn og hvítfyssaði þá um brjóst honum og makka, en Stefán varð votur upp um herðar. En eg gleymi aldrei þeirri sjón hve hesturinn var tignarlegur þar sem straumurinn skall á honum og hann reisti háls og makka á móti og stóð fastur sem klettur. Bráðum komust þeir yfir um. Reið þá Stefán til baka ofar nokkru og aðra leið og fékk ána góða.

Nú reið hann á undan okkur aftur yfir og við á eftir. Jón fylgdarmaður teymdi hestana en við fylgdum í hlé við þá. Vatnið nam miðri síðu á hestunum. Alt gekk vel nema minn hestur hrasaði lítillega svo að eg varð stígvélafullur.

"Einhver beygur orkar því,
alt hvað vökna sokkar,
gegnum þóttann grisjar í
guðhræðsluna okkar."

segir Jakob skáld Thorarensen í hinu ágæta kvæði "Jökulsá á Sólheimasandi."

Nú riðum við nokkurn spöl þar til við komum að næstu kvíslinni talsvert ferlegri en þeirri fyrri. Stefáni þótti hún óárennileg og reið með okkur langan spöl niður með henni þar til hún skiftist í tvent. Þar reyndist vel fært yfir. "Divide et impera," skiftu og stjórnaðu, sögðu Rómverjar. Það heilræði kenna vatnamennirnir líka. Í þriðju kvíslinni lá við að yrði slys. Stefán hafði þá hnýtt lausu hestana fjóra saman í eina lest og teymdi. En klárarnir höfðu snögglega af kjánaskap og klaufaskap snúist í hring utan um hann svo hann var þar kominn eins og inn í skjaldborg og alt stóð fast. Hertu nú klárarnir að honum svo hann og Glófaxi fengu sig hvergi hrært, en öll þvagan hringsólaðist niður með straumnum í einum hnút. Lá þá við að sá rembihnútur ætlaði að verða að endahnút á æfi Stefáns og allra kláranna. En Stefán sat rólegur, fastur í sessi og fekk með lagi losað úr flækjunni, og komst heill á land með alla klárana. En það var þó engu síður Glófaxa að þakka að ekki hlauzt slys af. — Eg dáðist að þeim kostagrip. Þar var Kópur endurborinn. Hesturinn hans Sveins Pálssonar, sem Grímur Thomsen kvað um.

Eftir nokkra stund vorum við komnir yfir allar kvíslarnar og fórum af baki til að hella úr stígvélunum og berja okkur, því okkur var orðið kalt. Við stefndum nú heim að Svínafelli til gistingar og rákum lausu hestana þar á meðal Glófaxa, sem nú fékk að

hvíla sig. Á leiðinni varð á vegi okkar jökulspræna mórauð og mesta forað. Glófaxi fór óðara út í hana þar sem hann kom að henni, en hinir klárarnir hörfuðu frá og við námum staðar til að horfa á Faxa. Hann fékk óðara hrokasund en hafði sig fljótt út úr "forinni" eins og Skaftfellingar kalla hyljina í jökulánum. Og síðan gerði hann sér það til frekari styrkingar að vaða að gamni sínu og okkur til ánægju upp eftir kvíslinni á móti straumnum. Móturnturnar á bakkanum stóðu forviða. Það var bersýnilegt að Glófaxi var vatnahestur með lífi og sál—og vildi líklega gjarnan verða að nykri eins og þeim, sem þjóðsögurnar segja frá.

Á Svínafelli þáðum við bezta beina hjá Jóni heitnum Sigurðssyni bónda. Hann hafði í kíki fylgt okkar ferðalagi og öfundað Stefán póst—því Jón var talinn ágætis vatnamaður líkt og Stefán.

"Vatna tígrisdýrið" hefir Jakob skáld kallað Jökulsá á Sólheimasandi, en engu síður ætti Skeiðará það nafn skilið. Báðar eru ljótar en Jökulsá á Sólheimasandi er það andstyggilegri, þó minni sé, að vatnið í henni er með ýldulykt vegna brennisteinsvatnsefnis—þessvegna er hún kölluð Fúlilækur öðru nafni. Svipuð fýla kemur í mörg önnur jökulvötn við jökulhlaup, og leggur þá stundum ódauninn um allar sveitir þar í grend.

Mér verður lengi minnistætt hve ægilega straumþungar voru sumar kvíslarnar úr Skeiðará. Óhugsanlegt fanst mér að nokkur gæti bjargað sér þar á sundi í þeim iðuflaum, nema allra snöggvast.

Skeiðará þeytist fram á sandinn í mörgum kvíslum undan jökulhellunni. Hún reynir að fara sem beinast og sem styzta leið til sjávar. Það er slíkur asi á henni að hún má ekki vera að stansa. Hvenær ætli hún taki sönsum og verði ásátt um að hægja á sér og lykkja sig í lygnum straum og í mörgum bugðum víðsvegar um þann breiða sand til að frjóvga hann með áburðar-efnum sínum og græða hann upp?

Við skulum vona að einhvern tíma verði mennirnir þarna eystra nógu margir og öflugir og vitrir, að þeim takist að beizla og temja tígrisdýrið og að alt verði smámsaman að graengresi þar sem nú er auðn og sandur.

Frjóefnin, sem í jökulaurnum geymast verða eflaust mjög eftir sótt til áburðar, áður en langt um líður. Hvert jökulfljót verður með tímanum metið á við gullnámu.

Á seinni árum hefur hvert vatnsfallið á fætur öðru verið brúað. Einnig í Skaftafellssýslum. Og bráðum verður flogið yfir láð og lög, svo að Skeiðará má einnig komast yfir þurrum fótum.

En jafnótt þessum framförum hverfa vatnamenn og vatnahestar úr sögunni. Og með fjölgandi vegum koma fleiri og fleiri þjótandi og öskrandi bílar og útrýma okkar ágætu hestum meir og meir.

Eg sé eftir Stefáni póst og Glófaxa og öllum þeirra líkum, hvað sem öllu flugi framfaranna líður. Mikið af því eru afturfarir. Og elzt upp "kveifarskapar horuð öld."



## TIL FJALLKONUNNAR.

*Flutt á Íslendingadegi í Chicago* 1927.

Þú fögur ert í nálægð; í fjarlægð miklu stærri,—
í faðmi hafs sem draumsýn, — og miklu hjartakærri.
Og börnum þínum öllum er yndi um þig að dreyma,
því altaf verður hjartanu sælust dvölin heima.

Vér hyllum þig sem móður og fóstru göfgra fræða;
þín frægð oss lýsir veginn til nýrra sigurhæða.
Þín tignrík undramyndin er auðlind vorum sálum;
sem ímynd helgrar dirfsku þú rís úr sævar-álum.

Vér réttum þér í dag yfir hrannir kveðju-hendur,
og heilsum þér sem drotningu; blessum þínar strendur,
hvern bæ í hlíð og dölum, hvern bát á ægis-djúpi,
hvert blómstur smæst, sem skartar í þínum sumarhjúpi.

*Richard Beck.*

---

## ÞAGNARMÁL.

Hver líðandi stund er sem lifandi sál
með ljóðandi raddir og — þagnarmál,
sem birtist í margskonar myndum:
í alheimsins dýrð, — en í anda vors þrá,
sem ónumið hnoss, sjálfum guðunum hjá
og upptökum lífsins og lindum.

Og hvort sem að lagt er um land eða ál
það laðar og seiðir, það dularmál,
sem hilling í margtbrotnum myndum
með draumþrá í huga þess hugsjónamanns,
sem hyggur að leiðum sannleikans,
og upptökum lífsins og lindum.

Því mannsandans sigurs- og sannleiks-mál
eru sí-vakin ljós-brot frá alheimsins sál,
sem lifa á tímanna tindum.
Og hvar sem hið sannasta sigri nær
þess sí-gildi rótfest um eilífð grær,
með upptökum lífsins og lindum.

*Sigríður Guðmundsdóttir.*

# Vesturför.

(Brot).

Eftir *Þorskabít.*

Um vetrar nótt, fólkið sætt er svaf
og svipvindar húsin slá,
svo þreyttur starfi og áhyggju af
að andvaka bóndinn lá.
Í hljóði við konuna hóf svo skraf:
"Nú heyið er þrotum á.

Eg öruggur þóttist þó í haust
að þau næðu sumars til.
Á beitina sitt að setja traust,
eg sé að er hættu-spil.
Í all-góðum vetri efalaust
þau enzt hefðu — hérumbil.

Eg veit að hef ekki nærri nóg,
en neyð er að skera féð,
mig samvizkan rænir síðar ró,
ef set eg það alt í veð,
en annaðhvort verður að vera þó,
ei vænni eg ráð fæ séð.

Hvað virðist þér, elskan mín, vera bezt?
eða' veistu nú önnur ráð?"
Þá svarar hún blítt, "mér betur gezt,
— ja — bara' ef því verður náð —
að kaupa sér heldur korn á hest,
það kann þó að hjálpa í bráð.

Þú gemlinga nokkra getur selt
í gjald fyrir fóður bót.
það betra' er en mest alt féð sé felt
— þá færist að örbirgð skjót;
eg get ekki heldur séð það svelt,
það synd væri og minkun ljót."

"Já, þetta er eflaust hið eina ráð,"
með innileik bóndnn tér,
"en þú hefir fyr með þinni dáð
oft þungri létt byrði af mér,
og nær sem mín gata var steinum stráð,
minn stuðning eg fékk hjá þér..

En fyrst við annars erum nú
um ástæður mínar að fást,
þá segðu mér eitt: Hvað heldur þú
til hagnaðar verði skárst?
Eg sé okkar gengur saman bú
og sé hvert mitt áform brást.

Mér finst eins og neyðin felist körg
og fátæktin garði hjá,
en vaxandi útgjöld og óstjórn mörg
í einingu bóndann þjá,
og vetrar harðindi' og verzlun örg
er válegri framtíð spá.

Við getum ei lengur varist í vök
mót veðrum og kúgurum lands,
og hreppurinn engin hefir tök
að hjálpa þá fjölda manns,
en skömm er og sjálfstæðis skóggangs sök
að skulda' upp á náðina hans.

"Já, þetta er alt saman alvarlegt,"
þá anzaði konan djörf.
"Eg eins hefi veitt því eftirtekt,
— þó ekki minkuðu störf —
hve grátlega oft hef'r gengið tregt
að greiða úr margs konar þörf.

Og lengi, minn kæri! eg vitað hef víst
til vandræða mundi stefnt,
en hug þinn eg vildi hryggja sízt,
því hefi eg það ei nefnt.
Til nýrra ráða, mér loksins lízt
við láta nú skulum efnt.

Það er mitt ráð, þó kanske sé kalt
og kallað sé vandaspor,
að fara til Vesturheims fyr en alt
er fallið í skuld'r og hor.
Til kaups látum búið hið fyrsta falt,
og förum svo strax í vor.

Það eitt getur bjargað böls úr þröng
og börnunum veginn greitt,
þó kosti það margt og leið sé löng
ei látum það hamla neitt.
Þar veitt getur herran oss hús og föng,
og hrakning í rósemd breytt."

Svo voru nú þessi ráðin ráð
og rösklega' í framkvæmd sett.
Þó margt væri erfitt og misjafnt spáð,
að markinu stefnt var rétt.
Og brúðurin trygg með blíðu og dáð
fékk bónda síns umstang létt.

En fram á skip þegar fólkið dróg,
er flutt var um kvöldið seint,
hún stóð, og til baka starði í ró,
en stundi þó hægt og leynt.
Hvað inni fyrir í brjósti bjó,
sá bezt veit, er hefir reynt.

Þá mælir hún hljótt við sjálfa sig:
— því sár er í brjósti þrá —
"Já, hörð eru örlög, sem hrífa mig,
mitt hjartkæra land, þér frá.
Í hinsta sinni nú sé eg þig,
með sólskinið fjöllum á.

Mér innra finst þetta augnablik
sem á mig að kallir þú,
og eins konar lamandi hugar hik,
svo hroll kend er ímynd sú.
Eg held, ef að væri hægt um vik
eg heim snéri aftur nú.

Já, hart er að kveðja í síðasta sinn
þá sveit, þar sem undi eg bezt,
og sárt er að horfa til hlíðar inn,
þar hug gullin átti' eg flest,
en skilja við blessaðan bæinn minn
mér blöskrar þó allra mest.

En þó eg nú frá þér flýi hratt
í fjarlæg og ókunn lönd,
þá veit minn guð, eg segi það satt,
þau sárt er að slíta bönd,
sem viðkvæm mín ástin við þig batt
og vígð eru' af drottins hönd.

Og ei er það léttúðar löngun bráð,
sem leiðir mig þessa braut;
eg hefði sérhverja heldur þáð,
að heyja hér lífs míns þraut,
og loks þegar var sú hinsta háð
að hníga í þitt móðurskaut.

En lífsþörfum, er þyrpast á,
vér þurfum að sinna mest;
þá eðlishvöt, borgið börnum sjá
í brjósti vér geymum flest,
og ættum því velja hið eina þá,
í öllu, sem gegnir bezt.

Eg sá hve ægilegt útlit var,
en ógnaði' að þyggja af sveit,
svo heldur kaus fyrir handan mar
að halda í gæfuleit.
Hvað framtíðin ætlar okkur þar,
það aleinn minn drottinn veit.

Eg fel honum sérhvert fótspor mitt,
og framkvæmdir, efni og ráð
hvort langt vor þar bíður líf, eða hitt,
það lýtur hans gæzku' og náð.
Hann blessi þig æ, og alt, sem er þitt
mitt elskaða feðraláð."

---

## SJÓFERÐIN.

### I.

Nú skipi frá landinu loksins var ýtt,
í lestina fólkinu' er kasað,
en bæði er þar galað og gargað og kitt
og grátið og hlegið og masað.

Alt blandast þar saman, sem ólíkast er
svo af verður þreytandi kliður.
En konan með börnin úr básnum ei fer,
hún byrgir sig grátandi niður.

Hún veit það er bót, meðan bölið er mest,
í bæninni hjartanu svala,
þar glepur ei neitt og er grátendum bezt,
við guð sinn í einrúmi tala.

Hún vonar að hann muni veita sér lið,
því viðleitni neinum ei banni,
og biður um þollyndi, blessun og frið
með börnum og elskandi manni.

Í heild alt hið umliðna horfir á,
um hugan þær kvikmyndir líða,
er samtvinnast einbeittri sjálfstæðis þrá,
og söknuði, vonum og kvíða.

Hún finnur hve geigvænleg ábyrgðin er,
sem á henni liggur sem mara,
þó útlegðar ferðin og alt er nú ske'r
sé afleiðing þungbærra kjara.

Og einnig að hennar voru' upptökin fyrst.
— Ef alt fer nú miður en skyldi.—
'Því fár veit hvað átt hefir fyr en er mist.'
hún forðast þá ásökun vildi.

En, meðan hin angraða bænina bað
og brynjaði vljann og þróttinn,
með flughraða öslaði fleyið af stað,
það fyrsta var sjóleiðar nóttin.

Og eftir því lengra sem líður fram skip
og landinu' er fjær sú, er grætur,
þess úfnari verður hann Ægir á svip
og óðari' og tröllslegri 'ans dætur.

Í bólstrum gýs reykur frá brunandi skeið
en bylgjurnar framstafninn kyssa,
þá gjálífar fram hjá því ganga, en um leið
þær gretta sig ólmast og flyssa.

Ei geta þó komið á gnoðina stanz,
því grána nú miðnætur fundir,
þær tryllast og hefja sinn dynjandi dans,
í djúpinu leikið er undir.

Þær boðflennur stíga fram beint og á ská
og blístandi földunum skella,
en meðan að knörinn þeim kastar sér frá
á kinnum hans löðrungar bella.

En fólkið í lestinni liggjandi má,
sem leiksoppar veltast um skansa;
en nautnanna fögnuði nýtur ei sá
er nauðugur verður að dansa.

Það sannast á mörgum, sem ættstöðvum af
burt örlaga seiðnornin hryndir;
vort lífsskeið er bárótt sem bylgjandi haf
er breytist í alls konar myndir.

Oss, yfir það tilveru báturinn ber,
á braut milli vonar og kvíða,
sem hrakinn af viðburða öldunum er,
um óvissu hyldýpið víða.

---

## II.

Þá sjógangur heyrðist um súðir
og sífeldur ómaði kliður,
ei freistuðu farþegar lúðir
í fletin að leggja sig niður.
Hve dýrlegt er döprum að blunda
í drauma ró miðnætur stunda.

Á fólkið fer svefninn að síga,
þá suðandi glaumurinn dofnar,
og bóndinn — sem höfuð lét hníga
við hlið sinnar elskuðu, — sofnar.
Hún ungbarnið upp að sér vefur
og ylinn frá hjartanu gefur.

Ei virðist hún svefninum sinna
en situr og lengur ei grætur,
á hvílustað barnanna hinna
hún hefir víst nákvæmar gætur,
því móðurást letjast ei lætur,
þó liðinn sé helmingur nætur.

Þá lítur hún ástvini alla
sig umhverfis, birtir í huga
og segir: "Eg sæla mig kalla,
mig sorgin ei lengur skal buga,
því enn á eg alt, sem er kærast
og á því skal farsæld mín nærast.

Því, hvað er um stundarbil stríða,
ef styrkinn og þolið ei brestur;
þó lítið eitt þurfum að líða,
það lífinu er aflvaki beztur,
og vöntun og vosi má gleyma
þar vonin og ástin er heima.

Ei hræðast skal hretviðrið kalda,
né hika, þó skefli yfir veginn,
því auðvelt er áttinni halda
þar ástin er sitthvoru megin;
og ljúft er þá lífsskyldu vinna,
sem lögð er til barnanna sinna.

Nú legst yfir lánættis húmið,
eg líka finn svefnværðar dofa,
þó ekki sé ríkulegt rúmið
nú reyna skal loks fara að sofa,
því svefninn er ferðlúnum sætur
og svölunin bezt þeim, er grætur.

Hann söknuði og áhyggjum sárum
á svipstundu lætur mig gleyma,
og meðan á brúsandi bárum,
eg berst út í ókunna geima.
Ó, drottinn minn! láttu mig dreyma
um dalina' og fjöllin mín heima.

———

III.

Rennur fley um ránar velli bláa,
ruggar ei, því nú er sléttur særinn.
Yfir léttur andar morgunblærinn,
aðeins, sem að vekur gára smáa.

Himin drotning, dýrðleg morgunsólin
dásamlega birtir hátign sína.
Geislabaugar glóbjart höfuð krýna,
gulnum roða slær á veldisstólinn.

Brosir ljúft og ljómi af augum stendur,
lítur blítt frá hásætinu niður;
gyltum sprota' á græðisflötinn styður,
glampar skærir kvika um voga og strendur.

Landnemarnir leystir skips úr kvíum,
loksins uppi' á þiljum fá að standa;
morgunlofti að sér hreinu anda
og sig baða í ljóssins straumi hlýjum.

Liggja sézt nú land á báðar síður,
langan því að siglt er inn á flóa,
fagurleitt í feldi grænna skóga
faðminn ljúfa sjófarendum býður.

Hugarfangnir farþegarnir stara,
framundan er sem í glæstum skýjum,
opnist dyr að dýrðar heimi nýjum,
draumalandi sérhvers utanfara.

Ljúfar vonir lyftast fólksins hrjáða
leið þá endar sævar djúpu hylja,
eins og fuglar fegins hugar vilja
fótum stíga á sumar-vengið þráða.

— — — —



# Ferð mín til Ameríku.*)

Eftir *Svein Björnsson.*

Eg ólzt upp hjá afa mínum síra Pétri Jónssyni á Valþjófsstað** í Fljótsdal. Þórunn föðursystir mín annaðist mig frá blautu barnsbeini, og gekk mér í móðurstað, svo þegar hún giftist Nikulási Jónssyni í Odda á Seyðisfirði árið 1872-3 þá fluttist eg með henni þangað.

Páll*** heitinn bróðir minn fór til Ameríku með hópnum, sem fluttist þangað árið 1873. Snemma á næsta ári fæ eg bréf frá honum, og segir hann mér, að koma, sem allra fyrst. Nú fór eg að biðja systir um fararleyfi og farareyri. Nikulás var þá mjög mótfallinn Ameríku-ferðum, en samt vanst henni það, að fá samþykki hans til utanfarar minnar.

Um það leyti höfðu Norðmenn síldveiða útgerð á Seyðisfirði, og höfðu skip í förum milli Mandals í Noregi og Seyðisfjarðar. Skipstjórinn á Aurora hét Abrahamssen, hann var svo að segja heimagangur í húsi þeirra hjóna og sat oft við kaffi- og víndrykkju. Hann bauðst til að taka mig til Noregs fyrir ekki neitt, og bæði vegna þess, að eg var svo ákaflega áfram með að fara þá um haustið, en bíða ekki til næsta vors eftir reglulegum emigranta-skipum, og svo vegna hins, að þau hjónin hafa líklega ýmyndað sér, að það yrði ódýrara að komast svona kostnað-

---

*)Þeim Íslendingum fækkar óðum er hingað fluttu til lands á árunum 1870 til 1880. Jafnframt fyrnist yfir ýmsa þá atburði er gerðust á þeim árum, er merkilegir voru. Þó endurtekningar séu tíðar í æfi þjóðanna, þá endurtaka þau ár sig ekki, hvorki í sögu vesturfara eður þeirra er hér búa. Ferðasögubrot það, sem hér birtist eru minningar frá þeim árum, er höf. færði í letur á þessu hausti fyrir tilmæli nokkurra vina og kunningja. Mun þar svo satt frá skýrt sem frekast verður, því höf. er kunnur að því að vera réttmáll og óhlutdrægur í frásögn og óbrigðull að minni. Ágrip þetta varð hann að semja í hjástundum við vinnu sína, lamaður af lúa og gigt. Í bréfi er handritinu fyldi til "Tímaritsins," kvartar hann um að eigi sé svo frá því gengið sem hann hefði viljað. "Nú sendi eg þér ferðasögu mína til Ameríku. Eg hefi skrifað hana á hlaupum lasburða. Eg hélt eg væri að brenna upp af gigtar-kvölum, og var undir læknishendi átta daga. Byrjaði aftur að vinna á þakkargerðardaginn og hefi dregist í kring draghaltur síðan. Uppkastið er óyfirlesið, því tíminn er naumur. — Ef þér þykir frásögnin þess verð að setja hana í Þjóðræknisritið, þá legg eg þér í sjálfdæmi að auka eða fella úr, og eins, hvort fyrirsögnin sé: Ferð mín til Ameríku, eða Hvernig eg komst til Ameríku." — Við frásögnina er engu bætt og ekkert úr henni dregið. — *Ristj.*

**)Höf. er sonur séra Björns heit. Péturssonar frá Hallfreðarstöðum, fyrv. Alþingism. S. Mýlinga (1859-67) er vestur flutti 1876 og andaðist í Winnipeg 25. sept. 1893. Kona höf. er Kristrún Ólafsdóttir prests á Kolfreyjustað, systir Jóns heit. Ólafssonar ritstj. Búa þau vestur við Kyrrahafsströnd í bænum Markham í Washingtonríki. — *Ritstj.*

***)Páll Björnsson var í Alaska-förinni með þeim Jóni Ólafssyni ritstj. frænda sínum og Ólafi Ólafssyni frá Espihóli. Útskrifaðist í læknisfræði við læknaskóla Chicagoborgar, andaðist í Houston, Minnesota 1881. — *Ritstj.*

arlaust til Noregs, tóku þau því tilboði Abrahamsens og gerðu hann að fjárhaldsmanni mínum.

Nú lögðum við af stað snemma í nóvember. Eg man að eg varð 16 ára á leiðinni til Noregs, þann 14. Sjóveikur var eg alla leiðina og kom aldrei upp á þiljur fyrri en komið var undir Noreg.

Einn háseti á skipinu var íslenzkur, að nafni Skúli Torfason, og þegar við komum til Mandal tók hann mig heim með sér til ekkju, sem hét Gúrína Askelsen. Annar Íslendingur var þar líka til húsa, Guðmundur Sveinsson að nafni. Þeim manni giftist ekkjan löngu seinna, og eg heimsótti þau í Tacoma Wash. 1908.

Mandal er lítill en snotur bær. Mér fanst hann stór, sá stærsti, er eg hafði nokkurntíma séð. Og "kotbörn líta undra augum álfhól fyrst í stað." Þar var margt nýstárlegt að sjá fyrir mig, og eg eyddi tveim dögum í það að skoða bæinn og dázt að skrautbúðunum og brúnni, sem lá yfir ána í miðjum bænum.

Nú fór eg að grenslast eftir því hvenær næsta farþegaskip færi til Ameríku. Eg komst brátt að því, að engin farþegaskip fóru beina leið til Ameríku frá Noregi um þetta leyti árs. Eg þurfti því að kaupa mér far til Englands fyrst og þaðan aftur til Ameríku. Nú fór eg að ráðgast um þetta við fjárhaldsmann minn Abrahamsen. Þá kom það upp úr kafinu, að það var ekki nóg fé til þess að fara þessa leið.

Eg vissi aldrei hve stór fjárupphæðin var, sem systir og Nikulás fengu Abrahamsen í hendur. Eflaust hefir það verið nóg til þess að komast beina leið til Ameríku, eg spurði ekki neitt um það og eg hafði enga hugmynd um hvað ferðin kostaði. Alt, sem eg hugsaði um var að komast til Páls.

Nú strandaði eg þá þarna í Noregi. Ekkert var hægt að fá að gera þarna í þessum litla bæ. Og eg var iðjulaus allan þennan vetur og fram í, að mig minnir, ágúst eða september næsta ár. Þá réðist eg á norskt skip, sem átti heima í Drammen. Kaup var mjög lítið. mig minnir 6 spesíur norskar um mánuðinn eða 8—12 ríkisdalir danskir. Við fórum upp í Ungerman ána í Svíþjóð að sækja trjávið, sem átti að fara til Lundúna. Fyrsta morguninn, sem Svíarnir komu, til þess að hlessa skipið tók eg eftir því, að þeir tóku upp tóbaksdósir úr vasa sínum og hélt eg strax að nú ætluðu þeir að fara að taka í nefið eins og Íslendingar heima á Fróni. En það var nú ekki því líkt. Mér til mestu undrunar sá eg þó reka fingurnar niður í dósirnar og koma upp með eins mikið af tóbaki og mögulega gat þar tollað, opna varirnar og smyrja tóbakinu yfir allan tanngarðinn frá munnviki til munnvikis og loka síðan vörunum. Eg hafði aldrei séð neftóbak brúkað svona, og fór að spyrja félaga mína Norðmenn um þetta. Þeir kölluðu þetta "*Mullbænken.*"

Nú sigldum við á stað til Lund-

úna. Þegar við komum út í Eyrarsund sló í logn og við láum logndauðir frá því snemma um morguninn og þar til kl. 4 eftir nón, þá kom dálítill andvari og mér var sagt að fara upp og leysa toppseglin. Eg hljóp upp reiðann eins hart og eg gat en samt kallar stýrimaður eftir mér: "Fljúgðu nú Sveinn, fljúgðu." Eg kalla á móti: "Hef ekki vængi, get ekki flogið." Hásetar hlógu að svarinu, en þegar eg kom niður á þilfar stóð stýrimaður þar við reiðann og rak mér snoppung. Eg var að hugsa um að svífa á hann og beita hann íslenzkum brögðum, en rétt í því heyrði eg einn hásetann segja: "Ef eg sé þig leggja hendur á þennan dreng aftur, skal eg reka þennan járnfleig ("marlin spike") í hausinn á þér." Eftir að hafa afhlest í Lundúnum sigldum við heim til Noregs. Nú var eg annan vetur í Mandal hjá Gúrínu, og nú vann eg tvær vikur í lítilli sögunarmylnu þar í bænum. Um vorið réðist eg nú aftur á skip, sem maður að nafni Allar Hanson átti, hann bjó í stóru húsi hinum megin götunnar. Árið áður hafði hann farið upp til Svíþjóðar, að sækja trjávið, er hann átti að flytja til Antwerp í Belgíu. Þegar hann kom út í Norðursjóinn skall á þoka og óviðri. Karl var fullur mestan tímann og vissi ekkert hvar komið var. Skipið tók að leka og hásetar fóru að verða hræddir um líf sitt, og fengu því leyfi hjá karli til þess að setja upp neyðarfána. Eftir nokkurn tíma léttir þokunni svo að þeir sjá enskan togara. Óðar kemur bátur frá togaranum og þá fréttir karl að hann er nálægt Englandi. Skipið var hálf-fult af sjó og skipshöfnin fær leyfi hjá karli að fara um borð í togarann; sjálfur segist hann koma með næsta bát, hann kvaðst þurfa að taka með sér skjöl ýmisleg, sem geymd væri niðri í káetu. Þegar skipshöfnin er farin tekur karl sig til, setur upp segl tekur stýri og siglir af stað. Morguninn eftir sigldi hann inn í Grimsby á Englandi, hleypti skipinu upp í leðjuna og þegar fjaraði undan boraði göt í botninn og hleypti sjónum út. Fyrir þetta þrekvirki sæmdi Viktoría drottning hann heiðurspening.[1]) Á þetta skip fór nú aftur öll skipshöfnin frá Mandal. Svo sigldum við frá Grimsby til Antwerp; frá Antwerp fórum við til lítils þorps í St. Lawrence flóanum, sem hét, að mig minnir Sault a ma Tou eða Toug. Á leiðinni yfir Atlantshafið vildi það til einn dag, að mjótt reipi, sem brúkað er til að vefja um segl og rá, þegar þau eru feld, losnaði og hékk úr enda efri bómunnar á aftasta mastrinu. En þessi reipi, ef þau eru laus, geta

---

1)Margar sögur gengu um hugrekki og yfirburða krafta þessa Hansons, líkt og þær, er fóru af þeim Hafnar-bræðrum, Hjörleifi og Jóni. Ekki veit eg hvað satt var í þeim; eitt vissi eg: Æfinlega þegar eitthvað stóð fast á skipinu, og þótt öll skipshöfnin gengi á reipið árangurslaust, þá ef að karl kom og tók í, þá annaðhvort slitnaði reipið eða varð laust það er fast stóð.

flækst í hjólblokkum og valdið tjóni ef segl eru feld. Nú fer annar ("let matrosen"), nýsveinninn upp á bómuna, til að festa reipið og skríður út hálfa leið en snýr þá til baka aftur og niður á þiljur. Litlu seinna fer eg svo upp og skríð alla leið og náði reipinu og gerði það fast á sínum rétta stað. Þegar eg kom niður á þiljur, segir karl: "*Nu var du flink, Islænder.*" Mér fanst hann leggja áherzlu á "Islænder" og þótti mér vænt um. því metnaður minn fyrir Íslendingum byrjaði snemma, og jókst með aldrinum.

Nú erum við komnir til þorpsins og strax byrjað að hlessa skipið með trjávið.

Seinasta kvöldið var öllum boðið á danz. Þar sá eg í fyrsta sinn "*square dance,*" (Quadrille). Eg sat og horfði á en vogaði mér ekki fram á gólfið. En frönsku kynblendinga stúlkurnar drógu mig inn í hópinn, svo eg mátti til með að gera mitt ítrasta.

Svo sigldum við áleiðis til Lundúna, og þaðan áttum við að fara heim til Noregs..

Á leiðinni var eg nú að hugsa um hag minn. Eg sá strax að eg myndi aldrei innvinna mér næga peninga til þess að komast til Ameríku, ef þessu stutta ferðalagi héldi áfram. Ef eg færi heim til Noregs yrði eg að sitja þar iðjulaus einn vetur enn og eyða þessu litla, sem eg hafði þénað þetta sumar. Nú fór eg að ráðgast um það við félaga mína hvað bezt mundi fyrir mig að gera. Þeir voru einróma á því, að bezt mundi fyrir mig að komast á skip, sem færi langferðir. Seglmakarinn á skipinu, sem Gunnar hét og nýsveinninn Pétur vildu heldur ekki fara heim til Noregs af sömu ástæðu og eg. Við komum okkur því saman um að strjúka þegar til Lundúna kæmi. Fyrsta kvöldið eftir að við lentum, kom einn af þessum svo kölluðu "Runners" um borð. Þeirra hlutverk er að njósna um hvort nokkur af skipshöfninni vilji strjúka. Þeir eru agentar fyrir gestgjafahús, sem eru í hverjum stór-sjóbæ í Evrópu og sem gera það, að starfi sínu, meðal annars, að taka á móti strokumönnum, geyma þá þar til skip þeirra er farið og ráða þá svo á annað skip, en taka oftast nær fyrir fram borgað mánaðarkaup þeirra. Nú strukum við þrír, fyrstu nóttina og gistum allir á sama gestgjafahúsinu. Hásetar af skipi okkar komu einu sinni að heimsækja okkur, og þeir sögðu okkur, að gamli Hanson hefði sagt að sér væri sama um hina tvo en að eg væri alt of ungur til þess að fara svona út í heiminn.

Eftir viku var okkar skip farið og vorum við þá teknir niður á útskipunarstöð ('shipping office') þar í bænum. Eg hafði lesið Ensku tvær vikur heima, en nú var eg alveg búinn að gleyma því litla, sem eg hafði lært. Þegar á útskipunarstöðina kom er eg spurður að nafni. Eg segist heita "Sveinn Björnsson." "Svín,"

étur einhver eftir, hitt nafnið reyndi enginn að nefna. Mig setti dreyrrauðan. "Svín." Nei, það vildi eg hreint ekki láta kalla mig. "Hvað heitirðu þá, drengur minn," spyr útskipunarstjóri mig. "Tom Peterson," segi eg þá. Það nafn var skrásett óðara, og undir því nafni gekk eg meðal innlendra, fyrsta árið, sem eg var í Ameríku. "Og hvað gamall ertu, drengur minn." "Nítján ára," svaraði eg . Þá skellihlógu allir. Eg vissi ekki hvaðan á mig stóð veðrið, mér fanst eg segja rétt til aldurs. "Já, þú ert sannarlega nógu gamall, drengur minn," heyri eg útskipunarstjóra segja. Þá rankaði eg við mér. Eg hafði sagt 90 en ekki 19.

Nú var eg ráðinn sem fullveðja háseti og Gunnar seglmakari, en Pétur komst ekki að. Enga peninga fékk eg hjá gestgjafanum af þessu mánaðarkaupi, sem þó var liðugir $15.00. En olíuföt fékk eg. Nú var farið um borð í skipið. Eg vissi ekkert um hvert það átti að fara. Það var mér nóg, að vita, að það var að fara í langferð. Eg vissi ekki nafn á rá eða reiða eða nokkurum öðrum sköpuðum hlut á Ensku. Gunnar gat hjálpað sér ofurlítið og hann var æ reiðubúinn til þess að hjálpa mér alt sem hann gat.

Eftir nokkurra daga útivist náði eg í enska bók, "*The Three Guardsmen*" eftir Alex. Dumas. Eg hafði lesið hana á dönsku tvisvar heima. Nú tók eg til að lesa og brátt fór eg að læra að skilja og tala, með því að heyra orðin, sem eg sá í bókinni, framborin af hásetum.

Nú frétti eg að skipið ætti að fara til Austur-Indlands, og að við værum ráðnir til þriggja ára. Eigendur skipsins bjuggu í Quebec og þangað var ferðinni heitið fyrst.

Þegar til Quebec kom struku 6 hásetar fyrstu nóttina, þá setti félagið vökumann um borð í skipinu. Við Gunnar og matreiðslumaðurinn vorum nær því þeir einu, sem eftir voru af skipshöfninni. Nú liðu tvær vikur og við vorum búnir að panta það, sem við þurftum til ferðarinnar. Peninga fær maður ekki á enskum skipum fyrri en í heimahöfn. Eg hafði varðveitt bréf frá Páli með heimilisfangi hans í Milwaukee. Öll mín bréf lágu í Noregi þar eð enginn vissi hvar eg var niðurkominn, eftir að eg strauk. Nú dettur mér í hug að skrifa Páli og segja honum hvert eg sé að fara. Fjórum dögum áður en við áttum að sigla, fæ eg bréf frá honum, þar sem hann segir mér að öll fjölskylda okkar sé komin til Ameríku og að hún sé norður í Nýja Íslandi við vatn, sem Lake Winnipeg heiti. Hann biður mig í Guðs bænum að fara ekki til Austur-Indlands, því eg muni fá gulusótt og kannske deyja. Hann er þá í Chicago á læknaskóla, og gefur mér heimilisfang Dr. Steele, sem hann segist halda til hjá, og biður mig nú í öllum bænum að koma. Nú var öll löngun til Ind-

landsferðar horfin. Mig sárlangaði nú að komast til Páls. En hvernig átti eg nú að snúa mér til þess að geta það? Nú var ómögulegt að strjúka með vökumann um borð, og raunar árangurslaust úr því eg ætlaði að hætta sjóferðum. Eg legg nú öll mín vandræði fyrir matreiðslumanninn og bið hann liðs; hann kvaðst skyldi hjálpa mér alt hvað hann gæti. Næsta morgun þegar eg sótti skipstjóra í land, segir hann við mig: "Langar þig til að yfirgefa þetta skip?" "Já, ef þú vilt borga mér kaup mitt." "Þú mátt strjúka ef þú vilt," segir hann. "Nei, það geri eg ekki," segi eg. Eg vissi, að ef eg stryki og að hann næði mér, gat hann haldið mér þangað til heim kom, án þess að borga mér einn eyri. Eftir nokkura þögn tekur hann aftur til máls. "Þú verður að borga mér mánaðarkaup til þess að láta þig fara." "Já, velkomið," segi eg. Mér stóð alveg á sama um peningana. Aðal atriðið fyrir mig var að losast við skipið og komast á leiðina til bróður míns, jafnvel þó eg hefði enga minstu hugmynd um hvernig eða á hvern hátt það gæti orðið.

Nú segir skipstjóri við mig, að ef að eg taki allar þessar föggur með mér, sem eg var búinn að panta, þá muni eg ekkert eiga til góða; en hann segist skuli taka þær fyrir hálft verð og selja hásetum á leiðinni, ef eg vilji. Eg féllst strax á það og þakkaði honum fyrir, og skipar hann mér þá að vera tilbúinn að fara í land eftir miðdag.

Einn af hásetunum átti spánýja bláa ullar-skyrtu. Eg hafði ágirnd á þessari skyrtu, mér fanst endilega hún vera einmitt það, sem eg þarfnaðist í þessa fyrirhuguðu ferð. Eg bauð honum því að skifta við mig á þunnum laglegum slopp, sem eg átti. Hann gerði það. Og nú var eg albúinn, með bláu skyrtuna utan yfir buxunum, skozka húfu á höfðinu með stóru gljáandi skygni á. Alt dót mitt annað skildi eg eftir. Nú fórum við í land og upp á skrifstofu skipseigenda. Það tók þá fjóra klukkutíma að reikna saman hvað mikið eg ætti til góða. Á endanum voru mér réttir $6.00, og eg tók þeim fegins hendi og stökk á stað niður að ánni. Þar var gufubátur ,sem snéri í áttina, sem eg vildi fara. Eg fór strax um borð og mátti borga $1.00 til Montreal. Eg hitti þar Svía einn og tók hann mig strax tali og spurði mig hvert eg væri að fara. Eg sagði honum það, og segir hann mér þá, að eg muni geta unnið mig áfram upp vötnin til Chicago eða Milwaukee. Þegar við komum til Montreal um morguninn fór hann strax með mig þangað, sem skipin lágu, og eftir margar tilraunir komst eg loks á lítinn gufu-pramma (steam barge) er átti heima í St. Catherines, Ont. Þegar þangað kom segir skipstjóri við mig, að hann eigi að fara upp til Cleveland og að mér sé bezt að ráðast á skipið því

þá muni eg hafa nóg fé til þess að komast til Chicago við enda ferðarinnar, "en," bætir hann við, "þú getur unnið þig áfram þangað, ef þú vilt það heldur." Eg kaus það síðara; eg hélt eg mundi geta eins vel komist á skip, sem færi upp vötnin þar eins og annarsstaðar. Þegar til Cleveland kom stökk skipstjóri á land og óðara um borð aftur og út á vatn. Nú fór eg að njósna um hvert fara skyldi. Mér var sagt að við færum til Black River Junction, 25 mílur vestur. Eg lét mér það vel lynda, því eg vissi að það var í áttina til Páls, og svo hélt eg líka að þar væri kanske gott tækifæri að komast á skip. Nú komum við til Black River Junction. Það er lítið þorp með útbúnaði til þess að hlessa kol. Ekkert einasta skip var þar af nokkuru tægi. Nú fór eg í land. Uppi á hæð sá eg farþegavagna fara aftur á bak niður að vagnstöðinni. Eg hleyp upp brekkuna og inn í einn vagninn og sezt niður. Brátt fer lestin á stað og vagnstjórinn kemur og heimtar farbréf brosandi. Eg dreg upp fimm dala seðilinn, sem eg fékk í Quebec og fæ honum. Hann fær mér 25 cent til baka. Eg hafði enga hugmynd um hvert lestin ætlaði. Eg vissi hún fór í vestur, en það var áttin til Chicago og Páls. Við komum til Detroit í Michigan kl. 4 e. m. Eg fór strax niður að ánni og spurðist fyrir á öllum skipum, sem þar lágu, hvort þau ætluðu til Chicago eða Milwaukee, en árangurslaust. Nú fór eg inn í gestgjafahús skamt frá bryggjunum og spurði gestgjafa hvort hann vildi hýsa mig og fæða meðan eg biði eftir svari og peningum frá bróður mínum í Chicago. Eg vissi það ekki fyrri en seinna, að Páll heitinn var að vinna sig áfram hjálparlaust gegnum læknaskólann og hafði auðvitað enga peninga aflögu. Hann var sá fyrsti Íslendingur, sem útsrkifaðist af læknaskóla í Ameríku. Gestgjafinn tók dræmt í fyrirspurn mína, svo eg beið ekki boðanna og stökk út og á leið niður á bryggju. Þegar eg var um hundrað faðma frá ánni sé eg að stór gufubátur er að leggja af stað frá bryggjunni og um leið heyri eg einhvern kalla hvort eg vilji ráðast á skipið. Eg játti því og hljóp til og gat með naumindum stokkið um borð.

Báturinn átti heima í Buffalo, New York, en var á leið til koparnámanna á efra-vatni (Superior) Þarna fékk eg nú $18.00 um mánuðinn, og þarna lenti eg í hóp þjófa og ræningja úr fúaholum stórborganna. Auðvitað vissi eg það ekki þá, en komst að því seinna. Fyrstu nóttina fór eg að hátta í rúmi, sem mér var úthlutað í skutnum. Eftir fáar mínútur fann eg eitthvað skríða yfir andlitið, eg greip það og brá í ljósið og sá hverskyns það var. Nú stökk eg út og upp á efstu þiljur, lagðist niður við reykháfinn og sofnaði. Það var komið fram í október og veður orðið

kalt. Eg vaknaði af og til um nóttina, við það, að sú hliðin, sem snéri frá reykháfnum var ísköld, svo eg bylti mér bara um og sofnaði jafnharðan.

Einn daginn þreif einn af félögum mínum til mín og ætlaði að slengja mér niður á gólfið. Eg demdi honum fljótt niður á íslenzkum hnykk. Hann stökk óðar upp og á mig aftur, en það fór á sömu leið og áður. Í þriðja sinni veður hann að mér með steytta hnefa. Eg segi honum að eg kunni ekki hnefaleik, en að eg skuli glíma við hann eins lengi og hann vilji. En þá hætti hann, og var eg látinn í friði eftir það.

Þjóðverji, giftur, var á bátnum, allra bezti drengur og mér einkar góður. Eg var búinn að segja honum alt um mína hagi og hvert eg ætlaði. Áður við komum til Buffalo segir hann mér að fara ekki í land með neinum af skipverjum, því þeir muni taka mig inn á knæpu, gefa mér svefnmeðal og ræna mig. Hann býðst til að fara með mér á farbréfastofu og útvega mér eins ódýrt farbréf til Chicago eins og hægt sé að fá. Nú fórum við á 3—4 "Scalpers Ticket Offices"* og fengum við að síðustu farbréf fyrir $10.00.

Nú voru skór mínir í slitrum, svo eg mátti til með að kaupa mér skó. Þeir kostuðu $1.50. Þegar eg var búinn að kaupa honum og mér glas af bjór, brauðköku og 5--10c virði af osti, þá átti eg eftir 25c. Nú fór hann með mér niður á járnbrautarstöðina og bað einn starfþjóninn að sjá um, að eg kæmist á lestina kl. 11 f. m.. Þar kvöddumst við og eg þakkaði honum innilega fyrir alla hjálpina.

Nú var lagt á stað og eg bjóst nú við að stanza ekki fyrri en í Chicago, en það var öðru nær. Við komum til Cleveland í Ohio kl. 9 f. m. á sunnudagsmorgun. Þá var mér skipað út úr vagninum og sagt að engin lest færi til Chicago fyr en kl. 9 um kvöldið.

Eg fór út, súr í skapi og upp á knæpu skamt frá stöðinni. Eg skildi eftir ostinn og brauðið og ætlaði að hirða það um kvöldið er eg færi af stað. Nú bið eg um kaffi og kleinur, og brátt kemur telpa með það. Meðan eg var að drekka kaffið hugsaði eg með mér að ef mér yrði boðin annar bolli, skyldi eg afþakka það. Eg vildi hafa fáein cent í vasa, þegar til Chicago kæmi. Eg bjóst við að kaffið og kleinurnar myndu kosta mest 15 cent. Svo spyr eg telpuna hvað það kosti. Tuttugu og fimm cent, segir hún. Eg stokkroðnaði, en þagði þó, jafnvel þó eg þættist vita, að það væri níðst á mér. Nú var eg þarna allan daginn matarlaus, en fékk eitt glas af bjór hjá gestgjafa.

Síðan fór eg á lestina á tilteknum tíma. Eg fann hvorki ostinn né brauðið. Eg dottaði í sæti mínu af og til um nóttina, en leið nú samt heldur illa. Kl. 9 næsta morgun komum við loks til Chi-

*)Staðir er verzluðu með ónotuð farbréf, er keypt voru fyrir lítið af ferðamönnum. Nú bannaðir með lögum.

og er það fremur bending frá nefndinni, að dregið sá frá væntanleg sölulaun, og þess utan skynsamlegur afsláttur á bókuðu eignarverði eldri ritanna. En fremur þykir okkur æskilegt að í skýrslu skjalavarðar sé sundurliðað yfirlit, hvað óselt er af hverjum árgangi tímaritsins frá fyrstu tíð.

*A. P. Jóhannsson,*
*B. B. Olson,*
*A. J. Skagfeld,*
*Gunnar Johannsson,*
*Þ. J. Gíslason.*

A. B. Olson lagði til, en Jónas Jóhannesson studdi, að samþykkja nefndarálitið, sem lesið. Breytingartillaga kom frá Jakob Kristjánssyni er J. Húnfjörð studdi, að vísa álitinu aftur til nefndarinnar. — Var breytingartillagan samþ. í einu hljóði. — Þá las forseti bréf það frá hr. Aðalsteini Kristjánssyni er hér fylgir:—

Rev. Jónas Sigurðsson,
Forseti Þjóðræknisfélags
Vestur-Íslendinga.

Herra forseti:—

Í annari viku febr., sendir þú út fundarboð og áskorun til Vestur-Íslendinga, í blöðum okkar hér . Svo virðist áskorun þessi vera stíluð, að flestir þeir, sem fæddir eru á Íslandi, eða af íslenzku bergi brotnir, mættu gjarnan athuga, hvort nokkrar líkur eru til samvinnu.

Líklega eru flestir af okkar þjóðerni sammála um það, að framhald á þjóðræknis viðleitni,—framhald á einhvers konar sambandi, við fráneyga frónsbúa, sé æskilegt, — það er sjálfsagt ósk og von allra, sem hér eiga hlut að máli, að það samband haldist sem lengst.

Mestar líkur virðast til þess, að innan fárra ára, þá verði viðhald—eða framhald—á því sambandi, algjörlega á valdi, afkomenda landnemanna íslenzku, því svo fáir flytji nú af Íslandi til Norður Ameríku. Er því ekki alvarlegasta spursmálið, fyrir þá, sem nú gefa svo mikið af tíma og kröftum fyrir þetta þjóðræknismál, hvernig stefnu og störfum félagsins geti orðið svo fyrir komið að næsta kynslóð, haldi svipuðu starfi áfram?— Haldi samband við Ísland. — Þeir útlendingar hér í Ameríku, sem af einhverjum ástæðum finna löngun til þess að halda trygð við átthaga forfeðranna, munu æfinlega finna viturlega fyrirmynd hjá "The American Scandinavian Foundation" í New York. Það geta varla orðið skiftar skoðanir um það, að sá félagsskapur hefir unnið uppvaxandi kynslóðinni hér, og Norðurlanda meira gagn — haldið þeim betur saman—og því aðaláherzlan var ekki lögð á viðhald Norðurlandamálanna, sem aðeins hefði verið mögulegt um stutta stund. Svo virðist að þeir sem trygglyndastir eru við siði og venjur forfeðranna, gleymi því að heppilegra mundi, að miðla svo málum.— Halda ekki svo fast í hið umliðna—að uppvaxandi fólkið bíði tjón við þátttöku í félagsmálum, eða neiti með öllu að halda þeim áfram — halda í horfinu. Næsta kynslóð, sem hlotið hefir þegn og þjóðarréttindi Norður-Ameríku, í vöggugjöf og tannfé, hefir svo margt að læra, og mörgum skyldum að sinna.

Veigamesti aflgjafi í starfsemi og framkvæmdum "The Scandinavian Foundation" er þátttaka hins mentaða fólks ,sem hér í álfu er borið og barnfætt. Er ekki þar að finna þarfa bendingu fyrir Þjóðræknisfélagið íslenzka.

Tilefni þessa miða var að bjóða $100.00 (hundrað dollara) verðlaun fyrir ritgjörð, sem talin væri gagnlegust, og bezt samin, af nefnd, sem kosin væri til þess að dæma þar um. Ritgjörð þessi yrði svo prentuð í Tímariti Þjóðræknisfélagsins. Þar til að mér verður tilkynt hvort stjórnarnefndin vill nokkuð sinna þessu, virðist ástæðulaust að setja nokkur skilyrði fyrir þessu boði.

Virðingarfylst,
Aðalsteinn Kristjánsson.

Var samþykt tillaga frá E. P. Jónssyni, er A. Skagfeld studdi, að skipa þriggja manna nefnd til þess að athuga bréfið. Í nefndina voru skipaðir E. P. Jónsson, séra A. E. Kristjánsson og A. B. Olson. Þá lagði fjárlagaskýrslunefnd fram álit sitt að nýju. Lagði A. B. Olson til, en J. Húnfjörð studdi, að samþykkja álitið sem

lesið. Breytingartillaga kom frá A. Eggertssyni er J. F. Kristjánsson studdi að ræða álitið lið fyrir lið, og var hún samþykt. — Árni Eggertsson lagði til, en J. S. Gillis studdi, að samþykkja 1. lið óbreyttan. Var það gjört. — Þá lagði og Árni Eggertsson til, en E. P. Jónsson studdi að samþykkja 2. lið óbreyttan, og var það samþykt. — Þá lagði Árni Eggertsson til, en A. B. Olson studdi að 3. liður skyldi burtu feldur og skyldi strykast út af bókum félagsins. Var sú tillaga samþykt. eftir nokkrar umræður, með 24 atkvæðum gegn 19. — Þá lýstu þeir Klemens Jónasson og Árni Eggertsson, yfir því, í sambandi við 4. lið álitsins, að skýrslurnar hefðu verið við hendina, ef yfirskoðunarmenn hefðu leitað þeirra. Tillaga kom frá Árna Eggertssyni, er Bjarni Magnússon studdi, að við liðinn sé bætt: "Skulu yfirskoðunarmenn næsta árs fara yfir skýrsluna, og leggja álit sitt fyrir væntanlega stjórnarnefnd." Var tillagan samþykt. Síðan var liðurinn með þessari breytingu samþyktur sem 3. liður nefndarálitsins. Þá lagði Árni Eggertsson til, en A. B. Olson studdi, að samþykkja 5. lið nefndarálitsins óbreyttan, sem 4 lið, samþ. í einu hljóði. — Þá var samþykt tilaga frá Árna Eggertssyni, er A. B. Olson studdi, að samþykkja nefndarálitið með áorðnum breytingum. — Þá las séra Ragnar E. Kvaran nefndarálit, um söng- og íslenzkukenslu, er hér fylgir:

*Íslenzku- og söngkenzlunefndarálit.*

Nefnd, er var kosin til þess að fjalla um íslenzku- og sögukenslu, leyfir sér að leggja fram þessa eftirfylgjandi tillögu.

I. Þingið skorar á stjórnarnefndina, að leggja eins mikið kapp, og henni er mögulegt á það að efla íslenzku kenslu, hvar sem henni verður viðkomið.

II. Þingið heimilar stjórnarnefndinni, að verja alt að $300.00 þessu til styrktar.

III. Þingið skorar á stjórnina, að vekja öfluga hreyfingu í þá átt, að almenningur færi sér í nyt ákvæði fylkisstjórnarinnar, viðvíkjandi kenslu í miðskólum fylkisins, og jafnframt væntir það þess að hún geri grein fyrir því, er hún hefir þegar gert í því máli, á þessu ári. Þykir nefndinni sérstaðlega miklu máli skifta, að ekki sé lagt undir höfuð að hvetja skólanefndir í íslenzkum héruðum til þess að greiða fyrir þessu máli.

IV. Þingið heimilar stjórnarnefndinni, að ráða hr. Brynjólf Þorláksson, til þess að halda uppi kenslu í íslenzkum söng, meðal barna í Winnipeg, og ábyrgist ekki minna en þriggja mánaða kaup til hans fyrir það starf.

V. Nefndin æskir þess að stjórnarnefndin geri grein fyrir störfum sínum í því máli, er henni var falið á síðasta þingi, að hefja tilraun til sjóðstofnunar í því skyni, að stofnað yrði prófessorsembætti, við Manitoba-háskólann í íslenzkum fræðum.

23. febr. 1927.

*Ragnar E. Kvaran*, *Carl J. Olson*,
*H. S. Bardal.*

Var samþykt tillaga frá séra Ragnar E. Kvaran, er Bjarni Magnússon studdi, að ræða álitið lið fyrir lið.

1. liður, Ásmundur P. Jóhannsson lagði til, en E. P. Jónsson studdi, að samþykkja liðinn óbreyttan. — Breytingartillaga kom frá Séra Ragnari E. Kvaran, er Klemens Jónasson studdi, að bæta við liðinn: "Skal ritara falið að sjá um samvinnu við skólanefndir um þessi mál." — Var breytingartillagan samþ. með 16. atkvæðum gegn 9. Var fyrsti liður síðan samþyktur með áorðinni breytingu.

2. liður, Séra Rögnvaldur Pétursson lagði til, en Ásmundur Jóhannsson studdi að samþykkja liðinn óbreyttan. Tillagan samþykt.

3. liður. Var samþykt tillaga frá Ásmundi Jóhannssyni, er Bjarni Magnússon studdi, að hann sé samþyktur óbreyttur.

4. liður. Við hann kom breytingartillaga frá Ágúst Sædal, er Árni Eggertsson studdi, að liðurinn skuli hljóða þannig: "Þingið skorar á Fróns-deildina að taka að sér að sjá um að fá Brynjólf Þorláksson hingað til Winnipeg, til söngkenslu, eftir því sem um semst með honum og deildinni, með tilliti til þess styrks, er margir ágætir Frónsdeildarmenn hafa lofað." Eftir nokkrar umræður kom

fram, sem afleiðing þeirra, breytingartillaga við breytingartillögu, frá J. J. Bíldfell, er séra Ragnar E. Kvaran studdi, er svo hljóðar: að í stað 4. liðs komi: "Þingið tekur með þakklæti tilboði, velþektra Winnipeg Íslendinga, um að taka að sér að sjá um að Br. Þorláksson sé ráðinn, til þess að kenna íslenzkum ungmennum í Winnipeg söng á komandi hausti." Var breytingartill. við breytingartill. samþykt með 24 atkvæðum gegn 14. — Var liðurinn síðan samþyktur, með þessari breytingu áorðinni.

5. liður. Um hann urðu töluverðar umræður, sem voru óútkljáðar kl. 6 síðdegis. Var því samþykt tillaga, um að fresta fundi til kl. 10. f. h. næsta dag.

Að kvöldi sama dags, miðvikudagsins, var haldin samkoma, Íslendinga-mót í Goodtemplarahúsinu að tilhlutun þjóðræknisdeildarinnar "Frón." Var þar löng og ágæt skemtiskrá. Forseti deildarinnar hr. Hjálmar Gíslason, setti samkomuna, og bauð menn velkomna, og bað menn standa á fætur og syngja "Eldgamla Ísafold." Að því búnu flutti hann erindi. Mrs. H. Helgason lék á píanó; séra Albert E. Kristjánsson flutti erindi um íslenzkar dygðir; Þorsteinn Þ. Þorsteinsson las frumort kvæði, nýtt; Mr. Sigfús Halldórs frá Höfnum söng, en ungfrú Bergþóra Johnson lék með á píanó; séra Ragnar E. Kvaran las upp; Mrs. Jón Stefánsson söng nýtt lag eftir Jón Friðfinnsson, er hann hafði tileinkað söngkonunni, en Mrs. B. H. Olson lék með á píanó; hr. E. P. Jónsson las kvæði eftir Hannes Hafstein, og annað frumsamið; hr. Árni Stefánsson söng, en hr. Ragnar H. Ragnar lék með á píanó, var þá lokið skemtiskránni, en forseti bað fólk rísa úr sætum og syngja þjóðsöng Canada: "O, Canada." Dr. Sig. Júl. Jóhannesson er flytja skyldi erindið gat ekki komið sökum anna. Að lokinni skemtiskránni bað forseti menn að ganga niður í fundarsal hússins, og setjast að veitingum, var svo mikill mannfjöldi að þrisetja varð við veizluborðin. Munu þar hafa verið samankomin um 500 manns.

Þá er borð voru upptekin gengu menn aftur upp í þingsalinn og stigu þar danz til kl. rúmlega 1 eftir miðnætti.

Fundur var settur aftur á fimtudaginn 24. febr. kl. 10. f. h., — las ritari fundargjörð annars þingdags og var hún samþykt sem lesin.

Þá lá fyrir 5. liður, íslenzku- og söngkenslu nefndarálits. Spunnust um hann nokkrar umræður, en að lokum lögðu þeir B. B. Olson og H. S. Bardal, rökstudda dagsskrá, er svo hljóðaði: "Í fullu trausti um að stjórnarnefndin sjái um að þetta mál verði meðhöndlað á komandi ári, á þann hátt, sem félaginu verður fyrir beztu, tekur þingið fyrir næsta mál á dagsskrá."

Var dagsskrá þessi borin undir atkvæði, og samþykt með 21 atkvæði gegn 3.

Þá las forseti skýrslu milliþinganefndar þeirrar, er skipuð var í fyrra til þess að hafa með höndum *byggingamál Þjóðræknisfélagsins,* og hér með fylgir:

Skýrsla nefndarinnar, er skipuð var í byggingamál Þjóðræknisfélagsins, á síðasta þingi 24. febr. 1926.

Nefnd þessi, er skipuð var á síðasta þingi leyfir sér að skýra frá því, að engar framkvæmdir hefir hún haft í þessu máli, á síðastliðnu ári. Fé hafði hún ekkert með höndum, því þótt leyfi fengi hún hjá þinginu, að nota leyfar Ingólfssjóðsins, þá veittist henni það umboð of seint, ekki fyr en í júlí-mánuði—til þess að henni þætti ráðlegt að festa kaup á bæjarlóð, fyrir tilvonandi félagsheimili, en á því var sjálfsagt að byrja. Mæla vill hún þó með því, að félagið vindi að því sem bráðastan bug, að festa sér grunn fyrir þetta fyrirhugaða heimili, á meðan verð á bæjarlóðum stígur ekki upp úr því sem nú er.

23. febr. 1927.

*Árni Eggertsson.* *Rögnv. Pétursson,*
*Fr. Kristjánsson.*

Var samþykt tillaga frá Bjarna Magnússyni, er B. B. Olson studdi, þess efnis að fela málið milliþinganefnd, skyldu sömu menn skipa nefndina og síðastliðið ár.

Þá las forseti yfirlýsingu þá um söngkenslustarf Brynjólfs Þorlákssonar, er

hér fylgir, og það þingheim að veita henni samþykki sitt með því að standa á fætur.

Var svo gjört.

"Þjóðræknisfélagið lýsir ánægju sinni yfir ágætu starfi hr. Bryjólfs Þorlákssonar í þarfir söngkenslu ungmenna í hinum ýmsu bygðum Íslendinga vestanhafs, og þakkar honum velunnið verk."

Þá las Jón Tómasson skýrslu milliþinganefndar um íþróttamál, er hér fylgir:

"Glímunefndin hefir ekki gert mikið á árinu, fyrst og fremst vegna þess, að hún hefir ekki haft miklu fé úr að moða, að eins það sem afgangs var frá síðasta ári, og það, sem inn kom fyrir glímurnar í fyrra; en svo hefir það háð nefndinni, að hún hefir ekki mætt þeim undirtektum, er hún bjóst við, þar sem hún hefir leitað fyrir sér. Ritari skrifaði í tvo staði í haust, til Gimli og Wynyard, en ekki svar fengið. Formaður nefndarinnar, Ben. Ólafsson, hefir haldið uppi æfingum í vetur norður við Oak Point, þar sem hann hefir stundað fiskiveiðar. — Nefndina hefir langað að leggja fyrir þingið tillögu, um frekari gangskör að því að hrinda þessu máli áfram, en sökum fjarveru forsetans hefir hún ekki náð saman til fundar, og núna þegar hann kom til bæjarins til að taka þátt í glímunni, þá þurfti hann að fara burtu næsta dag. Nefndin verður því að láta þinginu eftir að ráða fram úr því, hvort ekki sé hægt að gera meira en áður þessu máli til eflingar. Fjárhagur nefndarinnar er þessi:

| | |
|---|---|
| Í sjóði 1. jan. 1926. .......... | $180.00 |
| Ágóði af glímumóti ............ | 52.75 |
| 31. maí, vextir ............... | 0.85 |
| 30. nóv., vextir ............... | 1.60 |
| | $235.20 |

Gjöld—

| | |
|---|---|
| 7. febr., til verðlauna .......... | $100.00 |
| 1.—3. mar., augl. og prent. ..... | 18.79 |
| 20. marz, styrkur (húsal.) til Sleipnis | 25.00 |
| 20. marz, fyrir glímubeltið .... (Fyrir Oak Point) | 15.00 |
| 11. febr. í sjóði ............... | 76.41 |
| | $235.20 |

Var samþykt tillaga frá Ágúst Sædal, er Andr. Skagfeld studdi, að vísa skýrslunni til þriggja manna þingnefndar.

Í nefndina voru skipaðir: Sigfús Halldórs frá Höfnum, Jón Tómasson og Ágúst Sædal.

Þá las Einar P. Jónsson skýrslu milliþinganefndar um Björgvinsmálið, þá er hér fylgir:

"Til áttunda ársþings Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi.

Á síðasta ársþingi Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi, var eg undirritaður kosinn í nefnd ásamt með séra Friðrik A. Friðrikssyni og Dr. J. P. Pálssyni, til að annast um framkvæmdir í Björgvinsmálinu.

Höfum við frá þeim tíma starfað í samráði við nefnd þá, er söngflokkur Björgvins, frá í fyrra, kaus. Hefir nefndin sem kunnugt er, haldið málinu vakandi, í íslenzku blöðunum, við góðum árangri, þar sem safnast hefir í námsstyrktarsjóð Björgvins um $2,248.98. Hefir Björgvin nú sem kunnugt er stundað nám við konunglega hljómlistaskólann í Lundúnarborg, síðan í haust og rækt námið af frábæru kappi.

Samkvæmt margítrekuðum yfirlýsingum í vestanblöðunum íslenzku, er ráðgert að Björgvin stundi nám við stofnun þessa, í þrjú ár alls. Til þess þarf að sjálfsögðu allmikið fé. En því treysti eg eindregið, og hið sama hygg eg að meðnefndarmenn mínir allir geri, að Vestur-Íslendingar skilji eigi fyr við málið, en því sé borgið að fullu. En skoðun mín, og hinna nefndarmannanna, er sú, að þjóðfélag vort muni síðar meir mikla sæmd hljóta, af tónlistarstarfi hr. Björgvins Guðmundssonar, ef honum endist heilsa og líf. Sómi vor liggur við að málinu sé enn haldið glaðvakandi, og leyfi eg mér því að fara þess á leit, við háttvirt þing, að það kjósi nefnd í málið á ný.

Á þjóðræknisþingi í Winnipeg,

Einar P. Jónsson."

Var samþykt tillaga frá J. S. Gillis, er B. B. Olson studdi, að samþykkja skýrsluna sem lesna.

Þá var og samþykt tilaga frá Árna Eggertssyni, er Guðm. Jónatansson studdi, að fela Börgvinsmálið sömu milliþinganefndinni og skipuð var í fyrra.

Þá las séra Ragnar E. Kvaran álit það frá samvinnumálanefnd er hér fylgir:

Nefndin, sem skipuð var til að fjalla um samvinnumál við Ísland, hefir engar ákveðnar tillögur fram að bera. Hún lítur svo á, að þeim málum, sem sérstaklega sé samvinnuþörf á, og nú liggi beinlínis fyrir, sé þegar ráðstafað á hagkvæman hátt. Nefnd sú, sem stjórnarvöld Íslands hafa skipað til þess að sjá um undirbúning á Alþingishátíðinni miklu, hefir æskt samvinnu við þetta félag. En í það mál hefir þegar verið kosin sérstök nefnd af vorri hálfu. — Eins hefir stjórnarnefnd félagsins haft svokallaða "Selskinnu" með höndum, og teljum vér víst, að hún láti sér ant um, að sem mestur árangur verði af sendingu hennar hingað vestur. Að öðru leyti væntir nefndin þess, að stjórnarnefndin annist dygilega þau mál, sem upp kunna að koma á árinu, og undir þennan starfslið félagsins heyra.

Ragnar E. Kvaran,
Á. P. Jóhansson."

Lagði séra Rögnvaldur Pétursson til, en B. B. Olson studdi, að samþykkja álitið sem lesið; — var tillagan samþykt í einu hljóði. — Þá var samþykt tillaga frá Árna Eggertssyni, studd af A. Skagfeld, að fresta fundi til kl. 2 e. h.

Fundur var settur aftur sama dag, kl. 2 e. h. — Var þá gengið að kosningu embættismanna.

B. B. Olson stakk upp á séra Ragnari E. Kvaran, sem forseta, en Árni Eggertsson stakk upp á séra Jónasi A. Sigurðssyni. — Var samþykt tillaga frá A. B. Olson, er A. Skagfeld studdi, að útnefningum skyldi lokið.

Séra J. A. Sigurðsson bað sér hljóðs, og kvaðst óska að draga sig til baka frá útnefningu, og lagði til, að séra Ragnar E. Kvaran skyldi kosinn í einu hljóði. Studdi B. B. Olson tillöguna. Var hún samþykt í einu hljóði, og séra Ragnar E. Kvaran þar með kjörinn forseti. — Varaforseti var endurkosinn í einu hljóði J. J. Bíldfell, samkvæmt tillögu frá G. E. Eyford, en séra Rögnv. Pétursson studdi, eftir að samþykt var tillaga frá Árna Eggertssyni, er G. E. Eyford studdi, að útnefningum skyldi lokið.

Eftir að lagt hafði verið til, að hr. Sigfús Halldórs frá Höfnum skyldi endurkosinn ritari, lýsti hann því yfir, að hann væri ekki í vali. Afsökuðu sig margir frá kjöri, en að lokum var Einar P. Jónsson kosinn ritari, eftir að hann loks gaf kost á sér. Vara-ritari var G. E. Eyford kosinn í einu hljóði, samkvæmt tillögu frá séra Albert Kristjánssyni, studdri af Sigfúsi Halldórssyni frá Höfnum. Gjaldkeri var kosinn Árni Eggertsson í einu hljóði, samkvæmt tillögu frá Klemens Jónassyni, er Jakob Kristjánsson studdi. —Varagjaldkeri var Jakob Kristjánsson kosinn í einu hljóði, samkvæmt tillögu frá Árna Eggertssyni, er séra Albert Kristjánsson studdi. — Fjármálaritari var kosinn Halldór S. Bardal í einu hljóði eftir að hafa loks gefið kost á sér, er Klemens Jónasson hafði færst undan endurkosningu, og margir aðrir, og er kosinn samkvæmt tillögu frá Sigfúsi Halldórs frá Höfnum, er séra Albert Kristjánsson studdi.

H. S. Bardals stakk upp á Ágúst Sædal sem vara fjármálaritara, en Björn Pétursson upp á Jóni Tómassyni. Var gengið til atkvæða, og Ágúst Sædal kosinn vara-fjármálaritari með 40 atkvæðum, en Jón Tómasson hlaut 36. — Skjalavörður var Páll S. Pálsson kosinn í einu hljóði, samkvæmt tillögu frá séra Ragnari E. Kvaran, er Klemens Jónasson studdi. — Endurskoðunarmenn voru kosnir í einu hljóði: J. W. Jóhannsson og B. B. Olson, er gáfu kost á sér, eftir að margir höfðu afsakað sig frá kjöri. Lagði Einar P. Jónsson það til, en Sigfús Halldórs frá Höfnum studdi.

Þá var næst tekið fyrir, frumvarp til *grundvallarlagabreytinga,* er milliþinganefndin hafði lagt fram, sem hér segir:

—Var samþykt tillaga frá Á. Eggertssyni. er J. S. Gillies studdi, að ræða frumvarpið lið fyrir lið.

1. gr. samþ. óbreytt, eins og hún var í gömlu lögunum. 2. gr. sömuleiðis. 3. gr. samþ. í einu hljóði án breytinga. 4 gr. samþ. óbreytt frá gömlu lögunum. 5. gr. samþ. í einu hljóði án breytinga. 6. gr. sömuleiðis. 7. gr. sömuleiðis. 8. gr. sömuleiðis.

9. gr. samþ. með þeirri breytingu, að á milli orðanna löggiltum banka" og "í Winnipeg" að í C-lið komi orðin: "eða í sparisjóði fylkisins."

10. gr. samþ. með þeirri breytingu, að við hana bætist, L-liður, er hljóðar svo: "Afhenda féhirði tíu dögum fyrir þing afrit af skýrslunni fyrir liðið ár."

11. gr. samþ. óbreytt í einu hlj. 12. gr. sömuleiðis. 13. gr. samþ. óbreytt úr gömlu lögunum. 14. gr. samþ. óbreytt í einu hljóði. 15. gr. sömuleiðis.

16. gr. samþ. með þeirri breytingu, að milli orðanna "eða stjórnarnefnd" og "beiðni um," komi orðin: "félagsins eða forseta, og stjórnarnefndar deild þess."

17. gr. samþ. óbreytt í e. hljóði 18. gr. sömuleiðis. 19. gr. sömul. 20. gr. sömul.

21. gr. var samþ. með 26 atkv. gegn 13, eftir að Ásm. P. Jóhansson hafði beðið um nafnakall. — Já sögðu: J. J. Bíldfell, Bj. Lindal, Mrs. Bj. Lindal, Miss Björg Thorsteinsson, Mrs. A. Sigurðsson, Albert E. Kristjánsson, Mrs. P. S. Pálsson, Th. Gíslason, Jón Einarsson, G. E. Eyford, Mrs. B. Byron, Gunnar Jóhannsson, Sig. Bjarnason, Bjarni Magnússon, A. B. Olson, R. E. Kvaran, Klemens Jónasson, J. Sigmundsson, Þorl. Þorfinnsson, Guðm. Bjarnason, Ágúst Sædal, Th. Magnússon, H. S. Bardal, J. F. Kristjánsson og B. B. Olson. — Nei sögðu: Árni Eggertsson, Ásm. P. Jóhannsson, Mrs. Dorothea Pétursson, Lúðvík Kristjánsson, Mrs. Ragnh. Davíðsson, S. Halldórs frá Höfnum, Miss Elín Hall, Mrs. Gísli Jónsson, Andrés Skagfeld, Th. Thorgeirsson, Gunnar Guðmundsson og J. W. Jóhannsson.

22. gr. samþ. óbreytt frá gömlu lögunum. Og greinarnar 23.—27. sömuleiðis.

Því næst var samþykt tillaga frá J. J. Bíldfell, er B. B. Olson studdi, að samþykkja alt frumvarp milliþinganefndarinnar, með þannig áorðnum breytingum. Skyldu lögin öðlast gildi þegar í stað.

Þá var lesið nefndarálit það, er hér fylgir, um tilboð hr. Aðalsteins Kristjánssonar:

"Undirrituð nefnd, er skipuð var af forseta, til að íhuga tilboð hr. Aðalsteins Kristjánssonar um $100 verðlaun fyrir ritgerð, er talin væri gagnlegust og bezt samin, samkvæmt úrskurði þar til kjörinnar nefndar. (Ritgjörðin síðan birt í Tímariti Þjóðræknisfélagsins).

Nefndin leggur til, að tilboðinu sé tekið, með þökkum, og stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins falin framkvæmd málsins, í samráði við hr. Aðalstein Kristjánsson, um samningu reglugjörðar fyrir veitingu verðlaunanna, o. s. frv.

Á þjóðræknisþingi í Winnipeg,
24. febr. 1927.

*Einar P. Jónsson,*
*A. B. Olson,*
*A. E. Kristjánsson.*

Svo var nefndarálitið samþykt, sem lesið, með öllum greiddum atkvæðum.

Því næst var lesið álit Tímaritsnefndarinnar, er hér fylgir:

Til forseta og þingheims Þjóðræknisfélagsins.

Nefndin, sem sett var í Tímaritsmálið, leyfir sér að gera eftirfylgjandi tillögu:

1. Að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins sé falið að annast útgáfu næsta Árgangs Tímaritsins, á sama hátt og að undanförnu.

2. Að allir félagar Þjóðræknisfélagsins, sem borgað hafa eins dollars ársgjald fyrir árið 1927, og nýir félagar, fái Tímaritið ókeypis, ef þeir æskja, en að ritið sé selt utanfélagsmönnum á einn dollar.

3. Að stjórnarnefndinni sé falið, að ráða ritstjóra og auglýsinga umboðsmann ritsins fyrir komandi ár.

Winnipeg, 23. febr. 1927.

*Th. J. Gíslason, B. Pétursson,*
*Árni Eggertsson, J. J. Bildfell,*
*J. F. Kristjánsson.*

Var samþykt að ræða það lið fyrir lið. — 1. liður var samþ. í einu hljóði. 2. og 3. liður sömuleiðis.

Nefndaráltið síðan lesið upp í heild sinni og samþykt í einu hljóði.

Þá var lesið álitsskjal íþróttanefndarinnar, er hér fylgir:

Nefndin álítur að stofnun voldugs íþróttasambands meðal Íslendinga í Vesturheimi, eigi að vera eitt af aðal markmiðum Þjóðræknisfélagsins. Álítur nefndin, að tafarlaust beri að hefjast handa í því efni, svo eigi verði um seinan. Álítur hún enn fremur, að því verði bezt á stað hrundið með líku fyrirkomulag og því sem á er um söngkenslu Br. Þorláksonar, enda hafi þess þegar fengist nokkur raun með starfsemi Haralds Sveinbjörnssonar í Norður-Dakota í fyrrasumar.

Vill nefndin því leggja til við þingið:

1. Að skýrslu milliþinganefndarinnar sé veitt viðtaka eins og hún var lesin og síðan vísað til yfirskoðunarmanna.

2. Að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins sé falið að leita samninga við hr. Harald Sveinbjörnsson, íþróttakennara um að koma á fót íþróttanámskeiði í Winnipeg og íslenzkum bygðarlögum, norðan og sunnan landamæranna, nú þegar í sumar.

3. Að fáist hr. Haraldur Sveinbjörnsson til þess, þá sé nefndinni veittir alt að því $400 úr félagssjóði, til þess að standa straum af upphafi þessa fyrirtækis.

4. Að hér sé hr. Haraldur Sveinbjörnsson ekki fáanlegur, þá sé væntanlegri milliþinganefnd veitt alt að því $150 til þess að senda menn og glímukennara út um bygðir þær, er kynnu að óska þess, til þess að stofna glímufélög, og halda vakandi áhuga íþróttamanna unz betur kann að blása.

Winnipeg, 23. febr. 1927.

*Jón Tómasson. Á. Sædal.*
*Sigfús Halldórs frá Höfnum.*

Var samþykt að ræða það lið fyrir lið.

1. liður samþ. í einu hljóði, samkvæmt tillögu A. P. Jóhannssonar, er J. F. Kristjánsson studdi.

2. liður. Um hann spunnust töluverðar umræður. Leizt öllum ákjósanlegt að fá hr. H. Sveinbjörnsson til þess að standa fyrir íþróttanámskeiði, en kom ekki saman um leiðina. — En eftir að Arinbjörn S. Bardal hafði lofað að gefa $100 á þessu ári, til þess að hrinda þessu í áttina, lofaði einnig Ásm. P. Jóhannsson að gefa $100 þessu til styrktar á þessu ári, og J. W. Jóhannsson lofaðist til að safna $100 á þessu ári til styrktar fyrirtækinu. — Bar þá Grettir Jóhannsson fram þá tillögu, er G. E. Eyford studdi, að 2. liður skyldi falla burt, en í stað hans koma 2. liður er svo hljóðar: "Að skipuð sé þriggja manna þingnefnd til þess að leita fyrir sér um möguleika á aðstoð hr. H. Sveinbjörnssonar, til þess að koma á íþróttanámskeiðum svo fljótt sem unt er, í sambandi við íþróttafélagið "Sleipnir" eða önnur núverandi íþróttafélög íslenzk í Ameríku."

Þá var samþykt tillaga frá S. Halldórs frá Höfnum er A. P. Jóhannsson studdi, að fella burtu síðari liði (3. og 4.) nefndarálitsins. Var álitið síðan borið undir atkvæði, með áorðnum breytingum og samþykt í einu hljóði, og í milliþinganefnd skipaðir: S. Halldórs frá Höfnum, Á. Sædal og Grettir Jóhannsson.

Þá var samþykt tillaga frá Sigfúsi Halldórs frá Höfnum, er G. E. Eyford studdi, að skipa skyldi sjö manna milliþinganefnd, fjórar konur og þrjá karlmenn, til þess að útvega verustað handa fátækum íslenzkum börnum, úr Winnipeg, á íslenzkum sveitaheimilum, í sumarfríinu. Í nefndina skipaði forseti: Mrs. R. E. Kvaran, Mrs. F. Swanson, Mrs. Dórótheu Pétursson, Mrs. B. E. Johnson, Mr. Bjarna Magnússon, Mr. G. K. Jónatansson og Mr. Sigfús Pálsson.

Þá lagði fram álit sitt þingnefnd sú, er skipuð hafði verið til þess að athuga kæruskjal það til þingsins frá Birni Péturssyni, er hér fylgir:

"Nefnd sú, er skipuð var til þess að athuga bréf það, er þinginu barst frá B. Péturssyni, og hefir að innihalda umkvörtun, í sambandi við prentun áttunda árgangs Þjóðræknisritsins. Við höfum

af ítrasta megni leitast við, að afla okkur nauðsynlegra upplýsinga, viðvíkjandi deiluatriði fyrnefnds bréfs; og að fengnum upplýsingum, í sambandi við prentun á téðum árgangi ritsins, sér nefndin ekki, að ágreiningsatriði þau, er bréfið fjallar um, sé þess eðlis, að þau snerti Þjóðræknisfélagið, þar eð það hefir ekki beðið hinn minsta fjárhagslegan halla á neinn hátt.

Winnipeg, 24. febr. 1927.

*Á. S. Sædal,* *B. Magnússon,*
*H. S. Bardal* *G. Jóhannsson.*
*G. E. Eyford.*

Jónas Jóhannesson lagði til, en J. W. Jóhannsson studdi, að samþykkja nefndarálitið sem lesið.

Séra Albert Kristjánsson mótmælti nefndarálitinu, sem ónógu. Sigfús Halldórs frá Höfnum tók og í sama streng, og bar fram tillögu um, að 11. fundargjörningur stjórnarnefndar Þjóðræknisfélagsins yrði lesinn, studd af A. B. Olson. — Mr. J. J. Bildfell og P. S. Pálsson skýrðu afstöðu meirihluta stjórnarnefndarinnar. Mr. Sigurbj. Sigurjónsson bar fram rökstudda dagskrá, um að þetta mál sé lagt yfir til óákveðins tíma, studda af Árna Eggertssyni. Samþ. með öllum greiddum atkvæðum, nema einu. Var þá fundi frestað til kl. 8 e. h.

Aftur var tekið til fundarstarfa á ákveðnum tíma. Við fundarbyrjun báru þeir séra Rögnv. Pétursson og E. P. Jónsson upp samhygðar-yfirlýsing þingsins út af láti tónskáldsins próf. Sveinbjörns Sveinbjörnsonar er borið hafði að í Khöfn daginn áður. Var tillagan samþykt með því að þingmenn stóðu á fætur. Samþykt var að senda ekkju tónskáldsins, frú Elinore Sveinbjörnsson samúðarskeyti og forseta og ritara falið að sjá um sendingu þess.

Þá flutti séra Rögnvaldur Pétursson þinginu kveðju frá hr. St. G. Stephansson, og gat þess, að hann hefði orðið fyrir heilsumissi þann 16. des. f. á. Hann gat þess, að hann væri nú það hress, að hann gæti komist á fætur, um lítinn tíma dagsins, en væri að eins fær um að skrifa bréf með hvíldum. — Séra Rögnvaldur bar fram samhygðar ávarp til skáldsins og samþykti þingheimur það með því að standa á fætur, og votta skáldinu samhygð sína og þakklæti.

Þá minnist séra J. A. Sigurðsson látinna félaga á árinu.

Þá las Sigfús Halldórs frá Höfnum upp þrjú bréf, er Miss Salóme Halldórsson hafði sent honum og beðið hann að lesa upp á þingi Þjóðræknisfélagsins Voru þau þess efnis, að leita eftir hvort Þjóðræknisfélagið vildi leita til Miss Thorstínu Jackson, til fyrirlestrarferða.

Tillaga frá séra R. Péturssyni, studd af Sigfúsi Halldórs frá Höfnum, að fela stjórnarnefndinni það mál til meðferðar. Samþykt í einu hljóði. — Því næst ávarpaði fráfarandi forseti þingheim og hinn nýkjörna forseta nokkrum hlýjum og velvöldum orðum.

Hinn nýkjörni forseti ávarpaði þingheim, nokkrum orðum, til hvatningar í þjóðræknisstarfinu, og lagði aðal áherzluna á samvinnu einstaklinganna, er grundvölluð væri á skilningi á tilgangi félagsins. Ræðumaður benti og á, að framtíðarstarf Þjóðræknisfélagsins, þyrfti meira að snúast að málum æskulýðsins, en verið hefði.

Því næst var upplesinn fundargerningur og samþyktur.

Fundi, og þar með Þjóðræknisþingi slitið.

*Ragnar E. Kvaran,* forseti.
*Einar P. Jónnsson,* skrifari.



# Hveitikaupfélög Bænda.

Miklar breytingar hafa orðið á verzlun og viðskiftum manna á síðari árum. Miða flestar að sívaxandi samtökum meðal þeirra er stunda skyldar atvinnugreinar, og hafa sömu hagsmuna að leita. Fyrir fáum árum þektust ekki þessi samtök er nú mega heita almenn og ráða svo að segja lofum og lögum í verslunarheiminum.

Fyrstu samtök af þessu tægi voru auðvitað samtök verksmiðjufélaga, járnbræðslustofnana og stór-iðnaðarmanna. Næst á eftir honum verkamannafélögin. En samtök meðal bænda voru fá og smá. Sú trú lág jafnvel á, að iðnaðar- og verzlunar-samtök meðal bænda væri eiginlega ómöguleg. Hagsmunir þeirra og framfarir væri svo nátengd sveitinni, sem þeir byggi í að óhugsandi væri að þeir gæti átt nokkuð sameiginlegt með þeim, sem heima átti í fjarlægum héruðum, að um það væri ekki eyðandi einu orði. Þeir yrði að sætta sig við þau kjör er af því leiddu að hafa ekkert að segja yfir verði á þeim afurðum er þeir framleiddu. Þeim var velkomið að kvarta undan okinu, sem þeim var á herðar lagt. Það var hér um bil það eina, sem þeir gátu.

Nú er þessu breytt. Fátt hefir tekið meiri stakkaskiftum, einkum í Veturlandinu, en einmitt þessi samtök meðal bænda. Er með þeim stórt spor stigið frá því sem áður var. Svo má að orði kveða að sala allra höfuð afurða sé nú komin í þeirra hendur og ráða þeir nú verði flest allra korntegunda, sem framleiddar eru í landinu, er þeir höfðu áður ekkert um að segja.

Þessi kaupfélagsskapur byrjar eiginlega allra samverzlunar samtaka í landinu, og því ennþá ekki komið í ljós hvaða hagnað hann getur haft fyrir bændur yfirleitt. Þó er hann búinn að sýna það, á þessum stutta tíma, að hagnaðurinn er geysi mikill, er stafar ekki eingöngu af verðhækkun, sem hann hefir orsakað, heldur því öryggi, sem hann hefir skapað. Það veltur ekki lengur á neinu með það að korntegundir verða í góðu verði, og verðið helzt jafnara en áður var.

Þessi kaufélagsskapur byrjar eiginlega ekki fyr en nú fyrir sex árum síðan. Er þá fyrst hafist handa með að sameina jarðyrkjubændur í alment samverzlunarfélag, er selja skyldi korn sitt í samlögum, og leitast við að halda uppi verði á því, með lántökum, ef ekki vildi betur til. Misjafnlega var spáð fyrir tilraunum þessum að þær myndi aldrei blessast. En það sem fjölda mótstöðumanna þessara samtaka ekki varði, tóku bændur strax vel í málið. Strax á fyrsta ári urðu margir til þess að ganga í þetta samband. Er næstum óskiljanlegt hve félagsskapurinn hefir vaxið ört á ekki lengri tíma. Á þessum sex árum hafa nú gengið í hann, eitt hundrað og fjörutíu þúsund bændur í þremur vestur-fylkjunum og yfir tíu þúsund í Ontario.

Félagsskap þessum er svo háttað að bændur innan hvers fylkis mynda allsherjar félag, er nefnast fylkjasamlög, (Provincial Pools). Hafa þau sína forstöðumenn, umsjónar- og eftirlitsmenn, er taka á móti öllu korni, er félagsmenn hafa til að selja. Hafa svo þessi fylkjasamlög aftur félög með sér, er útsölu hefir á öllu korni, er félögin hafa ráð yfir, og kallast þessi sameinaði félagsskapur "Hið canadíska hveitisamlag." (Canadian Wheat Pool). Verkaskifting verður þá þannig að fylkjasamböndin safna korn uppskerunni saman koma henni á hafnstaði, en yfirfélagið, eða fylkjasambandið, hefir söluna eingöngu á hendi. Er það gjört til þess að eitt samlagið undirbjóði ekki annað og að verð náist hið sama fyrir hvert korn, sem selt er í landinu.

Hve verslun þessi er orðin risavaxin, bendir félagatalan á, — 150,000 kornyrkjubændur. Þó fær maður ljósar hug-

mynd um veltumagn verzlunarinnar af þeim skýrslum, sem nýlega hafa verið birtar fyrir síðastliðið ár.

Á uppskeruárinu 1925—26 seldu bændur gegnum aðal samlagið, 215,016,000 bushel af korni. Upphæð þessi skiftist þannig: Af hveiti voru seld 187,500 bushel; af höfrum 11,024,000 bushel, 13,-221,00 bushel af byggi, 1,597,000 bushel af rúgi. Árið 1926—27 seldu vestur fylkin þrjú, gegnum samlagið, 197,950,242 bushel af hveiti og yfir 21,000,000 bushel af höfrum auk annara korntegunda. Var meira en helmingur allrar hveiti uppskeru Vestur-Canada seldur í gegnum félagið, eða rúm 53%.

Á þessu hausti á félagið orðið 912 kornhlöður, en alls hefir það í sínum höndum 942 hornhlöður að þeim meðtöldum, sem það leigir, er rúma yfir 30,000,-000 bushel. Auk þess hefir það 10 korngeymsluhús á hafnstöðum, er rúma 23,-000,000 bushel, og tvö ný korngeymsluhús hefir það nú í smíðum í Vancouver og Port Arthur er rúma, þegar þau eru fullgerð 9,500,000 bushel. Alt hefir þetta gert á sex árum! Í sjóði hefir félagið $15,000,000, er sparast hefir af upphaflega áætluðum sölukostnaði er þó ekki nemur nema broti úr centi á bushelið.

Útsöludeild félagsins seldi korn þetta til 24 ríkja, útlendra, í 60 höfnum og lendingarstöðum í Norðurálfunni. Helztu viðskiftanautar félagsins voru; Stóra Bretland, Ítalía, Holland, Þýzkaland, Belgía, Frakkland og Japan. Keypti Stóra Bretland mest 50,000,000 bushel, en Japan minst 6,500,000 bushel.

Allir fá inngöngu í fylkja samlögin (Pronvincial Pools) með því eina skilskilyrði að þeir benlínis eða óbeinlínis fáist við kornyrkju. Sá, sem í félagið gengur greiðir $2.00 í inngangseyri, er renni í félagssjóð og $1.00, sem hluttökufé í félagseigninni. Hann undirritar samning, er skuldbindur hann til að fá korn sitt félaginu í hendur. Samningar þessir eru gerðir til fimm ára, og eru óuppsegjanlegir nema félagsmaður leggi niður búskap. Er þeim þá lokið af sjálfu sér.

Á samningum þessum hvílir eiginlega allur félagsskapurinn. Félagsmenn með almennum kosningum, velja fulltrúa í hverju héraði, er mæta á ársþingi félagsskaparins þegar kosning stjórnarnefndar fer fram og verzunarskýrslur samlagsins eru athugaðar og yfirfarnar. Hvert fylkis-samlag er stjálfstæð eining út af fyrir sig, þótt samningsatriði og söluaðferðir sé mikið til hinar sömu hjá öllum. Hvert um sig velur sér framkvæmdarstjóra og forstöðunefnd og hefir alt umboð yfir kornhlöðunum innan sinna takmarka. Það hefir öll umráð yfir korni félagsmanna, frá því það kemur í hendur þess og þangað til á hafnarstað er komið, Fort William eða Vancouver, eftir því sem á stendur. Þá tekur hið sameinaða kaupfélag eða samlag við, og annast söluna. Er það yfirstjórn allra fylkja samlaganna og þannig skipuð að í hana eru kosnir þrír fulltrúar frá hverju fylkissambandi. Stofnskrá allsherjar sambandsins er gefin út og lögfest með samþykki sambandsþingsins í ágúst 1924. Þar er tekinn fram tilgangur félagsins og verkefni: "jarðyrkju félagsskapur, er settur er á stofn til þess að hafa markað allra korntegunda með höndum til hjálpar og hagsmuna fyrir félög og einstaklinga er í honum standa og enga aðra."

Saga félagsskaparins er líkust æfintýri. Þegar aðal sölubandið myndaðist, átti félagsskapurinn engar kornhlöður og varð að koma öllu korni fyrir og borga biðtoll á því er nam töluverðu gjaldi um mánuðinn. Með samþykki félagsmanna var leyft að leggja 2c á hvert bushel, er félagið seldi og verja þeim til kornhlöðukaupa. Varð það strax stórkostleg fjárupphæð. Uppskeruárið 1924-25 keypti Saskatchewan samlagið 90 kornhlöður og árið eftir, fyrir rúmar ellefu miljónir dollara, allar kornhlöður Sask. Co-oper. Elevator félagsins. Á það nú 727 kornhlöður innan fylkisins, auk korngeymsluhúsa á hafnstöðum austan og vestan. Alberta samlagið hefir umráð yfir 160 kornhlöðum og jafnmargar í smíðum. Manitoba samlagið á 56 og hefir sett sér að koma upp jafnmörgum á þessu ári.

# Tìmarit

## Þjóðræknisfélags Íslendinga

VII. ÁRGANGUR

Tilgangur félagsins er:

1. Að stuðla að því af fremsta megni, að Íslendingar megi verða sem beztir borgarar í hérlendu þjóðlífi.

2. Að styðja og styrkja íslenzka tungu og bókvísi í Vesturheimi.

3. Að efla samúð og samvinnu milli Íslendinga austan hafs og vestan.

Þetta er sá félagsskapur meðal Íslendinga í Vesturheimi er aðallega byggir á þjóðernislegum grundvelli, á svipaðan hátt og hin ýmsu þjóðernisfélög hér í álfu, svo sem "The United Scottish", "Sons of England" og fleiri.

Hver einasti Íslendingur í þessu landi ætti að standa í félaginu. Ársgjald fyrir fullorðna $1.00, unglinga frá 10—18 ára 25 cent, barna innan 10 ára aldurs 10 cent.

Markmið félagsins er, að vinna að framförum og samheldni meðal Íslendinga hér í álfu og að hjálpa til þess, að unglingum gefist kostur á að læra íslenzku, eftir því sem ástæður foreldranna kunna að leyfa.

Allar upplýsingar um félagið veitir "Félagsstjórnin" og má skrifa til hennar. Inngangseyrir og ársgjöld sendist til "Fjármálaritara", en áskriftargjaldið að Tímaritinu til "Skjalavarðar".

Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi.

P. O. Box 923, Winnipeg, Manitoba.

# Fjárhagsskýrsla

**Féhirðis Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi, yfir árið 1924**

---

**REIKNINGUR**

**yfir tekjur og gjöld Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi árið 1924**

TEKJUR:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Í sjóði 1. janúar 1924:— | | | | |
| | a) Í vörzlum féhirðis | $2062.02 | | |
| | b) Í Landsbanka í Reykjavík | 45.27 | | |
| | | | | $2107,29 |
| 1. | Félagsgjöld frá fjármálaritara | | | 193,23 |
| 2. | Kenslumálafé frá deildinni "Frón" | | | 265.00 |
| 3. | Óinnheimtar auglýsingar 1. jan. 1924, fyrri ára | | | 121.50 |
| 4. | Auglýsingar í V. árs riti | | | 1443.00 |
| 5. | Innkomið fyrir sölu f. á. rita:— | | | |
| | a) Hér megin hafs | $105.84 | | |
| | b) Á Íslandi | 222.83 | | |
| | | | | 328.67 |
| 6. | Andvirði seldra eintaka V. árs rits | | | 801.50 |
| 7. | 42 eintök seld af History of Iceland eftir K. Gjerset | | | 168.000 |
| 8. | Bankavextir | | | 6.03 |
| 9. | Óheimtar skuldir þriggja útsölumanna | | | 254.35 |
| | | | | $5688.57 |

GJÖLD:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1. | Tekjuhalli á aðalreikningi 1923 | | | $ 479.60 |
| 2. | Keypt 400 eintök af History of Iceland eftir K. Gjerset | | | 1016.28 |
| 3. | Kenslukaup í íslenzku | | | 610.00 |
| 4. | Ritlaun fyrir V. árgang | | | 263.39 |
| 5. | Fyrir prentun:— | | | |
| | a) V. árgangs | | $716.28 | |
| | b) VI. árgangs | | 175.00 | |
| | | | | 891.28 |
| 6. | Innköllunar- og sölulaun, burðargjald og tollur | | | 409.27 |
| 7. | Sölulaun fyrir 42 eintök af History of Iceland | | | 42.00 |
| 8. | Þinghúsleiga og ferðir í félags þágu | | | 71.00 |
| 9. | Prentun og auglýsingar | | | 62.55 |
| 10. | Gjöf til afmælis bæjarins | | | 25.00 |
| 11. | Til Fred Swanson samkv. fundarályktun 18. júní 1924 | | | 16.63 |
| 12. | Richard & Bishop fyrir nótnaprentvél | | | 13.30 |
| 13. | G. Thomas, fyrir silfurmedalíu | | | 3.35 |
| 14. | Frímerki, pósthylkisleiga, símskeyti | | | 17.25 |
| 15. | Ritföng | | | 4.45 |
| | Til jafnaðar:— | | | |
| | Hjá fjármálaritara | $ 32.00 | | |
| | Hjá skjalaverði | 587.57 | | |
| | | | $619.57 | |
| | Óinnheimtar skuldir 3 útsölumanna | | 254.35 | |
| | Óinnheimtar auglýsingar | | 105.60 | |
| | Í sjóði:— | | | |
| | a) Hjá féhirði | $553.56 | | |
| | b) Í landsbankanum | 230.14 | | |
| | | | 783.70 | |
| | | | | 1763.22 |
| | | | | $5688.57 |